er minnast hans/ Og Mannsins Barn þad þu vitier þess?

Þar næst seiger Gudspiallamadurin/ Ad þesse Madur edur Hwsherra/hafe
giørt MIKla Kuølldmaltyd. Fyrer Kuølldmaltyd þessa/eiga ecke ad skiliast
Natturleger/edur Almeñeleger Kietter/Helldur talar Herrañ Christur hier/
vm eina Himneska/og Andlega Kuølldmaltyd/sem tilreidd verdur fyrer pre
dikunar Embætte Evangelij/J huørre Herrañ Christur þad blessada Lambed
Guds/er sialfur Fædañ/og er þar nælægur/med allre siñe Nad/For þienustu/
og Verdskulldan. Og verdur oss hier kient/og fyrer Stooner sett/Huad ly
steleger/Gagnleger/og Naudsynleger Hluter/ad sieu Predikun Guds Orda/og
þau heiløgu Sacramenta. Jaa/ þau þiadu og þreittu Hiørtun kuña best ad
þeña/ og saña huad Lystug og Heilnæm þesse Kuølldmaltyd sie/ þuiad so sem
þ/ad eirn Huugradur/Kweñ og þreittur Verkamadur gyrnest ad setia sig ni
dur vm sijder/og næra sig a Fæduñe/epter strangt Erfide. So er Kiett Ch
ristnum Mañe/eckert æskelegra/nie Hugsuølunarsamara/eñ ad smacka þa Him
nesku Kuølldmaltydena/sem oss verdur frambodiñ j Guds Orde/z þeim Hei
løgu Sacramentis. Eñ huar fyrer(kañ einhuør ad seigia) kallast þesse Kuø
lldmaltyd mykel? Þar til suara eg/ ad þar eru bæde vissar og Vigtugar Ord
saker til. Hin fyrsta er/ad Veitariñ/ eda sa sem Kuølldmaltydena giører/
er ecke eirn sliettur Herra/helldur Eilijfur Almattugur Gud. Þar næst ka
llast hun mykel/vegna þess mykla Kostnadar/ sem sa Himneske Faderiñ hefur
fyrer þessare Kuølldmaltyd/J huørre hañ giefur til Andlegrar Fædu/ siñ all
ra Elskulegasta Son/Huør ed j Ordenu og Sacramentunum/verdur fyrer oss
a Bord boriñ. J þridia lage ma þetta heita ein stoor Kuølldmaltyd/ve
gna þeirra Ypparlegu og mykelshattar Sendeboda/sem Gud hefur fra Ver
alldareñar Vpphafe/haft til þess/ ad biooda j þessa Veitsluna/suo sem ad eru
þeir H. Patriarchar/Spameñ og Kongar. J fiorda lage heiter þetta med
riettu su stoora Kuølldmaltyd/ Vegna þess mykla Mañfiølda/ sem til heñar
verdur bodiñ/þui hier til verda bodner aller Meñ j Heimenum. J fimta
mata/ ma þad vel heita stoor Kuølldmaltyd/ vegna þess stoora Gagns og
Nytsemdar/sem Truudum þar af stendur/ Þuiad huør hañ etur mitt Holld/
og dreckur mitt Blood/seiger Herrañ Christur/hia Joh. 6. Sa hefur Eilijft
Lijf/ og eg mun vppvekia hañ a efsta Deige. J siøtta og sijdasta mata er
hun/z ma heita stor Kuølldmaltyd/vegna þess/ad hun varer ecke ad eins vm
litla stund/helldur allt til Heimsins Enda. O/huilijkt Giestabod/ O huilijkt
Dyrdleg Kuølldmaltyd er þetta? Huør skyllde ecke feigiñ og giarnañ vilia
koma til þessa mykla Giestabodsins/og þad mykels virda? seigiande med hinu
heilaga David/af Psalm. 31. Huørsu mykel er þijn Goodgirne Drottiñ/huør
ia þu hefur geymt þeim sem þig ottast/et ct.

Þegar Mephiboseth heyrde/ad hañ ætte ad sitia vid Kongsins Bord/alla
sijna Lijfdaga/þa Audmykte hañ sig stoorlega fyrer Kongenum/og sagde/Hu
ør er eg þiñ Þræll/ad þu snyr þier til eins Dauds Hunds/sem eg er/z. Sam.

Bookar

Bookar 9. Cap. Huad myklu framar ættum vier med Hiartans Audmykt og Lytelæte/ ad falla flater fram fyrer þann ædsta Konginn allra Konga/ og þacka hønum þar fyrer/ ad hann ecke ad eins bydur oss einu sinne a Aare huørin/ helldur a huørium og einum Dege/ til þeirrar myklu Kuølldmaltydar/ og Lambsins Brwdkaups?

Huørier eru þa/ þeir sem sa Himneske Hwsherrann wtsender/ til ad biooda til þeirrar myklu Kuølldmaltydar? Hier vm hlioodar suo Textinn.

Og hann wtsende sijna Þienara vm Kuølldmaals Tijmann/ Ad þeir segde þeim sem bodner voru/ Komed/ þuiad nu eru aller Hluter til Reidu.

Fyrer þessa Þienara merkiast og skiliast þeir heiløgu Spamenn/ Postular/ og aller Trwlynder Ordsins Þienarar/ Huøria Gud hefur ætijd j fra Upphafe wtsendt/ til ad biooda til þessarar Kuølldmaltydar. Til hennar baud sialfur Gud Forfødurnum Noa/ og Noe sijdann øllum Heimenum/ Gen. 6. Epter Flooded voru bodner til þessarar Kuølldmaltydar/ Abraham/ Isaach og Jacob. Sijdann þar epter liet Gud Spamennena biooda sijnu eigen Folke/ til þessarar Kuølldmaltydar/ allt til þess hann sende sinn Eingietna Son/ Jesum Christum/ hingad j þennan Heim/ huørn hann kallar sinn Þion/ hia Spamanninum Esa. 53. Epter Christi Himnafør liet hann Postulana biooda øllu Folke/ epter þui sem liost er af Befalningu sialfs Herrans Christi/ hia Matth. 16. Enn huørninn velflester hafe teked þessu Tilbode Lifanda Guds/ til þeirrar myklu Kuølldmaltydar/ þad faaum vier ad heyra j þui ødru Greinarkorninu/ huørt nu epterfylger med einu Orde.

## Annur Greinin.

OG ÞEir TOku til Aller j senn Ad Afsaka Sig/ seiger Gudspiallamadurinn. Hier setur nu Herrann Christur oss fyrer Siooner/ þa hrædelegu Blindne/ og Ofacklæte/ sem Manneskiann a ad sier/ ad hun fekker ecke sinn Vitiunar tyma/ Luc. 19. Huad þo ecke sijst sannast/ a þui auma Gydinga Folke/ Huøriu Gud Drottinn liet ecke einusinne/ helldur optlega biooda til þeirrar stooru Kuølldmaaltydar/ bæde fyrer Predikun Johannis Skyrara/ Postulanna og sialfs Herrans Christi/ Enn þeir villdu þo samt ecke koma/ berande fyrer sig einar og adrar faangtar/ Ja/ einskis verdar Afsakaner/ suo sem vier faaum þessu næst ad heyra. Einn ber þad fyrer sig/ ad hann hafe Keypt BU Gard/ Og verde hann þui endelega ad fara wt Og Skoda hann/ et cæt. Huøro Lykar og Jafningiar ad eru aller þeir/ sem leggia sig epter meir enn Hoofe giegner/ ad koma vnder sig Fasteign syns Naunga/ og vilia lijeed eda eckert fyrer giefa/ Ja/ Eru alldrei til Frids/ fyrer enn þeir gieta eignad/ edur Hendad med eitthuørt slag/ Land og Reka vndann annara Manna Jørdum. Yfer þessum hroopar Ande Guds Vei/ hia Spamanninum Esa. 5. Cap. seigiande/ Vei þeim sem samann draga eitt Hws til annars/ z. leggia eirn Akur til annars/ þangad til ad þar er ecke me-

ika Kynn til/et ct. Item/stendur so j Deut. Bok. 27. Ad Bølvadur skule sa vera/sem saman færer Landamerke syns Naunga.

Añar sa sem bodiñ var/til þessarar myklu Kvølldmaaltydar/ Afsakar sig þar med/ad hañ hafe Keypt Fim Akneyte/ Og Ætle Nu Ad Fara wt og Reyna þau. Vid huørn ad lykiast aller Agiarner/Kaupmeñ og Kramarar/ sem alldrei laata sier nægiast/ huørsu myked sem þeir komast yfer af Aud og Peningum/og suikia siñ Naunga/j Kaupum og Sølum/so þeir verde ecke Rykare og Rykare.

Hiñ þridie ver sig med þui/ad hañ hafe FEst Sier KOnu/Og Meige þess vegna ecke Koma/Þad er/hañ meige ecke viña þad fyrer neinn Hlut/ad yfergiefa Burtsyslan syna/og þad Gagn sem hañ meige þar af hafa. Þetta er nu þad med ødru fleyra/sem Mønnum giører skada/og þa dregur fra Nadar Kvølldmaaltydeñe Drottins/ Ecke þess vegna/ ad þesser adurnefnder Hluter sieu j sialfum sier Fordæmanleger/ edur skadleger Hluter/ edur hindre vorn Christendoom/edur Saaluhialp/ Þuiad Rykedæme og Tymanleg-Audlegd/ er Guds Blessan. Lyka hafa þeir helløgu Forfedur/Abraham/ Isaach og Jacob/ att Akra og Fie/ so sem Heiløg Ritning vottar. Þar hafa og so ecke ad eins/gooder og Gudhrædder Kongar og Spaameñ/ helldur og eirniñ nockrer af Postulunum/verid Eigengifter/ og giørdu eckert Rangt þar wti/ Hitt er ef er þad gott ad skilia/ad øngvaneigiñ er þ Oleifelegt/þo Madr eige Akra og Kuikfie/eda sie Eigengiftur/Eñ þad/ad festa so Hiarta sitt/ vid þessa Stundlega Hlute/ad Madur yfergiefe þar fyrer þad andlega og Eilyfa/ þad er þad sem Herrañ Christur hier straffar og adfiñur.

## Þridia Greiniñ.

NV er ad miñast a þad þridia/sem er/Huørs Straffs þeir hafe sier ad vænta/sem forsmaa þetta Herrans Christi Giestabod/ Og skulum vier vita/ ad þad er sierdeilis fierfallt Straff/ sem yfer þeim haanger. Fyrst er þad/ Ad Þienarar Lifanda Guds klaga þar og seigia synum Herra/fra þeirra Ogudlegleika/og Ohlydne/so sem ad giørde Þienare þessa Hwsherrans/huør ad kuñgiørde aptur synum Hwsbonda/ Ad þeir sem bodner voru/hefdu ecke villiad koma. Fyrer þessare Ohlydne tekur Ande Guds einum og sierhuørium sterkañ Vara/j Pistlenum til Heb. 13. seigiande/Hlyded ydrum Kieñefedrum/& fylged þeim/þuiad þeir vaka yfer ydrum Saalum/suo ad þeir giøre þad med Glede/eñ ecke med Andvarpan/þuiad þad er ydur ecke gott.

Añad Straff/sem koma mun yfer alla Guds Orda/og Sacramentaña Foracktara/ Er su Hrædelega og Ognarlega Guds Reide/ sem breñur allt nidur til Helvijtis/Þui j Textanum stendur/ Ad Hwsbondiñ hafe Orded REidur. Mørgum þiker þad myked/þa hañ verdur fyrer Reide og Ofgunst syns Herra/so sem ad skiede Drottninguna Vasthi/& Haman/Esth. B. 1. & 7. Eñ huad er Reide mañaña ad lykia/vid Guds reide? Þad feingu þeir Chore/Dathan/& Abiram

Abiram

Abraham ad vita þordum/ sem suctu Lifande nidur til Helvijtis/þyrer þad/ þeir møglutu a mote Guds Manne Moyse/Num. 16. Jtem/þeir j Sodoma z Gomorra/ Gen. 19. Og adrer fleyre.

Þridia Straff þeirra Ogudlegu/ sem ecke vilia hlyda Herrans Þienurum og koma til þeirrar Andlegu Kuølldmaltydarennar/þa er þad/ad þeir verda wercktner//Enn adrer jnntektner j þeirra stad/so sem skied og framkomed er alla teidu/vid þa aumu Gydinga/j hvørra stad ad Gud hefur kallad aptur Heidingia/epter þui sem Herrann Christur hafde þeim ædur hootad/ hia Matth. 21. Cap. Ad Guds Rijke skyllde fra þeim takast/og Heidingium giefed verda þeir sem þar af Avøxt færa.

Fiorda og sydasta Hefndarstraff/ sem Gud hootar øllum Ogudlegum/ sem læta sier meira omhugad vera/ vm þetta stundlega/og Forgeingelega/helldur enn vm syna Sælar Velferd/ og þad Himneska Giestabooded/þa er þetta/ sem hier stendur sydast j Epterlijkingunne/þar Herrann seiger/Enn eg seige ydur/ad eingenn þeirra Manna sem kallader voru/munu smacka mijna Kuøldmaltyd. Og kiemur þad hier fram/sem Ande Drottins talar / fyrer Munn Spamannsins Hos. 4. seigiande Af þui þier hafed kastad j burt fra ydur Guds Orde/Þa vil eg aftur j staden kasta ydur j burt fra mier/ Þad er ad skilia/Ad sa Himneske Huusherrann vill læta slijka Foraktara syns Dyrmæta Giestabods koma j Andlegt Hungur z Þørfnun þess Signada Himnabrauds/og fara Toomhenta og Snauda/ fra synum Himnesku Giædum og Audæfum/og rata j Krøptugann Villudoom/ Huar fra Gud vardveite oss alla j Jesu Nafne. Og þeim hinum sama/ Eilyfum Almattugum Gude Fødur/ Syne og Heiløgum Anda/seigium vier Lof og Packer/fyrer alla syna Nadar Velgiørninga/nu og ad eilyfu/Amen.

# Þridia Sunnudag epter Trinitatis.

Evangelium Luc. 15. Cap.



NN aller Tollheimtumenn og Bersynduger nalægdu sig til hans/so ad þeir heyrdu hann/Og hiner Skriptlærdu z Phariseí mogludu vm þ/z segdu/ Þesse medtekur Bersynduga Menn/og etur med þeim. Enn hann sagde til þeirra/þessa Epterlijking/so seigiande. Huer sa Madur af ydur/ sem hann hefur Hundrad Sauda/og ef hann glatar einum af þeim/yfergiefur hann ecke þa niju og nijutijer a Eydemerku/og fer epter þeim sem ad glatadest/ þangad til hann finnur hann? Og

 þa hann

þa hañ hefur funded hañ/leggur hañ hañ sama(med Fagnade)sier a Herdar/kiemur Heim/z kallar samañ Vine og Nabua/og seiger til þeirra: Samgledíest med mier/þuiad eg hefe miñ Saud aptur funded/þañ sem glatadur var. Eg seige ydur/ad lyka so mun Fognudur vera a Himinum yfer einum Syndugum/sem Jdran giorer/meir eñ yfer þeim nyu og nyu tijer Riettlætum/sem eige þurfa Yferbootar vid. Eda huør er su Kona sem hefur tiju Peninga/Ef hun tyner einum/er eige so/ ad hun kueiker Lioos/og soopar Hused/og leitar vandlega/þangad til ad hun finur hañ/ Og þa er hun hefur hañ funded/samañ kallar hun Vinkonur synar/ og Grañkonur/seigiande. Samgledíest med mier/þuiad eg hefe miñ Pening aptur funded/huerium eg tijnda. Lyka so og seige eg ydur/þad Fognudur mun vera fyrer Einglum Guds/yfer einum Syndugum/þeim ed Yferboot giorer.

# Exordium.

J Numeri Bookar/12. Cap. Lesum vier/ Ad þegar Moyses hafde sier til Ecta teked þa Morlendsku Kuiñu/þa hafe hañ Broodur Aaron/og hans Systur Mariæ/mißþocknast þ so mieg/og þau mogludu hañ þar fyrer hardlega/ þui þau meintu/ad bæde sier og siñe Ætt/ munde verda Ovirding þar ad/ Ad þuilykur Madur sem Moyses var/skyllde Gipta sig/og ad sier taka eina Moriñu/ og þar hafa Vmgeingne vid hana/þar hun var Heidiñ. Þetta kañ vel Heim ad færast/til þessa Dags Gudspialls/ Þui þa Pharisei og Skriftlærder sæu og formerktu/ad Herrañ Christur(huørn Gud hafde heited ad senda synu Folke/ j Moysis stad) hafde Vmgeingne og Samtal vid Tollheimtumeñ og Bersynduga/þa kuñu þeir þ j øngrañ mata ad lyda/Helldr mogludu þar yfer/og sogdu/Þesse medteckur Bersynduga Meñ/og etur med þeim/Meinande/ad slykt være Osæmelegt/z Olydande/ og tooku sier þar þ/hier wt af Ordsøk/ad mynka hans Personu/so sem hañ være øngvu betre eñ þesser/ sem hañ vmgieckst so med/ Eñ þeir goodu Meñ skildu ecke riettelega Vnderstødu þessa Efnis. Þui þess vegna var Herrañ Christur komiñ hingad j þeñañ Heim/ad hañ kallade þa Syndugu til Jdrunar/Og leitade epter þui sem Tapad var/ Matth. 18. So sem hañ þeim þad eñ klarlegar audsyner/med þessum tueimur Epterlykingum/sem hañ setur fram/j þessu Heilaga Evangelio/ Huørt vier viliũ med fæstu Ordum einfalldlega yfervega j þetta siñ/ Og oss wt af þui þriar Smægreiner fyrer Hendur taka.

Og skal hin fyrsta vera/ vm þessa Tollheimtumeñ og Bersynduga/sem naalægdu sig Herranum Christo.

Ayñur

Auñur vm Murr og Møgl Phariseaña/ og þeirra Skriptlærdu. Og hin þridia vm Forsuar Christi/sem hañ framsetur aptur þeim j moote. Gud hialpe oss med siñe Nad/suo vier mættum hier wt af nockud gott læra/ og oss til Nytsemdar færa/Amen.

# Fyrsta Greiniñ.

Fyrra Suñudag heyrdum vier talad/vm þa myklu Kuølldmaltijd/sem Gud Drottiñ hefur tilreidt og bwed øllum Møñum/fyrer predikun Heilags Evangelij/j Christelegre Kyrkiu. Eñ j Dag verdz oss kient/huørniñ vær kuñum til heñar ad komast/sem er/fyrer saña Jdran/þa vier med þessum Tollheimtur um/og Bersyndugum/nælægium oss Herranum Christo/þui so stendur j Upphafe Gudspiallsins/Ad aller Tollheimtumeñ og Bersynduger hafe nalægt sig til hans/so ad þeir heyrdu hønum. Þrent er oss hier athugande. Fyrst/huad fyrer Folk ad vered hafe þesser Tollheimtumeñ og Bersynduger. Þar næst/ Huad þeir hafe giørt edur adhafst. Og j þridia lage/ huørt Erende þeir hafe haft til Christum. Huada Folk ad Tollheimtumeñerner hafe vered/þad wtvijsar heiløg Ritning allvijda/sem er/Ad þeir voru þeir mestu Stoorsyndarar/ sem vegna siñar jllrar Breitne/ voru hatader af øllum/ huørs vegna sialfur Herrañ Christur samlijker þeim vid Gudlausar Mañeskiur/sem ecke aktta fyrer nockra Aminiing/so seigiande/hia Matth. 18. Ef þiñ Brooder brijtur vid þig/ og skeyter huørke vm Heimuglega nie Openberlega Aminiing/þa halltu hañ sem aññañ Heidingia/og Tollheimtumañ. J þessara Selskap voru og so adrer/ huørier hier nefnast Bersynduger/ Þeir voru og ecke helldur betre eñ hiner/ Eñ allt vm þad/ þesser koma þo samt til Christum/medkieña synar Synder/og bidia hañ vm Nad/huøria þeir eirniñ faa. Þar fyrer miñ Brooder og Syster/ Siertu eirn Tollheimtu madur/ Siertu eirn Storsyndare/Jaa/ hiñ meste a medal allra añara Syndara/ so sem Paall Postule jatar vm sig/ 1. Tim. 1. Þa ørvæntu þier samt ecke Guds Nadar/ eins og Cain/Gen. 4. Helldur Huggadu þig og Hughreystu/vid Dæme Davids/Manassis Kongs/Mariu Magdalenu/Zachei/Postulans Paals/S. Peturs/og añara fleyre Stoorsyndara/ Huørier aller feingu Nad fyrer Lifandа Gude/ og bid þu af Hiarta/ med hinum Heilaga David/ af Psalm. 51. Myskuna þu mier Gud epter þiñe Myskunseme/og afmaa mijnar Synder/epter þiñe storu Myskun/So muntu visselega faa þad sama Andsuar/z Aflausn sem David fieck/ad Gud hafe burt teked þijna Synd/2. Sam. 12.

Þar næst er þad næsta Huggunarsamlegt/f oss Syndarana/Ad Jesus vor vill ecke reka oss fra sier/ nær sem hellst vier komum med sañre og alvarlegre Jdran fram fyrer hañ/ so sem hañ rak ecke þessa Tollheimtumeñ j burtu/þuiad/þo mørg og stoor sie Mañleg Synd/myklu stærre er Nadiñ/Endalaus er Guds Hialpar Hønd/huørsu stoor sem er skadiñ/ et c.



J añañ

J annann máta vilium vier skoda/og yfervega/Huad þesser Tollheimtumenn
og Syndarar hafe giørt/og adhafst/sem er/Ad þeir KOmu z giørdu sier Reo
ísu til Jesú. Og eru einginn Ólykindc/ad þeir mune hafa vered vnder pre
dikun Johannis Skýrara ædur/þa hann so kiende z sagde/Auxinn er sett til Roo
tar Triesins/og huørt þad Trie sem ecke ber goodann Auøxt/skal vpphøggvast/
og j Elld kastast/ Þeir hafa og heyrt sagt/ fra þui allra Huggunarsamlegsta
Jesu Christi Tilbode/þar hann seiger. Komed til myn aller/ þier sem Erfid
id/og Þunga erud hladner/ Jeg vil Endurnæra ydur/Matth. 11. Og þat
fyrer synest þeim þad Raadlegast/ad rýsa vpp af sýnum Synda suefne/ og ko
ma til Jesu/z jata hønum synar Synder. Ó/Gud gæfe ad vier og eirn
inn epterfylgdinn þeirra Dæme j þessu. Þui huad marger Tollheimtarar z Ber
synduger finnast nu æ þessum Døgum/Enn fæster þo af þeim vilia nálægia sig
Herranum Christo/med sannre og alvarlegre Jdran sinna Synda/helldur geing
ur þad myklu helldur so til/sem Spamadurinn Jeremias seiger/8. C. Huør er
sa nockr sem villt fer/ad hnn vilie ecke giarnann komast æ þann rietta Veginn apt
ur/Samt vill þo þetta Folk ætyd og alla týma villt fara/ þar er einginn sem
lætur sier mislýka sýna Jllsku/og seige/Huad er þad eg giøre? Helldur hlaupa
þeir aller sitt Hlaup/ so sem Grimmer Vyghestar j Bardaga. Þar fyrer sie
huør og eirn þar vm Amintur j Nafne Drottins/ ad hann drage ecke vndann
ad snwa sier til Guds/og skiota þui ecke fra einum Deige til annars/helldur be
tra sig/æ medann Nadar týminn er/ Þuiad þad kann fyrer Kuølldtýmann ordut
vy'se ad verda/enn þad var vm Morguninn/og slykt skiedur snarlega fyrer Gui
de/seiger Syrach. 5. og 18. Cap.

Huørninn(kann einhuør ad seigia) edur med huørium hætte æ eg ad nálægia
mig Herranum Christo/ z koma til hans? Fyrst ættu minn Brooder og Syst
er/ad giøra þad/med einnre heitre og alvarlegre Bæn/og Jætningu sinna Sy
nda/seigiande med þeim Fortapada Synenum/Fader Eg hefe Syndgad j Him
ninn og fyrer þier/og er þui ei verdugur ad kallast þinn Sonur/ Luc. 15. C.
Þuiad huør hann neytar synum Misgiørningum/þeim mun þad ecke vel vegna/
Enn sa sem þær medkienner z fyrerlætur þær/mun Myskun ødlast/seiger Salo
mon/j Ordskuida Book. 28. Cap."

Þar næst eigum vier ad koma fram fyrer Gud/med fullu Trwnadartrau
ste/þad er/ad vier efunst ecke/ edur ørvæntum oss Guds Nadar/ vegna vorra
Synda/Helldur seigium med Postulanum Pále/Christur hefur mig elskad/og
wtgiefed sialfann sig fyrer mig/Gal. 2.

J þridia lage/ Ef vier vilium riettelega framkoma fyrer Gud/ þa siaum
til/ ad þad meige skie med Christelegum og Gude velþocknanlegum Verkum/
þui Christur er sa allra heilagaste/þar fyrer/huør til hans vill koma/sa hlýt
tur ad afleggia allann Óhreinleik/og Jllsku/enn epterfylgia Helgunninne/ann hui
ørrar þad einginn kann Drottinn ad siæ/seiger Postulinn til Heb. 12. Þegar vier
þetta giørum/og so framkomum fyrer lifande Gud/sem er/ med heitre og Al
varlegre

varlegre Bæn/med fastre og stødugre Trw/ og med goodum og Gude þægelegū
um Verkum/ so vill hañ aptur a moot/nalægia sig til vor/ Jaa/ hañ vill nal-
lægia sig oss/so sem einn Fader synu Barne/edur so sem einn Brwdgume/ sinne
elskulegre Brwdur/ og Kyssa oss hier j Nadar rykenu/ med einum Nadar
kosse/ Eñ þar sydar meir j Ryke Dyrdareñar/ med Kosse eilyfrar Glede/ og
Vnadsemdar.

Þad þridia sem oss er athugande j þessu fyrsta Greinar kornenu/er/ Huørt
Erende ad þesser Tollheimtumeñ og Bersynduger hafe haft til Herrans Chri-
stum/ Hier vm talar so Gudspiallamadurin/segiande/ Ad Þeir Hafe nalægt
sig hønum/til ad heyra hans Kieñing/og Predikun. Øskande være/ad vier br-
eitum epter þeim j þessu/ og lietum øngvañ Hlut hindra oss þar j fra/ ad
koma þangad sem optast/sem Guds Ord er kient/og vm Hønd haft/Eñ huø-
rniñ þad til gange fyrer allmørgum/þad er Gude liosast.

## Añnur Greiniñ.

Nv vilium vier koma til þess sydara Greinarkornsins/ og framvegis yfer-
vega/ Murr og Møgl þeirra Phariseara/og Skriptlærdra/ Huar vm Gud-
spialls Textiñ so hlioodar/ Og hiner Skriptlærdu og Pharisei møgludu
vm þad/og søgdu/ þesse medtekur Bersynduga Meñ/og etur med þeim.
Hier læta þesser Illskufullu/ og Aufundsiuku Meñ/eñ nu einusiñe sem opt-
ar/ j lioose/ Þel sitt og Hiartalag/sem þeir hafa til Herrans Christum/j þui/
ad þeir misunna hønum þess/ þo nockrer fateiner hiellde sig til hans/ og hlyddu
hañs Kieñingu. Mun þetta ecke og so/ eñ nu j Dag vera miøg Almeñelegt/ad
Vndersaatarner møgla j mote synum Yfirbodurum/ þeir Ryku a mote þeim
Fatæku/og Tilheyrendurner j moote synum Kieñefedrum/ z misuña so huør
ødrum siñar Luku og Velferdar/ Hier fyrer seiger Salomon so/ j siñ Predik-
unar Book/4. Cap. Eg sa vppa Erfide og Astundan/ j øllum Efnum/ og
þa hatade sa eine þañ añañ. Hier fyrer skyllde huør og einn þar med Amiñ-
tur vera/ad læta sig ecke fundiñ verda/j Selskap og tølu/ þuilikra Møglunar
samra/og Nørrunarsamra Siergiædinga/sem alldre gieta til Frids verid.

Jaa/ þesser Pharisearar møgla ecke ad eins/ z murra/j giegn Herranum Chr-
isto/ helldur og einniñ fa foracta þeir hañ þar ad auke/j þui/ ad þeir virda
hañ ecke þess/ ad kalla hañ synu riettu Nafne/ helldur komast so ad Orde/ og
segia/ Þesse Medtekur BErsynduga/et ct. Slyker og þuilyker fiñast eñ nu
a þessum Døgum Miøg marger/ sem hallda wt af sialfum sier/eñ foracta og
forsmaa adra. Huad opt meiga goder z Trwlynder Guds ords Þienarar heyra
ad vm þa verdur sagt/sem þar stendur/ 4. Psalme Davids/ Huørnañ skal þes-
se syna oss þ gott er? Eins geingur þ og so til/ j þeirre Verralldlegu Stiettiñe
Ad þeir sem þar jñe þiena/hafa einniñ þa sem þa foracta/og lytels virda/ so
sem ad giørt var Saul/ David og ødrum fleyrum/ Eñ þesser ætte ad hafa j

j miñc þad gamla Ordtæked. Nosce te ipsum/ þad er/ad læra ad þeckia siálþa
sig/ædur eñ þeir køstudu Steine a adra.

# Þridia Greiniñ.

Epterþylger med þæstñ Ordū/þad þridia Greinarkorned/hlioodande vm þær
tuær Merkelegu Epterlykingar/sm̄ Herrañ Christur Framsetur sier til For
suars/sem er/vm þñ Villurāþande Saudiñ/og tynda Peningiñ/Hier vm hli
oodar so Textiñ. Huør sa Madur aþ ydur/sem heþur Hundrad Saude/
og ef hañ glatar einum aþ þeim/ yþergieþur hañ ecke þa nyu og nijutijer
a Eydemørku/og þer epter þeim sem ad glatadest/þangad til hñ þiñur hñ?
J huørre Epterlykingu/vor allra sætaste Endurlausnare/lyker oss vid eirn Ty
ndañ Saud. Siaum til/ Fyrer Fall vorra þyrstu Forelldra/vorum vier
asamt med þeim heiløgu Einglum/huør med ødrum/Guds elskuleger Sauder/
Psalm. 100. Eñ vegna Suikrædis Diøþulsins/ erum vier aller Villuraþan
de ordner/ Þar þyrer/Þar Herrañ Christr talar hier vm þañ tynda Saudiñ/
Þa vill hñ oss Amint haþa/þyrst vm Eymd vora ꝛ Veykleika/Þui so sem þ/ad
þar þinst valla þad Dijr/sem so margvijslegum Kuillum sie vnderokad/ sem
Saudurin̄/so erum vier og so aller/þyrer þa Andlegu Spilling Syndareñar/
jmsum Suikdoomum hladner/so þad mæ sañast a oss/sem Esaias seiger/1. C.
Ad Høþudid sie Siukt/ꝛ Hiartad veykt/J þra Huirþle til Ilia/sie eckert Heil
brygdt a oss.

Þar næst lyker hañ oss vid eirn Saud/vegna vorrar Fauvisku/Þui lijka sem
þad/ad Saudurin̄/ þa hañ heþur eitt siñ villst þra Hiørdiñe/ þa kañ hañ ecke
aþ sialþum sier til/ad rata heim aptur/Helldur/þess leingur sem hañ er j Villu
ñe/þess villtare verdur hñ. Eins geingur þad til þyrer oss/ ad þegar vier
høþum eitt siñ þared villt aþ Veige Riettlætesins/þa kuñum vier ecke aþ vor
um eigiñ Krøptum/ ad komast a rietta Leid aptur/ Þar þyrer seiger David/
og vier med hønum/Psalm. 119. Eg em so sem villtur og Fortapadur Saud
ur/ Leita þu Drottiñ ad þijnum Þioon. Þui eg þorgleyme ecke þijnum Bod
ordum.

J þridia lage/verdur oss hier lijkt vid Saudena/Vegna þeirrar stooru Hæ
ttu/og Haskasemda/sem vier erum j stadder. Þad skiedur opt ad Saudureñ
kiemst j Jmislega Hættu/eþ Hirderiñ leitar ecke ad hønum/ Þui bæde kañ hañ
ad verda sundur riþiñ aþ Vlþum/og ødrum Ovarga Dijrum. Eins geingur
og so Diøþulliñ/sa Helvijske Vlþur/vm kring/og leitar ad þeim/sem hañ ku
ñe vpp ad suelgia. So siaum til/Ad vier gaungum þorsiálega/eige so sem Fa
vijser/helldur so sem Vijser/og skickum oss j Tijdiñe/þui þad er vond Tijd/se
iger Postuliñ/Eph. 5.

J añañ mata/utmalar Herrañ Christur oss/Eymd vora og Hørmung/sem
vier erū j þallner/vegna Falls vorra þyrstu Forelldra/med þessare añare Epte

erlykingu

erlÿkingu/ sem hñ tekur hier/ af þeim Glatada Peninge. Vær vorum j fyrstu ein Heiløg Gullmint Lifanda Guds/ Stimplader og Myndader/ epter hans eigeñ Mynd/ og Bylæte/ Eñ vegna þess Dóckva Rids/ Syndareñar/ sem æ oss er falled/ erum vier so Groomtekner ordner/ ad vier høfum ølldungis mist þa Fegurdar Prÿde Gudlegrar Myndar/ og kad forskullDad/ ad vier hier epter skylldum verda eirn Tÿndur og Tapadur Peningur. Eñ hier kuert æ moote/ villum vier athuga og Skoda/ Naad og Giæskurÿke/ vors liufa Endurlausnara Jesu Christi vid oss. Þui so sem þad/ ad Hirderiñ sem hafde Hundrad Saude/ villde ecke missa eirn af þeim/ og ei helldur Konañ/ eirn af sÿnum tÿu Peningum. Eins lÿka er sa Himneske Faderiñ/ siñadur vid oss/ ad þo hañ hafe Otal þiølda heilagra Eingla/ ꝛ Høfudeingla sem hønum þiona/ og hann Daglega prÿsa/ Dan. 7. Open. B. 7. Þa hefr hñ þo samt þuilÿka Hiartans Epterlæangan epter vorre Velferd/ og Sæluhialp/ ad hønum er þad stærsta Angur ef ein af hans Saudakindum skyllde Fortapast/ Ezech. 18. Þui hañ er eirn Nadugur Gud/ og Myskunar sig yfer øll sÿn Verk/ Psalm. 145.

Þar næst siaum vier Elsku og Hiartalag Herrans Christi vid oss/ af þeim Textans Ordum/ sem hier standa/ sem er/ ad Hirderiñ skilur epter þa nÿu og nÿutÿer Saudena æ Eydemørku/ ꝛ fer ad leita epter þeim sem Glatadest/ Jtē Ad Konañ kueiker Lioos/ soopar Hwsed/ og leitar vandlega/ þangad til hun finur siñ Pening. Þetta hefur nu sÿna Andlega Þÿding. Fyrer Hirderiñ skilst Christur/ Joh. 10. Og sem vm hañ hefur verid spaad/ Ad hañ ville uppleita þad Glatada/ ꝛ leida aptur þad sem Villtest/ og græda þad hid Lemstrada/ Ezech. 34. So hefur hañ þad og so vel og trwlega giørt/ Og øngvum Glatad af þeim/ sem hans Fader hafde hønum giefed/ Joh. 17. Fyrer Konuña æ ad skiliast Christeleg Kyrkia. Hun kueiker eitt Lioos/ huørt ad er Guds Ord/ Tekur Vønd Løgmalsins/ og soopar Hwsed/ þad er/ Hun lætur Predika skarpa Løgmalsins Predikun/ og lætur þar ecke af/ allt til þess/ ad marger þeir verda funder/ sem añars hefde mætt eilÿflega Fortapader liggia j Helvÿte. Huad skyllde nu sa Himneske Hirderiñ og Vÿngards Herrañ meira giøra vid siñ Vÿngard/ sem hañ hefur ecke giørt? Esa. 5. Nu so sem þad/ ad aller Gledia sig med Hirdernum/ þa hañ hefur siñ Saud aptur funded/ og med Kuiñuñe/ þa hun hefur funded Peningiñ/ bæde Nabwarner/ Grañkonurnar/ og adrer fleyre/ So seiger og so Herrañ Christur j Niðurlæge þessa heilaga Evangelÿ/ Ad Fognudur mune verda fyrer Einglū Guds/ yfer einum Syndugum sem Yferboot giører/ meir eñ yfer nÿu ꝛ nÿutÿer Riettlætum/ sem ecke þurfa Yferbootar vid. Þad er/ þeir sem Riettlæta sialfa sig/ og þÿkiast huørke þurfa Yferbootar/ nie Jesu Forþienustu vid/ eins og Pharisei. Eñ huar af kiemur þa (kañ einhuør ad spyria) þesse Glede Heilagra Eingla? Hun kiemur þar af/ ad þeir eru Þionustusamer Andar/ wtsender til Þionustu/ vegna þeirra sem Erfa skulu Sæluhialpena/ Heb. 1. Jæ/ Yfer

Saluhialp vorre/numu ecke Einglarner alleinasta Gledia sig/helldur og eiñ
iñ Eingill þess myckla Raads/vor Drottiñ Jesus Christus/af hui hañ sier/ad
þar eru marger/sem hafe haft Not af siñe Forþienustu/Pijnu og Dauda.
Þar gledia sig og so Jesu Christi Þienarar/ sem eru aller Truer prestar og
Kieñefedur/ Huørier ad kallast Einglar Fridarens/Esa.33. Og þacka Gude
þar fyrer af Hiarta/Ad þeir hafa getad leidt nockrar Saaler til Himnaryki
e þeirra Erfide hefr ecke verid forgiefens j Christo/1.Cor.15. Nu þeirre H-
Guddoomsins Þreñingu/seigium vier Lof/Vegsemd og Æru/ nu hiedañ j fra
og ad Eilijfu/Amen/AMEN.

# A Sancti Johañis Baptistæ Dag.

## Evangelium/ Luc.1. Cap.

OG þa ed sa Tijme var komiñ/þad Elizabeth skyllde fæ-
da/og hun fædde Son. Og er Nagrañar heñar og Fr-
ændur heyrdu þad/ad Drottiñ hafde margfalldad Mysk-
un sijna vid hana/samglodduft þeir heñe/Og þad skie-
de/ad þeir komu a hinum attunda Deige/ad Umskiera
Sveiniñ/og Nefndu hañ sijns Fødurs Nafne Zachar-
ias/Eñ Moder hans svarade og sagde. Aungvañeigiñ/helldur skal hñ
Johañes heita. Og þeir søgdu til heñar/þar er þo eingiñ j þiñe Ætt/s
ad heiter þessu Nafne. Eñ þeir bentu Fodur hans/ huad hañ villde ad
hañ hiete. Eñ hañ beiddest Knefaspiallds/ skrifade og sagde/ Johañes
er hans Heite. Og þeir vndrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hans Muñ
ur vpp/og Tunga hans talade/Lofande Gud. Og Otte kom yfer alla
þeirra Nagrañar/og vm allar Fiallbygder j Judea/vijdfrægdust øll þesse
Ord. Og aller þeir ed þad heyrdu/ settu þad sier j Hiarta/og søgdu.
Huør grunar þig ad þesse Sveirn verde? Þuiad Hond Drottins var md
honum. Og Zacharias Fader hans fylltest af Heiløgum Anda/Spaade
og sagde. Blessadur sie Drottiñ Gud Israels/ þuiad hañ vitiade/og
giørde Frelsan sijnu Folke/ Og hañ vppreiste oss eitt Hialpar horn/
j Hwse Davids Þions sijns. So sem hañ hefur talad/ fyrer Muñ siña
Heilagra Spaamaña/þeirra ē nu eru af Heimenum. Hañ frelsade oss
fra Ovinū vorū/og af Hende allra þra ē oss hotuðu. Nū giørde Mysk-
unsemd

unsemd vid Fedur vora/ og minnest á siñ Heilaga Sáttmála. Og á þad Sære/ er hañ soor Fødur vorum Abraham/ ad hañ giæfe oss þad. Ad vier leyster af Hende Ovina vorra/ Þionudum hønum án Otta/ J Heilagleika og Riettlæte/ fyrer hønum sialfum/ alla vora Lijfdaga. Og þu Sueirn munt kallast Spámadur hins Hædsta/ þuiad þu munt fyrer teña Auglite Drottins/ ad tilbwa hans Vegu. Og ad giefa hans Folke Skilning Sáluhialparañar/ til Fyrergiefningar Synda þeirra. Fyrer Myskunar Jdur Guds vors/ j huørium hañ vitiade vor/ Uppruñiñ af Hædum/ Ad lysa þeim sem j Myrkrum og Daudans Skugga sitia/ til ad greida Fætur vorar fram á Veg Fridarens.

# Exordium.

Hegar Gud Drottiñ hefur viliad giøra og framkuæma nockud Vittugt/ stoort og Miñisstædt Furduverk/ hier vor á medal/ á Jørduñe/ þa hefur hañ Blessadur/ optast nær uppvaked/ og wtvaled sier einhuørtar Ypparlegar persónur/ sem hañ hefur sialfur prydt/ framar ødrum/ med sierlegum Gáfum/ og Andagipt/ ad framfylgia þui sama Verke. Til Dæmis ad taka/ þegar Drottiñ villde frelsa Jsraels Folk/ fra þeim Egyptska Þrældoome/ þa wtvalde hañ þar til siñ Elskulega Þienara Moysen/ og haf hønum myklar og háfar Gáfur/ So hañ gat giørt med þeim Staf/ sem hañ hafde j siñe Hende/ mørg Jardteikn og Furduverk/ fyrer Pharaone Konge/ þangad til hañ um sijder/ fieck Folked laust/ so sem þar um má lesa/ Exo. 7. Epter Moysis Afgang/ þegar Drottiñ villde jñleida Jsraels Folked/ j þad Fyrerheitna Canaans Land/ þa wtvalde hañ þar til Josuam/ huørn hañ prydde med myklum Gáfum. Þesse same Hershøfdinge/ ødladest þad/ ad meiga ganga med øllum Jsraels Lijd/ þurrum Footum yfer um Ana Jordan/ Jos. 3. J sama máta fieck hañ þad af Drottne/ fyrer Audmiuka Bænagiørd/ ad Soolin stood kyrr á Festingar Himnenum/ Þuiad/ þegar hañ mællte so/ og sagde til Soolariñar/ Sool stattu kyrr j Gibeon/ og Tungled j Dalnum Aialon/ Sia/ Þa vard þad ad Orde og søñu/ ad bæde Sool og Tungl aptrudu synum Edlelegum Gang/ og stodu kyrr/ allt þangad til/ ad Folked feck hefnt syn/ á synum Ovinum/ Huad hid sama er fyrer eina Furdu upp teiknad/ j Heilagre Ritningu/ ad þar hafe einginñ Dagur vered þessum lykur huørke ádur nie sijdañ/ epter þui sem þar stendur/ Jos. B. 10. Þegar Gud villde frelsa sitt Folk/ af Philisteaña Hende/ wtvalde hñ þar til Samson/ hues Fæding/ og Gietnadur var bodadur af einum Eingle. Þessum synum Þienara lagde hañ þuilijkt Afl og Orku til/ ad hañ sundur sleit millum siña Handa/ eitt Leon/ motlijka og þa Meñ sundurslijta eitt Kid/ Hañ sloo og suo j hel/ med einum Asna Kialka/ Þusund Meñ, og ødladest þad fyrer syna Al-

varlega Bæn/ad þa hañ þyrste eitt sinn myklelega/so hañ sa ei añad fyrer/ eñ
hañ munde af þeim Þorsta wt af deya/ þa klauf Gud eirn Jaxl j Asnakialk
anum/ so þar spratt wt af Vatn/suo hañ Drack/ og hans Ande kom til hans
aptur/og vard Enduenærdur/so sem þar vm stendur skrifad/. Domara Book
areñar/13.14.og 15. Cap.

Nu so sem þad/ad sa Almættuge Gud/vppvakte j þui Gamla Testament
tenu/þuilyka Ypparlega Meñ/sem skylldu framfylgia/og a Lopt hallda syn
num Vilia/og Dasemdarverkum/ Eins skulum vier vita/ ad hañ hefur og
so giørt a Nya Testamentesins Tymum. Þegar Drottiñ Gud villde fulll
komna & framkuæma þad mykla Verk Mañkynsins Endurlausnar/ & læta siñ
Son fædast hingad j þeñan Heim/þa wtvallde hañ Johañem Skyrara/ til ad
vera FyrerReñara þessa syns Elskulega Sonar/og Tilreida hønum Veigiñ.
Þessum synum Þienara/til meire Stadfestu merkis/ vppa syna Embættis Rø
llun/ þa liet hañ vndañ fara nockur eptertakanleg og Merkeleg Furduverk/
sem var. Fyrst/ ad hañ liet Johañem fædast/ af forgømlum Foreldrum/ Og
þar a ofañ af Ofriofsamre Modur/sem var Elizabeht. Þar næst var hañ
ns Fæding af einum Guds Eingle bodud/ og kuñgiørd. J þridia lagi/
þa hans Mooder Elizabet/ sem var vm Attrædis Alldur/ heyrde Heilsan
Mariæ/þa seiger Gudspiallamadurin/ ad Barned hafe sprotted vpp j heñar
Kuide.. J fiorda Mata stendur þar/ad Zacharias Fader Johañis hafe
orded Mallaus/ og ecke kuñad ad tala/ fra þui ad Einglliñ Bodade hønum
Giernad & Fæding hans Sonar/og til þess hañ fæddest.

Allt þetta syner oss/og fyrer Siooner setur þad/Ad Gud Drottiñ hefur
ætyd j fra Vpphafe/ synt nockur Audkieñingar Teikn/ a synum Þienurum/
sem hañ hefur fram yfer adra Vtvaled/til ad þioona sier/og synum Christeleg
gum Søfnude. Og fyrer vtan leingra Jñgang/ viltum vier j Jesu Nafne
vykia til Gudspialls Textans/og taka oss fyrer Hendur/hañ ad skoda og Hug
leida/j fim Smæpunctum.

1. Sa fyrste skal vera/ a huørium tyma Johañes hafe Fæddur vered.
2. Af huørium Foreldrum. 3. Þridie skal hlioода vm Føgnud þañ
sem Nrungar & Nagrañar høfdu/ yfer þessare Fædingu Johañis.
4. Vm hans Vmskurn/og Agreining þañ/sem vard vm hñs Nafn & Heite.
5. J þeim fimta og sydasta/vilium vier einfalldlega/med fæstum Ordum/
yfervega þañ fagra Lofsaung Zachariæ. Gud Himneskur Fader giefe
ad þetta mætte verda hønum til Dyrdar/Eñ oss øllum til Gagns/og Sæl
ar Velferdar/J Jesu Nafne/ AMEN.

# Vm Þad Fyrsta.

SO myked sem vidvykur Tymanum/a huørium Johañes var fæddur/ þa
skulum vier vita/ad þad var a þryttugasta og fyrsta are Rykisstiornar
Herodis Kongs j Judæa/ Þa lided var fra Veralldareñar Skøpun/ þriu

Þusund

Þusund/Nÿu Hundrud/ Sextÿe og eitt aar/ epter þui sem Kyrkiu Historiu Skrifararner wtvÿsa.

Nu var Herodes eirn mykell Tyrañe/sem med Ofrÿke plagade/og vnder þrycte Gydinga Folk/ samt sem adur villde Gud lata þeñañ siñ Þienara Johañem/ a hans Døgum/og vnder hans Stiornar Vellde fædast.

Hier af høfū vier oss þ til Lærdoms ad taka. Fyrst/ Ad þo Herodes Kongr være eirn Grimur Tyrañe/sem med Hardydge høndlade vid sÿna Vndergiefna/ þa samt hiellt þo Drottiñ vid Magt/ siñe Christne/og liet bæde a hans Døgū Johañem Skÿrara/sem og skømu þar epter/siñ Eingietiñ Hiartans Son/ Jesum Christum/hingad j þeñañ Heim fædast/oss Mõñunum til Saalargagns/og Velferdar. Þañiñ hefur nu Gud Drottiñ alla Daga og Tyma halldeð siñe Christne vid Magt/ og sendt heñe midt j Ofsoknunum/ Gooda og Trwlinda Kieñefedur/og Ordsins Predikara/huar fyrer hønum sie Eilÿfr Lof og Packargiørd. Herodes Kongur hafde æsett sier/ Ad afmaa/ og Eydeleggia alla Davids Ætt og Afspreinge/ af huørri Endurlausnariñ Heimsins ætte ad koma/epter Holldenu. Samt liet Drottiñ hønum ecke þuilÿkañ Diøfulleg añ Asetning takast/ Þar fyrer seiger Herrañ vor Jesus Christus suo/ hia Luc. 12. Hrædst eige þu litla Hiørd/þui þad þocknast ydar Fødur/ad giefa ydur Rÿked. Þetta skal vera oss til Huggunar/j øllum Ofsooknum/ Ad Gud er vor Styrkur/ Jaa/Eirn Hialpare j þeim myklu Anaudum/ sem oss hafa hitt/seiger hiñ heilage David/j Psalmenum 46.

Þar næst lærum vier þad hier/huørsu þad/ ad Gud er trwr/og Halldiñordur j sÿnum Lofunum. Drottiñ hafde fyrer nockrum Hundrud aarum/lated sÿna Spaameñ fyrer seigia Fæding Johañis/ so sem ad voru þeir/ David/ Esaias og Malachias/Þui so seiger hiñ Heilage David/Psam. 132. Jeg hefe Tilreidt mÿnum Smurda eitt Lioos. Esaias kiemst so ad Orde/ og seiger/ 40. Cap. siñar Spaadooms Bookar/ Þar er eiñs Predikara Raust j Eydemørkuñe/ Tilreide þier Vegu Drottins/Giøred j Obygdiñe Sliettañ Veg vorum Gude. Malachias tekur so til Orda/og seiger/ 3. Cap. Siaaed/Eg vil senda miñ Eingel/ sem tilreida skal Veigiñ fyrer mier. Og j næst epterfylgiande Cap. Seiger same Spaamadur. Sia/ Eg vil senda ydur Eliam Propheta/ adur eñ sa mykle og Ognarlege Dagur Drottins kiemur/Hañ skal snwa Fedraña Hiørtum til Barnañа/ z Barnañа Hiørtum til siña Fedra. Ad aller þesser Spaadoomar hafe Riettelega att Heima/og hlÿdt vppa Johañem Skÿrara/þad stadfester/ z bevÿsar Herrañ Christur sialfur nooglega/hia Matt. 11. og Marc. 1. Cap.

# Vm þad añad.

ANNar Puncturiñ/ wt af þessum vorum Gudspialls Texta/ hlioodar þar vm/huørier vered hafe Forelldrar hins heilaga Johañis. Eñ þeir verda hier wtþryckelega Nafnkiender/j þañ maata/Ad hans Fader hafe heited Zacharias

arias/Eñ hans Mooder Elizabet. Og er so ad Ræda/af Kyrkiunar Historiu
Bookum/ ad þau hafe vered komiñ af Kyne Levi/og af Ættlegg þess Ypp
arsta Kieñemans Aaronis. So hefur þa Zacharias/ ecke alleina
sta vered komiñ af Kieñemañlegu og Prestlegu Slecte/ helldur var hñ og ei
rniñ sialfur eirn Prestur/ og Kieñemadur/ og er hinum heilaga Johañi
þad ecke allytel Æra/ og Virding/ad hañ er Gietiñ og Fæddur/af so Yppar
legum og Mykels hattar Forelldrum.

Þar næst verdur og so getted j Gudspiallegre Historiu/Ad þesser Forelldr
ar Johañis hafe vered Eigengiptar Personur/og lifad j Hiwskap/edur Hio
nabande til samans. J þridia mata verdur þeim þad til Lofs lagt/ Ad
þau hafe vered bæde froom/og geinged epter Guds Bodordum og Setningum/
Ostraffanlega. Eñ hvørniñ sem þessu var vared/þa skulum vier þo sa
mt vita/ad þau lifdu ecke til samans fyrer utañ Kross og Motgang/þui vm
Elizabet er þad skrifad/ad hun hafe vered Obyria.

Af þessu øllu høfum vier oss þad til Lærdoms og Uppfrædingar ad taka.
Fyrst/verdur øllum Eigengiptum Personum/og Ecta Hioonum/hier eirn Me
rkelegur Hiwsspeigill fyrer Sioner settur/ hvørniñ þau eige ad haga sier/ og
hegda/j þeirre Heiløgu Hiwskapar stiett/epter Dæme þess Alldrada Kieñema
ns Zacharia/ & hans Kuiñu Elizabetar. Og eru þad sierdeilis fiorar Yppar
legar Dygder/sem vier høfum af þeirra Dæme ad athuga/ og gaumgiæfelega
ad Jhuga. Su fyrsta er Søñ Og Alvarleg Gudrækne/ þui suo vottar
Gudspiallamaduriñ/ Ad þau hafe bæde vered froom fyrer Drottne/ þad er/
þau hafe Elskad og astundad Guds Ord/ og geinged Jduglega til Kyrkiu/
til ad giøra sinar Gudrækelegar Bæner. Nu/þessa Edla Dygdena/ ættu øll
Christileg Hioon Kostgiæfelega ad astunda/ þui hun er su/ vm hvøria Posti
uliñ Pall talar so/og seiger/1 Tim.4. Gudrækniñ er til allra Hluta Nytsam
leg/hafande Fyrerheit þessa Lyfs og añars. Og j ødrum stad seiger same Po
stule so/Ad þad sie eirn mykell Aviñingur/nær eirn er Gudhræddur/og lætur
sier ænægia/ Þuiad (seiger hañ) Vier høfum eckert jñflutt j þeñañ Heim/ Af
þui er þad openbert/ad vier muñum eckert helldur j burt hafa/ 1. Tim.6.

Añad þad sem vier høfū hier ad læra/ af Dæme Zacharia og Elizabetar/
þa er eitt Meinlaust og gott Lyferne/og Framferde/þui so vottar Gudspi
allamaduriñ/ ad þau hafe geinged epter Guds Bodordum & Setningum/ O
straffanlega/þad er ad skilia/Ad þau hafe ecke ad eins/elskad hvørt añad Jñ
byrdis sin a milli/ helldur hafe þau og eirniñ lagt alla Alwd og astundan
þar a/ad lifa vel/ og hallda Frid og Eindrægne vid alla Meñ/ og gefa þar
med ødrum gott Epterdæme af sier. O hvad vel og prydelega skartar þe
sse Edla Dygdiñ a øllum Ectahionum? Sa vyse Madur,Syrach/ þikest ecke
noglega kuña ad fullprysa hana/Þar fyrer tekur hñ so til Orda j 25. Cap.
sinar Bookar/so seigiande. Þad eru þryr Hluter fagrer/ sem bæde Gude og
Møñum vel þocknast/sem eru þesser/Þegar Brædurner eru samþycker/og Na

ungarner

Ungarner Elskast/ og Madur og Kuiña þolykast vel. Þar þuert á mote/ Huar hellst sem i Hwsstiorneñe er ecke añad ad þiña/ eñ Agg og Deilur/ Hatur og Osamlynde/ og allskonar Tuijdrægne/ þa kañ þar eingiñ Blessan ad vera/ so sem Dagleg Dæme nooglega audsyna.

Þridia Dygdiñ/ huøria øll Christeleg Ecktahioon/ eiga ad ástunda/ þa er al varleg Idne og Astundan syns Embættis. Siaum til/ huørsu þesse goodu Hioon/ Zacharias og Elizabet/ taka vel og trwlega Vara/ á þui sem þau eiga ad giøra/ Puiad/ þegar Zachariæ bar á vissum Tyma ad fremia sitt Kieñemañlega Embætte/ og ad veifa Reykelse i Musterenu þ Drottne/ þa forsoomade hañ þad alldrei/ helldur took idulega vara á Guds Þionustugiørd. Elizabet i sama máta/ liet sier so sem øñur good Hwsmooder vmhugad vera/ vm sitt Hwsstiorn. Huar sem nu so geingur vel og skickanlega til/ i huøriu hellst Embætte sem þad vera kañ/ þa skulum vier vita/ ad þar er vissulega Guds Blessan nálæg/ epter þui sem Salomon seiger/ i Ordskuida B. 24. C. Ad af skickanlegre Heimilis Forstødu/ vppfyllest Geimsluhwsiñ/ med allskins kostuleg/ gañ og Dægelegañ Rykdoom. Þar þuert á mote/ Huar hellst sem jlla og Oskickanlega Tilgeingur/ og allt fer aflaga i Hwsstiorniñe/ þar er ecke von á ødru eñ Ogiæfu/ og allskins Olucku.

Su fiorda Edla Dygdiñ/ sem øllum Christelegu Hioonum/ á ad vera medgiefiñ/ er Sañarleg Þolenmæde. Þui er so vared og hattad/ ad Gud Drottiñ leggur optast nær Hioonabandsstiettiñe/ einhuørn Kross og Motgang vppa/ þui stundum sender hañ þeim sem þar iñe lifa/ Soott og Kranckdæme/ Sumum lætur hañ til falla Fatækt og Armood/ Sumum margvijslegar Ofsookner. Sumum vilia til Ohlydiñ og Ostyrelaat Børn. Sumum vonder og Hreckvijser Nabuar/ Sumum Suikullt Viñufolk/ og margt añad þessu lykt. Ecke voru helldur þesse godu Hioon/ Zacharias og Elizabeth Angurlaus/ þui hier stendur i Gudspialls Historiuñe/ Ad Hun hafe vered Obyria/ huad ad ur fordum var halldeð fyrer stoora Læging hia Gydinga Folke. Samt sem adur bæru þau þeñañ siñ Kross/ vel og Þolenmoodlega/ og møgludu ecke á mote Vilia Guds/ helldur lietu sier þad vel lynda/ sem Drottiñ villde láta þeim ad Høndum koma. Epter þuilyku Þolenmædeñar Dæme/ ættu øll Christeleg Hioon ad breyta/ þui þad er eitt Merkelegur Hlutur/ ad vera Þolenmoodur/ og vona vppa Hialpena Drottins/ seiger Jeremias/ i synum Harmagraat/ 3. Cap.

## Vm þad þridia.

ÞRidie Puncturiñ/ sem eg lofade á ad miñast/ Er vm Føgnud þañ og Glede/ sem Nagrañarner feingu af þessare Johañis Fædingu/ Hier vm ávijsar so Textiñ/ Ad þegar Grañar og Nafrændur Elizabetar hafa heyrt þad/ ad Drottiñ hefde Miskun syna vid hana margfalldad/ Þa hafe þeir ecke giet

 ad af:

ad af sier skaded/ad þeir kiæme ecke/ og Samgleddust mz heñe/Og þøkkudu Gude fyrer syna Omælanlega Millde/sem hñ hafde heñe j margañ mata veitt og audsynt. Sem var j fyrstu/Ad hañ hafde burt teked heñar Bryxle/og giørt hana nu j synum Hæa Alldurdome/ad eirne Gladværre Barna Moodur/epter þui sem David ad Orde kiemst/ Psalm. 113. Þar næst Samglediast þeir heñe/ fyrer þad/Ad Gud hafde læted hana komast vel og skadlaust fra synu Foostre. Eñ einkañlega og sierdeilis glediast og samfagna Nagrañarner yfer þui/ ad Johañi veitest su Æra/ ad meiga vera og heita FyrerReñare Messiæ/ og Heimsins Frelsara/vors Drottins Jesu Christi/epter þui sem ædur hafde vered vm hañ spaad.

Hier wt af høfum vier oss þad til Lærdooms ad taka. Fyrst lærum vier þad hier/huørsu þad hafe Olyka tilgeinged/fyrer Christnum Møñum og Heidnum/ fordū Tyd/þegar huørium þeirra fyrer sig/ hefur orded auded Barna. Þui vm Heidna Meñ er þad skrifad/ ad þeir hafe Græted/ og bored sig jlla/þa þeirra Børn fæddust/eñ gladst og Fagnad aptur/nær þeir mistu þau/ og Daudiñ kipte þeim j burtu. Eñ þad hafa ecke heilager Guds Meñ giørt/ helldur/nær þeir hafa einhuørn siñ Astvin fra sier mist/þa hafa þeir Græted og bored sig jlla/so sem allvyda ma sia af heilagre Ritningu/Og þar kuert a mote orded miøg glader þar vid/þa Gud hefur giefed þeim Børn. Þar fyrer eru þeir Forelldrar ønguañeigiñ acktande fyrer Christna Meñ/helldur fyrer Heidingia og Vantrwada/ sem læta sier þikia þad midur/ þa Gud blessar þa med fiølda Barna/Meinande ad Drottiñ sie ecke Megnugur ad veita þeim Forsorgun/og añad sem þeim er Naudsynlegt til þessa Lyfs Opphelldis. Helldur skylldu øll Christeleg Hioon/ þacka Gude med Føgnude/ nær hañ Blessar þau med Lyfs Avexte/eins og giørdu Zacharias og Elizabet/ asamt þeirra Viner og Nagrañar.

Þar næst suo sem þad/ Ad Viner og Nagrañar Elizabetar gløddust yfer heñar Luku og Velgeingne/So byriar oss og eirniñ/ad fagna med Fagnendum/ epter Postulans Pals Amiñingu/ j Pistlenū til Rom. 12. Þui þad er Christelegt og Gude þægelegt/ad þa Herrañ blessar eirn og sierhuørn/ j huørn hellst mata sem þad vera kañ/ad vier vñum þeim þess/ecke ad eins af Hiarta helldur og þøckum Gude med þeim/fyrer slyka syna Naad.

## Vm þad fiorda.

NV epterfylger med einu Orde/ad miñast a þañ fiorda Punctiñ/sem hlioodar vm Vm kurn hins heilaga Johañis/og vm Agreining þañ sem vard vm hans Nafne/sem hønum ætte ad giefast. Hier vm stendur so j Textanū. Og þeir komu a hinum attunda Deige. Þad er/sem Gudspiallamadurinn villde so seigia/ Þeir Viner og Nagrañar Elizabetar/ sem ædur høfdu samfagnad heñe/komu aptur/eñ ecke til þess/ad eta og drecka/og hallda Giestabod so sem marger Forelldrar giøra/þa þeirra Børn eiga ad skyrast/helldur koma

þeſſ Erindis/Ad VMSkiera SVeinin̄/epter þui ſem Drottin̄ hafde adur boded og ſkikad/ ad øll Sueinbørn ſkylldu a þeim attunda Deige Vmſkiereraſt/Gen. 17. Þeſſare Stickum Lifanda Guds/er Johan̄es hlydugur/þui han̄ var af ſynum Forelldrum j Syndunum Gietin̄ og Fæddur/ ſuo ſem øn̄ur Børn/og þurfte þar fyrer þeſſ vid/ ad hn̄ yrde jn̄tekin̄ j Sattmaala Guds.

Þar næſt gietur Gudſpiallamadurin̄ hier/ Ad nockurskonar Agreiningur hafe orded/ vm Nafn þeſſa Vnga Sueins/þuiad Nagran̄arner hafe viliad Nefna han̄ ſyns Fødurs Nafne Zacharias/En̄ Mooder hans hafe ſtaded þar a moote/og ſagt/Aungvan̄eigin̄/ helldur ſkal hn̄ Johan̄es heita. Huad hun j øngvan̄ maata giørde vnder þa Grein/ ad hun villde Foracta ſin̄ Ectaman̄/Helldur vppa þad/ad hun fullnægde Eingelſins Ordum/og Drottins Befalningu. En̄ Ordſaker/ huar fyrer ad Nagran̄arner villdu ecke ſamþicker verda/ad Barned ſkyllde heita Johan̄es/ voru ſierdeilis þeſſar þriar. Fyrſt/ad Nafn þetta var ecke j þan̄ tima Altydkad hia Gydingum. Þar næſt þotte þeim þad tilheyrelegaſt/ad Sonurin̄ ſkyllde bera ſyns Fødurs Nafn/og taka ſo ſem ad Erfdum/bæde vid Nafne hans og Embætte. Þa þrediu Ordſøkena leggia þeir ſialfer til/og ſeigia/Ad þar ſie eingin̄ j hen̄ar Ætt/ſem heite þeſſu Nafne. Þad er/Sem þeir villdu ſo ſeigia/ Hefur þad ecke vered gømul og Lofleg Sidvenia hia oſſ/ad giefa Børnunum Nafn/ an̄adhuørt epter ſynum Forelldrum/edur ad minſta koſte epter ſynum Skylldmønnum? Huad ſkulu þa þeſſar Nyungr/ad lata Barned heita þeſſu Okienda Nafne/Johan̄es? En̄ ſem þeir formerkia Alvøru Elizabetar/ad hun vill j øngvan̄ maata an̄ad/en̄ Sueinin̄ ſkule Johan̄es heita/þuert a mote þeirra Villa/og Raadleggingu/ þa lata þeir ſier þo ecke þar med nægia/ helldur ſeiger Gudſpiallamadurin̄/ Ad ÞEir HAfe BEndt Fødur Hans/Huad Han̄ Villde ad han̄ hiete. En̄ han̄(epter Malleyſis vanda ſynum) Beiddeſt Kneffa ſpiallds/ſkrifade og ſagde/Johan̄es er hn̄s Neite/ꝛ þeir vndruduſt aller.

Hier af lærū vier þad. Fyrſt/Ad lyka ſem þad/ad Gydingar voru Forplicktader til/ad lata Vmſkiera ſyn Børn/ſtrax a attunda Deige/epter ſyna Fæding/vppa þad/þau mætte ſem fyrſt komaſt/og jn̄takaſt j Sattmaala Guds/og verda Saaluhólpin̄. Eins erum vier Chriſtner Men̄/ Skyllduger ad lata vor Børn koma/ þad allra fyrſta(epter ſyna Fæding)til þeirrar heiløgu Vatnsſkyrnar/Þui Skyrnin̄ er komin̄ j ſtadin̄ Vmſkurnaren̄ar/Leifed ſeiger Herran̄ Chriſtur/hia Marc/10. Børnunum til myn̄ ad koma/ꝛ ban̄ed þeim þad eige. Þad er ſem han̄ villde ſo ſeigia/ Þier Forelldrar gæted ad ydur/ad þier ecke fyrer Glaum ꝛ Glede/edar nockra adra Heimſins Vellyſt ꝛ Epterlæte/vndandrægid/ad koma med ydur Børn til Skyrnar-fæſins/ þuiad Skyrnin̄ er ſu Endurfædingarlaug/fyrer huøria Børnin̄ verda jn̄tekin̄ j Guds Ryke. Þar f/ þeſſ leingur ſem Forelldrarner lata Børnin̄ vera heima hia ſier Oſkyrd/þeſſ leingur ſtofna þeir þeim til/ad vera vnder Ryke og Vallde Diøfulſins/og fyr

 er Vtan̄

er vtan Guds Raad/ og þan Sattmaala Drottins/ sem han hefur j Skyrninne vid oss bundid/sem er þesse/Ad huør sem trwer og verdur skyrdur/skal Saalu holpin verda. Þui er þad hin meste Saalar Haaske fyrer Børnin/þa þau eiga ecke fyrer vtan þad heilaga Sacramentum Skyrnarennar.

Þar næst verda aller Christner Forelldrar hier aaminter/ad laata giefa sijnum Børnum þau Nøfn sem vel soomer/z tydkanleg hafa vered hia Guds Folke/og Søfnude Drottins/adur fordum. Hier j þessu Lande hefur fundest stoor Vanbrwkun j þuilyku Efne/adur fyrr meir/Þui þar hafa vered sumer Forelldrar/ sem ecke alleinasta hafa laated syn Børn heita/ epter Heidnum Kiempum og Fornmønnum/sem vered hafa ad meira Parte Trøll/en Manneskiur/sem staa maa af fornum Søgum/helldur hafa þeir og so laated giefa þeim Nøfn/ epter Villudyrum og Bestium/ En hier aa moote skulum vier vita/ Ad Gud hefur kallad oss j burt fra þeim Megna og myrkva Heidendoome/og til syns Dyrdarlega Lioos/so sem Postulinn Petur ad Orde kiemst/1. Pist. 2. Þar fyrer ber oss ad ganga/ so sem Lioossins Børnum/og leggia øll Heidin Nøfn til Sijdu/ þui Gud hefur Andstygd aa þeim/ og vill afmaa og afskafa þau/epter þui sem þar stendur j Osee Spaadoome B. 2. Cap.

Framveigis er þad vel athugande/ og eptertakanlegt/ wt af þessu Heilaga Gudspialle/ad þar stendur/ad þui Bile/ sem Zacharias ætlade ad giefa syna Meining og Skriflegt Andsuar fra sier/vm Sueinsins Nafn og Heite/ þa hafe vpplokest hans Munnur/og Tunga hans hafe talad/ lofande Gud/ Þetta var eitt myked Jardteikn og Furduverk Lifanda Guds/ ad sa sem suo leinge hafde vered Maallaus/ skyllde aa einu Augnablike/ faa aptur sitt Maalfære/ og kiennur þad hier fram/ sem þar stendur/Exo. 4. Cap. Huør hefur skapad Mannsins Munn/edur huør hefur giørt þann Maallausa/og þann Daufa/ stamanda edur þann Blinda /hefe eg Drottinn ecke giørt þad?

Ad sijdustu stendur hier/ ad wt af þessu Daasemdarverke Lifanda Guds/ hafe komed Otte yfer alla þeirra Naagranna/ og vm allar Fiallbygder j Judæa hafe vijdfrægdst øll þesse Ord/og aller þeir ed þetta heyrdu/hafe sett þad sier j Hiarta/og sogt/huør grunar þig ad þesse Sueinn muni verda? Hier j þessum Textans Ordum/ er jnnefalinn suo sem nockurskonar Spaadoomur vppa Johannem Skyrara/huad Ypparlegur/og Gude þægelegur Madur/hann munde verda.

Vm Athanasium. Byskup er þad skrifad/ Ad þa hann enn nu var aa sijnum Vngdooms/og Vppvaxtar aarum/ og liek sier med sijnum Jafnøllldrum/ þa hafe hann aatt ad hafa sier þad sier til Skiemtunar/ ad breita epter øllum þeim Ceremonium/sem hann sa fyrer sier hafdar j Kyrkiunne/Suma sijna Leiksueina liet hann Vijgia til Presta/ Eitnin liest hann skyra Børn/ vijgia saman Hioon/og annad þess hattar. Vppa þetta horfde eitt sinn Alexander Byskup þa hann gieck vmm Strætid/og kom þar nærre/ sem hann var ad fremia þetta sitt

Barndoms

Barndooms Spil/huar af hañ droo sier strax Grun/ huør Madur Athanasius munde verda j framtydiñe/huørs vegna hañ skifade hans Forelldrum/ ad hallda hønum kostgiæfelega til Skoola/ huad þeir og so giørdu/ og lietu hañ Læra/allt þangad til/ ad hañ vm sider vard eirn Mykelohattar Doctor/ og Lærefader Christneñar. Alyka verdur og so skrifad vm þañ H. Lærefødur Ambrosium/ad þa hañ lꜳ j Vøggu/hafe ein Hunangs Fluga sest ꜳ hans Varer/huad ad var so sem ein Fyrersøgn vppa þa Hunangsætu Eloqventiam edur Mælsnille/huørre hañ munde sydar meir/þa hañ kiæme til Alldurs/med Begꜳfadur verda. Sama siꜳum vier opt og tydum/eñ nu j Dag/ ꜳ Børnunū edur Vngdoomenum/ þui þar finast mørg þau Børn/sem strax ꜳ Vngū Alldre/eru so Stilnings skørp/og Eptertektasøm/ vm þ sem þau siꜳ edur heyra fyrer sier haft/ad sialfer Forelldraner og adrer meiga forundra sig stoorlega þar yfer/og allt þetta verkar og framkuæmer sa goode heilage Ande/suo vel hia Vngbørnunum/sem hinum Ødrum Elldre/ Þar fyrer seiger Salomon so j Ordskuida B. 20. Cap. Ad eitt Vngmeñe þeckest af synum Athøfnum huørre þad vill vera gott & Hreinskiled(med Alldreñū.)

Huør sem nu vill kosta Kapps þar ꜳ/ad syn Børn meige þiona Gude/ og hans Christne/hier ꜳ Jørduñe/ huørt helldur þad er j Andlegre eda Veralldlegre Stiett/sa bidie Gud af Hiarta/ad hañ vilie wtbreida siñ Myskunar Væng yfer þau/og vernda þau fra vondra & Ogudlegra Maña Selskap. Forelldrarner eiga og so/ ad hafa syn Børn aptur af þui sem jllt og Osæmelegt er/epter þui sem Syrach med mørgū Ordū þa þar vm Amiñer/j siñar Bookar 30 Cap. Ef þu giører so/þa muntu hafa Glede af þynum Børnum/Þu munt þa og eirnin Ohræddur/og med Gladværu Giede/meiga framkoma/ꜳ þeim sydasta Deige/fyrer Doomstool Lifanda Guds/ og seigia/ Hier er eg Herra/ og þær Barnaskiepnur/sem þu hefur mier giefed/ Esa. 8. 18. Þui ecke mun Herrañ Christur þa spyria þar epter/ huad marga Hesta/huad margar Kyr/ Naut & Saude/ad eirn edr añar hafe att/helldur mun hañ hallda Spurnum þar fyrer/huørt þu hefur Vpptucktad þyn Børn vel/ j søñum Guds Otta/ & goodum Sidum. Hafer þu þad Dyggelega/og Kostgiæfelega giørt/þa muntu fꜳ aptur ꜳ moot Lofstyr af sialfum Gud/þar fyrer/1. Cor. 4. Jꜳ/þu munt fꜳ ad heyra Jesum so til þyn talande/ Eya þu Frome Fader/Eia þu goda Mooder/þu hefur vel staded j þynu Embætte/ Jeg er þiñ Gud/og þyns Sædis/ Komed þier Blessader mijns Fødurs/og Erfed þad Rijked/sem ydur er tilbwed fra Vpphafe Veralldariñar/Matth. 25.

## Vm Þad Fimta.

Nu epterfylger/ ad miñast med fæstum Ordum/ ꜳ þañ Agiæta Lofsaung Zachariæ/Og er oss hier fyrst athugande. 1. Huør sa sie/sem hū hier so Lofar og Prijsar/ sem er Drottiñ Gud Israels/sa sañe og Eilyfe Gud/ og sa riette Lioossins Fader/fra huørium ad øll Good Giøf/og fullkomleg Giøf



ad ofan

ad ofañ kiemur/ so sem Postuliñ Jacob vottar/ j sijns Pistels 1. Cap.
2. Þar næst miñest Zacharias hier/ a Guds Velgiørninga/ z eru þeir fierdeillis
þrgr. Sa fyrste er Nadarsamleg Vitian/ þui so kiemst hañ hier ad Orde/
og seiger/ Lofadur sie Gud Drottiñ Israels/ þui hñ hefur vitiad sijns Fo-
lks. Þegar sa goode Guds Madur Zacharias/ saung og samde þeñañ Lof-
dickt/ þa stood aumlega og Hørmulega til/ j øllu Gydinga Lande/ þuiad vell-
dis spyrañ var þa burt tekiñ fra Juda/ so ad Framande Yfervalld Drottnade
yfer Folkenu/ Eingiñ Spamañaña spade þa leingur/ Þar sætu Fals Kieñem-
dur a Moysis Stoole/ Jaa/ j einu Orde ad seigia/ allt var komed j Faar og
Voda/ og horfdest til hiña stærstu Vandræda/ so huørt Mans barn Andvar-
pade og sagde/ af Psalm. 14. O Gud giæfe þad Hialpræded kiæme af Zion
yfer Israel/ og þad Drottiñ frelsade sitt Hertekna Folk/ þa munde Jacob fai-
gna/ og Israel vera gladr. Nu/ i soddañ þreingiande Naudsyn kom Drottiñ
Gud/ og vitiade sijns Folks/ j þañ mata/ ad hñ liet Johañem Skyrara fædast
sem var FyrerReñare Herrans Christi/ uppa þad/ ad aller mætte þar af Ra-
da/ og sig þar vid hugga/ ad þar munde ecke vera laangt ad bijda/ epter Fædin-
gu og Hingadburde Messiæ/ z Heimsins Frelsara. Þessu hroosar nu sa gamle
Guds Madur Zacharias/ z veit ecke huørsu Makuæmlega hañ skal koma Ord-
um hier ad.

Añar Velgiørningur Lifanda Guds/ huørium Zacharias hroosar hier/ er
þad Dyrmæta Frelse/ Þui hañ vitiade og Frelsun giørde sijnu Folke/ hue
stendur hier j Textanum. Siaum til/ og Hugleidum/ mijner Elskanleger/ hue vor-
ersu þad/ ad vier vorum aller aumlega og hryggelega a oss komner/ Vier vor-
um ordner Diøfulsins Þy og Þrælar/ og þad vegna Syndaña/ sem vier høfd-
um drygt. Vier laaum fangner under Yfervallde Myrkraña/ Col. 1. Og vo-
rum bundner a Høndum og Footum/ Jaa/ a øllum vorum Lidum og Limum
med Fiøtrū Ranglætesins/ z Vondskuñar/ Þar var eingiñ sem oss kuñe ad hia-
lpa/ edur Frelse ad veita/ huørke Eingell/ eda nockur øñur Skiepna/ a Himne
og Iørdu/ Þar fyrer sende Gud siñ Son/ og liet hañ fædast af eiñre Jom-
fru/ Løgmaalenu undervorpiñ/ uppa þad/ ad hañ frelsade þa sem under Løg-
maalenu voru/ so vier feingium Sonarleifdena/ Gal. 4.

Vm Moysen lesum vier/ ad hañ hafe frelsad Israels Folk/ fra þeim Egypt-
tska Þrældoome/ Exo. 13. Gedeon af Hende þeirra Madianita/ Dom. V. 6.
Samson fra þeim Philisteis/ Jud. 15. Eñ hier kuñe ecke eirn Brooder añañ
ad frelsa/ Psalm. 49. Sialfur Guds Sonur vard ad leggia þad besta hier
til/ og Endurleyste siñ Søfnud/ mef sijnu eigiñ Bloode/ Act. 20. Þessu ætt-
um vier jafnañ med Þacklæte ad miñast/ a medañ vier lifum. Þegar sa litle
og Vnge David/ hafde Yfervuñed/ og ad Velle lagt/ þañ Ognarlega Risa Gol-
iath/ og frelsad Folked/ af Þrældoome Philisteaña/ þa geingu wt a mote hø-
um Kuinurnar af Stadnū/ med Saung og allskins Streingialeik/ so sem lesa
ma

ma/1. Sam. B. 18. Huad myklu framar skylldum vier fagna og glediast/ þar Christur Jesus/ hefur so sem eirn Himneskur David/ frelsad oss fra þeim helvyska Goliath Diøflenum/ og fra allre hans Vondsku/ og Vyktingskap/ þui ad med synum Dauda/ hefur hann Daudans Magt yfervuñed/ etc. Þegar vier þetta yfervegum/ þa meigum vier af Hiarta Fagna og glediast/ og seigia med Zacharia/ Lofadur sie Gud Drottiñ Israels/ þui hn̄ hefur vitiad/ og frelsad sitt Folk.

Þridie Velgiørningur Lifanda Guds/ huørium Zacharias hier hroosar/ Er su Sigur ryka Vernd/ sem hañ veiter oss/ a mote øllum vorum Ovinum/ Hier um talar hañ so framar/ j þessum synū Lofsaung/ og seiger/ Ad Drottiñ Gud Zebaoth/ hafe uppreist eitt Hialpar Horn/ j Hwse Davids Þioons syns. Fyrer þetta Horn/ a eckert añad ad skiliast/ eñ sa Fyrerheitne Heimsins Frelsare vor Drottiñ Jesus Christus. Fyrst er hañ eitt Magtar Horn. Vier vitū þad/ ad Maillausum Dyrum og Bestium er þad Eigenlegt/ Horn ad hafa/ huørra Magt og Styrkleike/ sem og eirniñ Pryde/ er ad myklu leite komiñ vnder Hørnunum. Þar fyrer verdur allvyda j heilagre Ritningu fyrer Horniñ Afmalad. 1. Ypparlegleike Veralldlegra Kongarykia/ af þui/ ad þau Dyr sem Horn hafa/ Drottna optast nær/ og hafa Yfirburde/ yfer hinum ødrum Dyrum/ sem Kolloott eru/ so sem rada ma af Daniels Spadoma B. 7. og 8. Cap. Apoc. 17. 2. J añañ mata merkiest fyrer Horniñ/ Magt og Styrkleike/ Þui vier vitum/ ad þau Hornottu Dyriñ/ veria sig med synum Hornum/ Eirniñ nidur briota þau med þeim/ þad þeim er j Veige/ og til Hindrunar/ Og hefur David visselega/ rendt Hugskots augum synum hier til/ þar hn̄ so seiger/ Psalm. 75. Cornua jmpiorum Confringam/ Jeg vil sundurbriota Horn fra Ogudlegu/ Þess vegna liet eirniñ Zedechia sa Fals Spamadur/ giøra Jarn Horn/ þa hañ villde telia um fyrer Kong Achab/ ad hañ skyllde draga ut/ a mote þeim Syris/ þuiad med þessū Jarn Hornū (sagde hn̄) skleu um koll stanga þa Syrlendsku/ huar um lesa ma/ 1. Kong. B. 22. Þetta allt ma miøg Merkelega heimfærast/ uppa Herrañ Christum/ Huørn sa gamle og Goode Kieñemañ Zacharias kallar hier HOrn/ þuiad hañ er eirn Kongur yfer øllum Kongum/ og eirn Drottiñ yfer øllum Drottnum/ Openb. B. 9

Framveigis er þad vel athugande/ um þetta Horned/ ad ecke seiger Zacharias/ ad þ ligge flatt nidre a Jørdu/ helldr ad þ sie upfreyst/ so sm̄ reidubued ad vernda oss/ eñ huar þa? J Hwse Davids/ stendr hier. Þetta Davids Hws/ er ein Merkeleg Figura edur Fyrermyndan/ uppa Christelega Kyrkiu. Þar fyrer hefr eingiñ sa sier Velgiørninga Herrans Christi/ ad vænta/ sa sem ecke er af Davids Hwse/ þad er/ Sa sem ecke er Riettur Christelegrar Kyrkiu Limur/ j huørre þetta Hialpradis Horn er uppreyst/ Og hier þ seiger so/ sa gamle Lærefad er Cyprianus/ Christianus non est/ qui in Ecclesia Christi non est. Þad er/ Sa er øngvañeigiñ halldande fyrer eirn Christiñ Mañ/ sem ecke er j þeirre Christe



Þegn

legu Kyrkiu Vppfræddur/þui so stendur þar hia Marc. 16. Huør han̄ trwer og verdur skyrdur/ sa skal holpin̄ verda/ En̄ huør han̄ ecke trwer/sa mun fordæmast. En̄ framar er oss vel athugande/wt af þessum Zachariæ Lofsaung/ad þar eru so sem þryr Brun̄ar/edur Vppsprettur/af huørium ad þesser Guds Velgiørningar framfliota.

Sa fyrste heiter Guds San̄leike/þui so seiger Zacharias/ So sem hann hefur talad fyrer Mun̄ sin̄a heilögu Spaman̄a/ ad han̄ frelsade oss fra vorum Ovinum/og af Hende allra þeirra sem oss hötudu. Med þessu Orda tiltæke/Bender Zacharias oss til þess fyrsta Fyrerheitis/sem Gud Drottin̄ gaf vorum fyrstu Foreldrū j Paradys/ vm þad Edla Kuin̄un̄ar Sæde/ sem sundurbriota skyllde Höggormsins Höfud/Gen. 3. A þetta Naadar Fyrerheit/hafa Spamen̄erner jduglega sijdan̄ minst/ og þad Jtrekad/ so sem sia maa/af þeirra Spadooms Bookum.

An̄ar Brun̄urin̄/ Er Guds Goodgirne og Myskunseme/þui Zacharias seiger/ Ad Han̄ HAfe Giørt MYskunseme Vid FEdur Vora. Gydingar og þeirra Fedur/höfdu ecke forþient an̄ad/en̄ Reide og Hefndar straff Lifanda Guds/þui þeir voru eirn hardhnackadur Lijdur/ En̄ Guds Naad ⁊ Myskunseme er þad ad þacka/ad hn̄ hefur wtvalid þa sier til Arfleyfdar/⁊ lated Messiam fædast af þeirra Bloode.

Sa þridie Brun̄urin̄/er Trwfeste Lifanda Guds/vm huøria Zacharias hier so talar ⁊ seiger/Han̄ mintest aa sin̄ heilaga Saattmaala/og aa þad Sære/ er han̄ soor Födur vorum Abraham/ad han̄ gæfe oss þad. Gud Drottin̄ hafde giørt eirn Saattmaala vid Abraham/ad j hans Sæde skylldu blessast allar Þioodter/Og vppa þad/han̄ þyrfte j öngvan̄ maata/ad efast hier vm/þa soor han̄ hönum hier vppa eirn Eyd/Gen. 22. Nu aa þen̄an̄ Eyd/og aa þen̄an̄ Saattmaala min̄est nu Drottin̄/og vppfyllte þad sama j sijnum Syne/ sem han̄ hafde adur lofad Abraham/og hans Sæde.

Þad fiorda sem Zacharias hroosar/j þessum sijnum Lofsaung/þa er Causa Finalis/edur endanleg Ordsök/ huar fyrer Gud Drottin̄ hafe viliad audsyna Man̄kyneny soddan̄ Velgiørninga/sim nu hefur vered Aminst/ þar vm hliodar so Gudspialls Textin̄/Ad vier leyster af Hende Ovina vorra/ þionudum hönum aan Otta/j Heilagleika og Riettlæte/fyrer hönum sialfum/alla vora Lijfdaga. So hefur þa Christur ecke Endurleyst oss/ til þess/ad vier skylldum þioona Dioflenum/ Eda lifa epter Veralldaren̄ar hætte/ helldur til þess/ad vier skylldum vera hans eigid Folk/kostgæfed til goodra Verka/Tit. 2.

Ad sijdustu verdur hier framsettur eirn Merkelegur Spadoomur/ J huørium Zacharias min̄est þar aa/huør og huilijkur þesse sin̄ Sonur mune verda. Og Þu Sueirn(seiger han̄)munt kallast Spamadur hins Hædsta.

þetta

Þetta Ord Spamadur/ hefur adskilianlega Merking. Fyrst er þad þuilijkur Madur/sem añadhuørt fyrerseiger Oordna Hlute/eda sa sem er vel forfarin j Andlegum Efnum/og kañ ad wtleggia þa heiløgu Skript vel/og predijka wt af henñe/Og j þañ mata var Johañes eirn riettur Spamadr/Mat. 11.

Eñ lætū oss athuga eñ framar/ huøre vered hafe Kiør Spamañaña ædur fordum/og huørniñ þeir hafe vered æ sig komner/sem er/ad þeir voru allmer Fatæker/og foracktader/huørium Verølldiñ launade ecke vtan jllu einu. Elias matte ganga vm kring/ j Fatækt og Armood/ 1. Reg. 5. Esaias vard ad lijda þad/ad hans Tilheyrendur spottudu hañ/allt þangad til/ad hañ var vm sijder æ Attatugasta Are sijns Spamañlega Embættis/ med eirnre Treysøg/j sundursagadur/epter Befalningu/z Skipan Manassis Kongs/Esa. 57. Jeremia var kastad j eina Grøf/edur Gryfiu/ Jer. 38. Micheas var sleigiñ j sitt Andlit/1. Reg. 22. Epter Ezechiele Blijstrudu hans Tilheyrendur/Eñ samt sem ædur/huørniñ sem þessu var vared/þa er þo Zacharias samt so gladur af þui/ad hñs Sonur skyllde fæ þa Æru/z Virding/ad heita Spamadur hins hædsta.

Hier wt af skulu aller gooder og Gudhrædder Forelldrar/sier þad til Lærdooms taka/ad nær Gud giefur þeim Børn/z þeir formerkia/ ad þar er gott Ingenium/z Næme hia þeim/ þa skulu þeir ecke spara neirn Kostnad þar til/ ad hallda þeim til godra Menta. O huad stor Glede mun Forelldrunum verda þa æ þeim sijdasta Deige/þa þeir fæ ad sia siñ Son vera/þar j Hoop Spamañaña/Postulaña/og añara Heilagra Lærefedra Christniñar/berande þa Oforgeingelegu Lijfsins Coronu sier æ Høfde/1. Pet. 5. Þuiad þeir sem Kienna munu skijna sem Himinsins Geislar/z þeir sem mørgum vijsa til Riettlætesins/lijka sem Stiernur/vm Allder z ad eilijfu/seiger Dan. Spamad. 12. C. Nu/til þessarar Dyrdar ad meiga komast/ þad veite oss øllum Gud Drottiñ/ fyrer Forþienustu sijns Sonar Jesu Christi. Huørium med Fødurnum og þeim gooda Heilaga Anda/ sie æfenlegt Lof/Heidur og Þackargiørd/ nu hiedan j fra/og ad Eilijfu/ AMEN.

# Fiorda Suñudag epter Trinitatis.

## Evangelium/Luc. 6. Cap.



G Jesus sagde til siña Læresueina. Vered Myskunsamer/lijka sem ydar Fader er Myskūsamur. Aungvañ skulu þier dæma/so ad þier dæmest eige/ Fordæmed ecke/ so ad þier fordæmest eige. Fyrergiefed/og þa mun ydur fyrergiefed verda. Giefed/og þa skal ydur giefast. Eina fulla/samþryckta velskiekna z yferfliotanlega Mæl



ing

ing/munu Þeir gieFa j ydart Skaut. Þuiad med Þeirre hiñe somu Mæling/huørre er Þier mælid wt/mun ydr jñ aptr mællt verda. Og hñ sagde Þeim eina Epterlijking/Huort kañ nockud Blindr Blindañ ad leida? Eda er ecke so/ad Þeir Falla bader j GroFena? Læresueirniñ er eige yFer Meystaranum. Eñ nær Læresueirniñ er sem hans Meystare/Þa er hañ Algiørdur. Huad sier Þu Vagliñ j Þijns Broodurs Auga/eñ ad Þeim Biælkanum sem j Þijnu Auga er/giæter Þu eige? Eda huørniñ mattu seigia broodur Þijnū/Broder Leif Þu ad eg burt drage Vagliñ wr Þijnu Auga/Þar ed Þu sier ecke sialFur Biælkañ j Þijnu Auga? Þu Hræsnare/Drag Fyrst Biælkañ wr Þijnu Auga/og siæ Þu Þa so til/ad Þu Fæer wt dreigid Vagliñ wr Þijns Broodurs Auga.

# Exordium.



Jer lesum j Doomara Bookariñar 21. Cap. Ad æ Þeim Tijma/Þa eingiñ Kongur var j Jsrael/ HaFe huør og eirn giørt og liFad epter Þui sem hønum Þotte riett vera. Eñ j Christelegre Kyrkiu/edur SøFnude Guds Barna geingur Þad ecke so til/ Þui Þar høFum vier eirn Kong/ sem gieFur oss og Fyrer skriFar/allra Handa good Løg/og Heilnæmar LyFs Reglur/seigiande med lioosum og wtFryckelegum Ordum/hia Spamañenum Ezechiel/20. Cap. Jeg er Drottiñ ydar Gud/epter mijnum Bodordum skulu Þier liFa/z Þier skulud hallda mijn Riettindel og giøra Þar epter. Og Levi. Bok. 19. Cap. BeFalar hañ/Ad huør z eirn skule elska siñ Naunga sem sialFañ sig. Eñ med Þui ad Kiærleikiñ til Naungans tekur ad kolna hia allmørgum/sem Christur sialFur heFur Fyrer spad/ad ske munde Fyrer Þañ sijdasta Dag/sem lesa mæ/hia Matth. 24. Cap. Þa heFur sa Himneske LijFsins Furste og Kongur allra Konga/ vor Drottiñ Jesus Christus/sett sijnum Postulum/ sem og øllum ødrum wti Fra/ nockrar sierdeilis LijFs Reglur Fyrer/huørniñ Þeir skule haga sier vid siñ samchristiñ Naunga/sem er Fyrst/ Ad vier skulum vera Myskunsamer vid hañ. Þar næst/Ad vier skulum ønguañ Dæma nie Fordæma. J Þridia lage/Ad vier skulum Fyrergiefa. Og j Fiorda og sydasta mæta giefa.

Vm Þetta allt viliu̇m vier Fæ ad heyra nockud Fleyra talad/næst Hialp Drottins/med Þui ødru sem hier ad hnijgur og Gudspialls Textiñ wtvijsar. Sa Myskunsame Gud/hialpe oss med siñe Naad/so vier hier wtaF mættum nockud gott læra/og oss til Nytsemdar Færa/Amen.

J Vpphaře Gudspiallsins stendur so. Vered Myskunsamer/lijka sem ydar Fader er Myskunsamur. Med Þui ad Myskunsemiñ kallast aF

Lære

Lærefødurnum Augustino/ Corona omnium virtutum/ Þad er/ Kórona allra aññara Dygda/ huad hun og eirniñ j sañleika mæ rietteelega kallast/ þui hun er su Gullega Kediañ/ sem Himin og Jørd til samans bindur/ og samtenger/ þa ber oss þessa Edla Dygdena stunda/ af fremsta Megne og Mætte. Huar til oss skal knya. Fyrst alvarleg Befalning Guds Sonar/ Huør ed suo talar z seiger/ Vered Myskunsamer. Og med þui/ad þetta er ecke skipan eins Syndugs Mans/ helldur sialfs Endurlausnarans vors/ Huør ad er Kongr yfer øllū Kongū/ Þa er skyllda vor/ ad vier heñe hlydum/ Þui vier erū ecke vorer eigiñ Herrar/ helldr Jesu Christi Þienarar/ med dyru Verde keypter/ 1. Cor. 6. Hundrads Høfdingiñ til Capernaum atte so hlydna Þienara/ ad nær hañ sagde einum/ far/ þa foor hañ/ og ødrum kom/ þa kom hañ/ og Þræle sijnum gior þetta/ þa giørde hñ þ/ Matth. 8. Nu erum vier Guds Þegnar z Þienarar/ skapader j Christo Jesu til godra Verka/ Eph. 2. Er þ þa ecke skyllda vor/ ad hlyda hñs Befalningu/ einkanlega þar vier siañ/ ad þær skynlausu Skiepnurnar hlyda hans Ordum/ so sem Heiløg Ritning allvijda vottar/ og oflangt er upp ad telia. Huad ættum vier þa ad giøra/ sem kallader erum epter hans eigiñ Nafne/ z med hans Bloode erum Endurleyster?

Þar næst skal oss koma til þess/ ad vera Myskunsømum/ Loflegt Eptirdæme sialfs lifanda Gud/ þui so seiger Herrañ hier/ Vered MYskunsamer/ lyka Sem Ydar FAder er MYskunsamur. Nu er Guds Myskunseme Omælanleg þui hun er ny z fersk a huørium Morgne/ og varer aan Aflaats/ og alla Tijma/ Luc. 1. Huørniñ er þad þa møgulegt/ ad vier kuñum eins og hañ Myskunsamer ad vera? Vier skulum vita/ ad Herrañ Christur meinar ecke hier med ad vier skulum vera Gude jafner/ helldur ad eins breyta epter hønum/ so myked sem oss er møgulegt/ j þui ad audsyna vorum samchristnum Naunga Myskunseme. Eñ sierdelis og einkum/ vill Endurlausnariñ vor/ Herrañ Jesus Christus/ oss kient og undervijsad hafa/ med þessu Orda Tiltæke/ huørniñ vared og hattad skule vera vorre Myskunseme/ sem er/ ad þad a ad vera ein HIartgrooiñ Myskunseme/ so sem sa gamle Zacharias ad Orde kiemst/ j sijnum Loofsaung. Siaaum til/ huørniñ Myskunseme Guds til vor Mañaña er hattad/ sem er/ Ad þo so sie/ vier med vorum Syndum/ høfum þad forþient/ ad vier skylldum Eydelagder verda/ eins og Adama og Zeboim/ Þa er samt hans Myskunseme so breñheit/ ad hañ vill ecke giøra epter siñe Grimdar Reide vid oss/ Hos. 11. So a og ecke helldur vor Myskunseme einungis ad framkoma/ af vorū Muñe og Tungu/ helldur z eirniñ af hreinu z einfølldu Hiarta.

Þar næst a þad ad vera ein SAñarleg Myskunseme/ sem auglysast a med Verkunum/ þui þad er ecke noog/ ad vier sieum Blijdmællter vid vorn Nauñga/ og latum ecke neitt gott af oss leida/ helldur eigum vier ad hialpa hønum/ epter Megne j hans Naudsyn/ Epter þui sem þar stendur j Jacobs Pistle/ 2. Cap. Eñ ef nockur Brooder eda Syster eru Nakiñ/ og hafa Þørf Daglegrar Næringar/ og einhuør ydar seiger til þeirra/ fared j Fride/ Eñ giefed

 þeim

þeim ecker huad þeirra Lykamans Naudþurft er/Huad hialpar þad!

I þridia lage er þad ad vera ein ALMeñeleg Myskunseme/ þui suo sem þad/ad j hia Gude er ecker Mañgreinar alit/Act. 10. So er og so vor Myskunseme ad standa opiñ fyrer huørium Mañe/þad er/Vier eigum ad vera Reidubuner til ad þiena/þocknast og hialpa huørium sem einum/fyrer vtañ allt Mañgreinar alit.

I fiorda mata er þesse vor Myskunseme ad skie og framkoma AF FRIALS um og Lostugum Vilia/ Eñ ecke af nockurskonar Æruggirughettum/ eins og giørdu Phariseer fordū/ Edur fyrer þa skulld/ad vier ætlum oss til Abata/edr Betalings þar fyrer/Helldur er þ allt ad skie af einføllðu Hiarta/ eñ ecke af Naudung edur Ovilia/þuiad hyrañ Giafara elskar Gud/ seiger Postuliñ/ 1. Cor. 9. Cap.

Ad siøtta er vor Myskunseme ad vera VAranleg/Þui vor gode Gud þreytest ecke/ad audsyna oss syna Myskunseme/jafnvel þo vier opt og tidum leggium hønum ecke añad j Pøck eñ Ofþacklæte. Nu seiger hañ sialfur þo suo hia Jeremiam/15. Jeg er þreyttur Myskunsamur ad vera/Eñ þad er allra inasta heima hia þeim/ sem alldrei vilia kañast vid hans Velgiørninga/og eru frahuorfner ad suwa sier til Drottins/yfer huøriu hñ klagar hia Spamañenū Hos. 11. Cap. Lated oss þar fyrer epterfylgia Amiñingu Postulans til Gal. 6. Þar hañ seiger/ Lated oss giøra gott og ecke þreytast/ þuiad er sijnum Tijma munum vier eirnen Oaflatanlega vppskiera.

Eñ jafnframt þessu skulum vier vita/ ad ecke eiga Neñ j þañ mata Myskunsemena ad fremia/ ad vier sieaum j gegnum Fingur vid vonda Hofva og Skalka/Helldur er huør og eirn ad taka Vara er sijne Stiett/ Kalle og Embætte. Til Dæmis ad taka/Prestarner meiga ecke Myskuna sig yfer Falskeniendur/Hoorur/Hoordooms meñ/Þioofa/ og adra þess hattar Glæpameñ/og Storsyndara/edur hlijdra hia þeim/ so þeir straffe ecke þuilyka Leste og Hneyxlaner/ Þui so seiger Gud hia Spamañinum Ezechiel/ 3. Cap. Þu Mañsins Son/ Eg hefe sett þig til eins Vardhalldsmans/yfer Israels Hws/ þu skallt heyra Orded af mijnum Muñe/z vara þa vid miña vegna. Nær eg seige til hins Oguðlega/þu skallt Dauda deya/og þu varar hñ ei vid/z seiger hønum þad ecke/ suo ad sa hiñ Ogudlege kuñe ad vakta sig/fyrer synu Ogudlegu Athæfe/so hñ mege Lijfe hallda/þa mun hiñOgudlege deya fyrer siña Synda saker/eñ hans Bloods vil eg krefia af þiñe Hende. Eñ varer þu þañ hiñ Ogudlega vid/og hañ snyr sier ecke j burt fra synu Ogudlegu Athæfe/ þa mun hañ deyia fyrer siña Synda saker/Eñ þyna Saal hefur þu frelsad.

Ein Yfervallds Persona ma ei helldur Myskuna sig yfer þeim/ sem illa hafa lifad/ad hañ giefe þa lausa/so sem hefde þa ecker vondslegt hendt/ þui so seiger Drottiñ/Deut. B. 13. Þitt Auga skal ecke vægia hønū/og þu skallt ecke skyla hønum/ Saal fyrer Saal/Auga fyrer Auga/Tøñ fyrer Tøñ/etc. etc. Sama er ad tala vm Foreldrana/ þeir meiga ecke lata opmyked epter synum

Bornum

Bønum/og lyda þeim huørn Osooma/Þui Salomon seiger/j Ordskuida Bok arenar/ 23. Cap. Lat ecke af ad Hirta Vngmeñid/þui ef þu slær þad med Vendenum/þa þarf þad ecke dreped ad verda/et ct.

Vt af þessu fyrstu Textans Ordum/ høfum vier og eirniñ oss þ til Huggunar ad taka/Ad Herrañ Christur vottar/ad Gud sie Fader/og þad meira er/ad hañ sie vor Fader/sem hafe eitt Føðurlegt Hiarta til vor/Ja/ ad hañ sie ecke ad eins vor Fader/helldur vor Myskunsamur Fader/Huar fyrer huør og eirn Christiñ Madur mæ Okuydiñ til hans flyia/ j huørskyns vidliggiande Naudsyn/med Sonarlegu Trauste/suo sem eitt Barn til syns Hiartans Føðurs/og vænta sier og vona hia hønum/allrar Nadar og Myskunar.

Hier næst bydur og byfalar Herrañ Christur oss/ j þessa Dags Evangelio/Ad vier skulum øngvañ dæma edur Fordæma. Ecke meinar Herrañ Christur hier med Riettferduga Dooma/sem Yfervallded vppseiger/yfer þeim sm̃ Brotleger verda/z sier jlla og Ogudlega haga/j eirn edur añan mata/Helldur talar hñ hier vm dærlega Dagdoma þa eirn talᵛ allskonᵛ Hæd z Spott vm siñ Naunga/ leggur Ord hans og Giørder wt j hina verstu Meining/ huad nu æ þessum Døgũ er miøg Almeñelegt. Eñ þesser sem so giøra/ synaga ecke allyted æ moote Gude/þui so stendur þar skrifad/j Pistlenum til Rom. 14. Huør ert þu sem añarlegañ Þion Dæmer/hñ stendur edur fellur synum Herra. Og j fyrra Pistle til Cor. 4. Seiger Postuliñ/Dæmed ecke fyrer Tymañ/þangad til ad Drottiñ kiemur/sa ed auglysa mun þad j Myrkrunum er huled/og Openber giøra Raad Hiartaña.

Þad þridia sem Herrañ Christur wtheimter af oss hier/ er jñbyrdis Sættsamleg Forlykun/ æ þui sem oss verdur æ moote broted/Þui so seiger hann. Fyrergiefed/og þa mun ydur fyrergiefed verda. Þar eru marger sem lætast fyrergiefa synum Broodur/ og Samchristnum Naunga hans Misgiørder og sættast vid hañ/eñ er þo ecke vtañ eintoomis Hræsne/ og Yfordrepskapur/ Þui þeirra Hiarta er fullt af Hatre/Langrækne og Hefndargyrnd/ seigia æ añare stundeñe/alldrei skule þeir Fyrergiefa æ medañ þeir lifa/ eñ æ añare ad þr vilie vel forlæta/ Eñ samt mune þeir þo miñast þ/ sem sier hafe æ motr giørt vered/ og alldrei skule sa Madur dirfast þadan j fra/ ad koma fyrer syn Augu. Eñ þuilyka Hræsnis fulla Sættargiørd og Fyrergiefning vill Gud ecke hafa/Helldur hitt/ad huør og eirn fyrergiefe wt af Hiarta synum Broodur hans Misgiørder/so framt sem hañ vill/ad Gud fyrergiefe sier/so sem þar stendur hia Matth. 18 Cap. Item seiger Syrach so/28. Cap. Huør hñ hefner syn/ æ þeim vill Drottiñ hefna/ og ecke fyrergiefa hønum hans Synder/ Fyrergief þynum Naunga/ þad sem hañ hefur misgiørt vid þig/og bid sydañ so munu þier og eirniñ þynar Synder fyrergiefnar verda.

Eñ vppa þad/ad vier verdum fwsare og viliugre/til þess/ad fyrergiefa vorum Jafnchristnum/þad sem hañ brytur oss æ moote/þa skal oss þar til þurfa, ... Fryst Befalning og Skipan sialfs lifanda Guds/ Þui þegar Postulinn

 Þenur

Petur spurde Jesum ad/huad opt han̄ skyllde fyrergiefa þeim sem vid sig bryte/Huørt þad være ecke noog/ad hn̄ giørde þad siøsiñum? þa suarade Herran̄: Jeg seige þier/ecke siøsiñum/helldur siøtyusiñum siøsiñum/þad er fiøgur Hundrud og nyutyusiñum/edur so opt sem han̄ brytur a moote oss.

Þar næst skal oss koma til þess/ad fyrergiefa vorum Naunga/Dæme Lifanda Guds/Huør ed giarnan̄ medtekur alla sem til hans koma/ og leita Fridar og Sættar hia hønum/þui so seiger Endurlausnarin̄ vor sialfur/ Læred af mier/þui eg er Hoogvær og af Hiarta Lytelatur/Og en̄ aptur seiger han̄/ Ad sæler sieu Fridsamer/þui þeir skule Guds Børn kallast.

Þad þridia/sem oss skal atfysa til Fridar z Fyrergiefingar/eru þau myklu Laun/sem Gud heiter øllum þeim /sem Frid og samþycke elska/ þui suo stendur þar en̄ aptur hia Mattheum 5. Ad sæler sieu Hoogværer/þui þeir skule Jardryke erfa.

J fiorda z sydasta mata eigū vier ad læta oss þar til koma þ hrædelega Straff/ sem yfer þeim hanger/ sem ecke vilia forlykast og fyrergiefa/ þa nockur þeim j moote brytur/Og er þad fyrst/Ad þeim verdur sialfum ecke fyrergiefed. Þar næst/verda þeir ecke verduger hallder/ad þeir skule vera Bordgiester Herrans Christi/og medtaka hans Heilagasta Lykama og Blood j Sacramentenu Alltaresins/epter þui sem klarlega skrifad stendur/ hia Matth. 5. Nær þu Offrar þyna Gafu a Alltared/ og þier kiemur þar til Hugar/ ad þin̄ Brooder hafe nockud a moote þier/Þa lattu þar þyna Gafu fyrer Alltarenu/og far fyrst ad sætta þig vid þin̄ Broodur.

Ad sydustu befalar Herran̄ Christur oss/ j þessa Dags Evangelio/edur Gudspialle/Ad vier skulum vera ørlater/ og giefa giarnsamlega og ødrum til gooda giøra/af þui sem Gud hefur oss lænad. Huørium a eg þa (kan̄ einhuør ad seigia) ad giefa? Vier eigum ad giefa/ j fyrstu/øllum þeim sem oss bidia/ En̄ einkanlega og sierdeilis Guds Fatækum og Voludum Þurfamøñum/ huørt helldur þeir hafa þad af oss forskulldad eda ei /epter þui sem Christur seiger/ hia Matth. 5. Cap. Gief þeim sem þig bidur/og vert ecke Afundin̄ vid þan̄ sem af þier vill Laan taka.

Þar næst eigum vier ad giefa/og til gooda ad giøra/ þeim sem oss Kieña og Undervysa Guds Ord/suo sem ad eru Prestar/og Guds Ords Þienarar/ suo sem giørdu þeir j Galatia fyrdum/Huøriuni Postulin̄ Pall hroosar/z seiger/ ef møgulegt hefde vered/ þa mundu þeir hafa wtslited syn Augu/ og giefed sier/Gal. 4. J þridia lage eigum vier ad giefa til Kyrkna og Skoola/ so sem ad giørde Hundradshøfdingin̄ til Capernaū/ huar fyrer hønū verdur og eirnin̄ hroosad hia Lucam/ 7. Cap. Hier kan̄ einhuør aptur ad spyria og seigia/ Huørnin̄ a eg þa ad giefa? Andsuar/ Siertu Rykur og Audugur/ þa attu og so Ryfuglega/en̄ ecke sparlega ad giefa/ En̄ siertu fatækur/þa attu þo samt þad ad giøra epter Megne/ Epter þui sem Tobias sagde til syns Sonar/Tob. 4. Hefer þu myked/ so veittu Rykuglega/ En̄ hafer þu lyted/

so veittu

so veittu af þui litla med triwu Hiarta/þuiad þu munt þa safna þier goodd
ra Ombun j Neyd/ Þui Gud vill eins þiggia þad litla/sem þad myckla/ Epter
þui sem liooſt er af Dæme Herrans Christi sialfs/huørium ad þocknadest bet
ur þad litla/sem su Fatæka Eckia lagde j Aulmusukistuna/en hitt allt sem þe
ir Ryku þar jnløgdu/Luc. 21. Og þetta eigum vier ad giøra/ Fyrst vegna
þess/ad þad er skylldugt/og tilheyrelegt/þuiad allt huad vier høfum/ þad høf
um vier af Gude þeiged/til þess/ad vier skulum brwka þad og Handtera Gu
de til Dyrdar/ Naunganum til Gagns/en oss sialfum til goods. Þar næst
er þad og so Christelegt/ad vier giefum/þuiad ef nockur hefur Audæfe þess
arar Veralldar/ og sier sin Broodur Neyd lyda/ og aptur byrger sitt Hiarta
fyrer hønum/Huørnin blyfur Guds Kiærleike hia hønum/ 1. Joh. 3. J þrid
ia lage/er þad og so Naudsynlegt/ad vier giefum/ z ødrum til gooda giørum/
Þuiad huør Fatækum Myskunar(seiger Salomon)sa lænar Drottne/ Hann
mun hønum þad godu Endurgiallda/og þad sama fyrst hier j þessu Lyfe/þui
ad þeir Voludu munu bidia gott fyrer þeim sem þeim til gooda giøra. Þar
næst j þui tilkomanda Lyfenu/þuiad sa sem Guds þackagiarn er/mun safna sier
Fiesiood a Himnum/Matth. 6. Og þetta eru nu þær fiorar Høfud Dygder z
Mankoster/sem Gud vill ad eirn og sierhuør Riettchristin Madur audsyne/ z
j tie læte vid sin Naunga/Huad ef vier giørum/Þa mun oss aptur med eirn
re fullre samþryckttre velskiecknre og yfirfliootanlegre Mælingu Endur
golldid verda/so sem Herran Christur hier seiger j Gudspiallenu þad er/Gud
mun oss aptur j staden rykuglega blessa/þessa Heims og annars. En med þui
ad vor Syndumspillta Nattura/sem og eirnen vort eiged Holld og Blood/
er næsta miøg tregt og Oleidetamt til goodra Verka/þa mæler þad hier a
moote og seiger. Huad stodar mig þad/þo ad eg sie Myskunsamur eda Medaum
ktunarsamur vid min Naunga? Eg hefe þar lyted Gagn af. Þar til suarar
Herran Christur suo/Ad med þeim sama Mæler sem vær mælum odrum
vt/mune oss jnn aptur mællt verda/ Aptur framkiemur vor gamle Adam og
seiger/ Fyrst adrar Þiooder ala Hatur/ z Ofrid/Osamþycke syn a millum/
Þui skal mier þa ecke slyckt hid sama leifast? Eda/þar adrer sem fullryker eru
tyma af øugvu ad sia/edur neitt ad giefa af synum Eignum/ Skyllde eg ein
samall giefa? Hier til suarar Herran Christur so/ Kann nockud Blindur Bl
indann ad leida/er ecke so/ad þeir falla bader j Grefena? Skal
eg(seiger vor gamle madur)alltjafnt fyrergiefa/huørsu opt sem mier er a mo
ote broted? Eg veit ecke vtan eg mune verda ad Spotte og Adhlætre vm syder
þar fyrer? En Christur suarar hier so til/AÐ LÆresueinninn Sie Ecke Yfer
MEYstaranum. Þad er sem hann villde so sagt hafa/Jeg er ydar Meystare
og fyrergief giarnan þa eg er þar vm bedinn/þui skylldu þier þa ecke slyckt hid
sama giøra? Ecke lætur Holld vort og Bloood sier enn hier med nægia/helldur

 seiger

ſeiger ſo/Med þui ad miñ Næringa vantar margt til/ ad ſkicka ſier ſo og hegda/ſem hønum ber og vel ſoomer/þui mæ eg þa ecke finna ad þui/ Laſta hann og lyta/og jafnvel Dæma hañ ⁊ Fordæma þar fyrer/ad hañ giører ſo og ſo? Þar til ſuarar Chriſtur og ſeiger. Huad ſier þu Vagliñ j þyns Broodurs Auga? Eñ ad þeim Biælkanum ſem j þynu Auga er/gæer þu ecke/Þu Hræſnare/Drag fyrſt Biælkañ wr þynu Auga og ſiæ þu þa ſuo til/ad þu fæer wtdreiger Vagliñ wr þyns Broodurs Auga. Og ſkal þetta ſo ſtuttlega ſagt vera/ wt af þeſſu Heilaga Evangelio. Þeim Eina ⁊ þreña Almættuga Gude/ſie Lof ⁊ Dyrd/nu hiedan j fra/og ad Eilyfu/Amen.

# A Vitiunar Hætijd Mariæ.

Evangelium/Luc. I. Cap.

A Þeim Døgum. Stood Maria vpp/ og foor med flyte til Fiallbygda/j Borgena Juda/jñgeeck j Hws Zachariæ/og Heilſade Elizabeth. Og þad ſkiede ſuo/þa er Elizabeth heyrde Heylſun Mariu/ ad Barned ſpratt vpp j heñar Kuide. Og Elizabeth vppfylltest af Heilogum Anda/ kallade hærre Roddu/ og ſagde/Bleſſud ert þu æ medal Kueña/⁊ bleſſadr er Aværtur Kuidar þyns/Og huadañ kiemur mier þetta/ad Mooder Drottins myns kiemur til myn? Siæ þu þa er Rodd þiñar Kuediu kom mier til Eyrna/ſpratt Barned vpp af Fagnade j mynū Kuide. Og Sæl ert þu ſ trwder/Þt þad mun fullkomnaſt huad þier var heited af Drottne. Og Maria ſagde. Myn Aund myklar Drottiñ. Og miñ Ande gladdeſt j Gude Heilſugiafara mynum. Þuiad hñ leit æ Læging Ambaattar ſiñar/Siæ/af þui munu mig hiedañ af allar Ætter ſæla kalla. Þuiad hañ giørde vid mig mykla Hlute/ſa ſem Mættugur er/og hans Nafn er heilagt. Og hans Myſkunſeme varer fra eirne Kynſlood til añarar/yfer øllum þeim ſem hañ ottaſt. Hañ fræmde Magt med ſynum Arme/ ſundurdreifde hañ Dramblæxtum j þeirra Hiartans Hugſan. Volduga ſette hañ af Stoole/og vpphoof Lytelæta. Hungrada fyllte hañ øllum Giædum/og hinum Ryku ſleppte hañ Tomhentum. Hañ Endurminteſt Myſkunar ſiñar/ og medtook ſiñ Þioon Iſrael. So ſem hañ talade til Fedra vorra/Abrahams/og hans Afkuæmis ad eilyfu.

ad Eilissu. Og Maria var hia hene/ so nær sem þria Manude og for sidan aptur til syns Heimkynnis.

# Exordium.

Jer lesum/2. Sam. B. 6. Cap. Ad epter þad/ Ad Sattmaals Arkin hafde vered j Hwse Obededom/j þria heila Manude/ Ad han hafe þeinged stoora og Rykuglega Blessan/ af sialfum Kifans da Gude/þar fyrer. Þetta hefur j sier ine ad hallda/eina andlega Þyding. Christur Jesus er su retta Sattmaals Ark/ j hvø rium ad Gud Himneskur Fader/ hefur giørt eirn Nyan Sattmaala vid oss/ Jerem. 31. Og þar fyrer verdur han kalladur Sattmaalans Eingell/hia Malach. Spaml. 3 Cap. Nu lyka sem þad/ ad Obededom vard blessadur/ af Gude/þa han hafde Hyst Guds Sattmaals Ark/So faaum vier og so/ad heyra j þessu heilaga Evangelio/Ad þegar su Himneska Sattmaals Ark Jesus Christus/ var Hystur og Herbergiadur/j Hwse syns Frændfoolks/þa vard þad med allre goodre Guds Blessan Begaafad. Eins verda þeir og so af Gude blessader/sem han ottast/ Þui Gudhrædslan er til allra Hluta Nytsamleg og hefur Fyrerheit vppa þetta/og epterkomanda Lyf/1. Tim. 4.

En leingra Jnngangs/vilium vier koma til Textans/ og han yferfara j epterfylgiande þremur Smærgreinum.

Su fyrsta skal vera vm Reisu Jomfrw Mariu/til sinar Frændkonu Elizabethar.

Onnur vm þeirra Samtal/ sem þær høfdu sin a mille.

J þeirre þridiu vilum vier med faastum Ordum/yfervega han agiæta Lofsaung Jomfrw Mariu. Gud hialpe oss med sine Naad/ad vier mættum hier wt af nockud gott læra/og oss til Saluhialplegrar Brwkunar/ og Nytsemdar færa/ AMEN.

# Fyrsta Greinin.

Fyrst er oss hier athugande Tyminn/ a hvørium Jomfrw Maria hafe þessa Reisu vppa sig teked/sem er/a þeim siøtta Manude/epter þad/ad hennar Frændkona Elizabeth var vordin Barns hafande.

Hier af høfum vier þad ad læra/ Ad þo synast meige fyrer Holldlegre Skynseme/ad eitt edur annad sie Omøgulegt/þa skulum vier vita/ad þad sie fyrer Mislium verdest Omøgulegt ad vera/ þad er møgulegt fyrer Lifanda Gude. Trwar brestur vor giører þad/ad þad framkiemur ecke alltyd vid oss/sem Gud hefur þo lofad. Þar fyrer er Naudsyn/ad vier jafnan bidium med Postulum Herrans Christi/og seigium/Domine adauge nobis Fidem/Drottinn auk þu vora Trw.

Hier næst er ad skoda/hvør vered hafe Stadurinn/ til hvørs Maria giørde syna Reisu. J Gudspialls Textanum stendur/ ad hun hafe geinged med Flyte

 j Borgena

j Borgena Juda/ et ct. Og hafe komed j Huus Zacharie/ og heilsad Elizabeth. Sumer meina/ad þad hafe vered Jerusalem Borg/sem Maria gieck til/Eñ þ synest ad vera Misskilningur þeirra/sem þar um so skrifad hafa.

J þridia maata er þad athuga verdt/sem stendur j þessū vorū Gudspialls Texta/sem er Ad Hun Hafe Med Flyte Geingid. Ecke er þess geted/ad hun hafe skrydt sig og prydt/ med kostulegum Klædnade/helldur geinged slett og rett/fyrer utan alla Hoffrakt/Off til Lærdooms/Ad einginñ god Erlig Kuiña/skule þykiast meire þar fyrer/þo Gud gefe heñe Lyfs Avøxt/helldur þeinkia til þess/sem Postulinñ Paulus seiger/1. Cor. 4. Huad hefur þu Madur þad sem þu hefur ecke þeiged? eñ hafer þu þad þeiged/huar fyrer hroosar þu þier. et ct.

Off til eñ frekare Eptertecktar/af þessum Texta/þa er þad ad athuga/Huøriar vered hafe Ordsaker/til þessarar Jomfrwr Mariu Reisu. Ecke kom hun til þess/ad laana Peninga/Ecke til ad færa einar og adrar Frietter/so sem nu er miøg Tydkanlegt/og þar med ad Rægia eirn Naaunga vid aññ/helldur kom hun til þess/Ad HEilsa siñe Frændkonu/og oska heñe Lucku/af þui/ad Gud hafde burt fra heñe teked/þad Bryxle/sem hun under laa/sem var ad þetta Obyria. Þegar eirn og aññar audsyner synum Naaunga soddañ Elskuteikn/og gledst þar af/ ad hønum geingur vel/ þa er þad vysst Merke þar til/ad hañ er Verkfære þess gooda heilaga Anda/og lætur sig af hønum stiornast/so sem margfalldlega maa af Guds H. Orde bevysast. Þar þuert aa moote/Þa eirn Madur er so siñadur/og af Diøflenum/og Vondskufullre Naatturu til egndur//ad hañ ecke kañ ad lifa fyrer utañ Agg og Deilur/Þa er þad z so vyst Merke þar til/ad hñ stiornast og upphuetst til hins vonda af jllum Anda/sem er af Fødurnum Fianda/þad er/af Diøflenum j Helvyte/Huar fra Gud vardveite alla syna j Jesu Nafne.

# Auñur Greiñ.

OF so þetta verde ei oflængt/þa vilium vier koma til þess sydara Greiniarkornsins/sem hliodar um Samtal þeirra Jomfrw Mariu z Elizabetar.

Hier er oss fyrst athugande/Huad Ypparlegar personur þad sie/sem hier vid rædast. Eñ þetta voru ecke neinar Ambaatter/ Og jafnvel þo/ad Maria Guds Mooder segde so til Eingelsins Gabriels/ þa hañ bodade heñe Gietnad z Fæding Jesu Heimsins Frelsara/Jeg er Ambaatt Drottins/Þa var þad hid mesta Audmyktar Teikn/þui hun vidurkiende sig Overduga j allañ maata ad maga heita/ vera og kallast Jesu Hølldleg Mooder. Soddañ Audmykt og Lytelæte/ skartar vel j øllum Stiettum. Lytelæcked ydur under Vollduga Guds Hønd/so mun hañ upphefia ydur a Vitiunar Tyma/seiger Postuliñ 1. Pet. 5.

Nu er ad miñast a Efne og Jñtak þessarar Rædu/ sem Jomfrw Maria z Elezabeth hafa syn j millum/ Og er þad tuent sierdeilis/ sem hier er vt af

athugande

athugande. Fyrst/ Sa Herlege Lofstyr/ sem Elizabeth tilleggur Jomfru Maria/ þar hun kallar hana sæla/ seigiande/ BLessad ERtu a MEdal KVenna/ Og þad fyrst vegna þess/ ad hun ætte ad vera Holldleg Mooder Jesu Christi. Þess og annars/ ad hun hafde truad Eingelsins Ordum/ þa hann bodade henne Gietnadinn.

Þad annad sem oss er hier athugande/ Er sa Merkelege Vitnisburdur/ sem hun giefur Herranum Christo/ þar hun frammveigis so seiger/ Og Blessadur er Avøxtur Kuidar þijns/ og huadan kiemur mier þad/ ad Mooder Drottins mijns kiemur til mijn? Hier kallar nu Elizabeth Christum Avøxt Kuidar Mariu Meyar/ Enn seiger þo jafnframt/ ad hann sie hennar Herra og Drottinn. Huar med ad stadfestest/ bæde Manndoomurinn/ so og lijka Guddoomurinn Herrans Christi. Vm þessa og adra þuilijka Vigtuga Hlute/ og Truar Greiner/ tala þessar Ypparlegar Kuinnur. Huar af vier høfum oss til Lærdoms ad taka/ þad/ huørt ad vera eige samtals Efne vort/ þa vier komum til samans huørt þad er helldur heima hia oss/ j Hwsum vorum og Bæum/ eda z so annarstadar/ sem er/ Ecke ad tala vm eitt z annad Ofarfann Hiegoma/ Af huørium vier verdum Gude Reikningskap ad standa/ a sijdasta Deige/ Matth. 12. Helldur a vor Ræda ad vera vm Gud/ og hans Heilaga Ord. Jaa ad sønnu/ Vm Gud eigum vier ad tala/ og þad/ huad myked gott hann hefur oss veitt/ og audsynt j sijnum Elskulega Hiartans Syne Jesu Christo. Vm hans heilaga Ord eigum vier ad tala/ huørsu Kröftugt þad sie/ til ad hugga Angradar og Sorgfullar Manneskiur. Af soddann Gudrækelegu Samtale gledst heilagur Ande. Enn þar fuert a moote/ spilla jllar Samrædur goodum Sidum/ huar sem þær eru vm Hønd hafdar/ 1. Cor. 15. Einninn styggest heilagur Ande þar vid/ epter þui sem Postulinn vottar/ Eph. 4. Skammarleg Ord z Fyflslegt Hial/ læted vera laangt fra ydur.

## Þridia Greinin.

NV epterfylger sa Fagre og ágiæte Lofsaungur Jomfru Mariu/ J huørium hun j lioose lætur/ sitt Audmiukt Þacklæte/ fyrer Guds Velgiørninga sem hun hefur af hønum þeiged/ bæde hid jnnra/ og ytra Gudspiallamadurinn seiger/ ad hun hafe so til Ords teked/ og sagt. Mijn Aund mycklar Drottinn og minn Ande gladdest j Gude Heilsugiafara mijnum. Hier giefur nu su heilaga Jomfru Maria/ oss øllum eitt merkelegt Epterdæme af sier. Kiennande þar med/ huørier ad sieu þeir hellstu Velgiørningar/ fyrer huøria oss Mønnunum ber ad Lofa og Vegsama Gud Þacklætanlega. Fyrst ber oss/ ad vier seigium hønum audmiukar Þacker/ fyrer þad/ Ad hann ecke ad eins helldur oss vid Lijf og Heilsu/ helldur og einneiginn vppheffur hann oss opt og tijdum vr Duptenu/ og setur med Høfdingium sijns Folks/ so sem David seiger/ Psalm. 113. Hun lofar hann og einninn/ fyrer sinn mykla Krapt og Verkan/ sem hann hafe



audsynt

audsynt æ sier/þar hun so ad Orde kiemst/og seiger/ **Ad hañ hafe liteð a Laging Ambættar siñar/og hafe giort vid sig mykla Hlute.** Sañlega mæ þad seigia/ ad Gud Drottiñ hafe giørt mykla og Dasamlega Hlute/ vid Mariu Meyu/ þar hañ af synu Guddooms Almætte/ liet hana þæ Getnad af Heiløgum Anda/ fyrer vtañ Kallmans Tilverknad/ Og þetta er nu þad Novum/edur sa Nystærlege Hlutur/Vm huørn Spæmaduriñ talar/ Jeg vil giøra nockud Nytt j Landenu/Kuiñañ skal vmkringia Mañiñ/Jerem. 31. Oss verdur hier og eirniñ synt/og fyrer Siooner sett/huørsu þad/ad Gud Almættugur/hafe vered opt og ofialldan/vanur ad giøra mykla Hlute/ af litlu og audvirdelegu Efnum/og Medølu/þui lyka sem þad/ad sa Almættuge Gud giørde mykla Hlute vid Mariu Meyu/ So kañ hañ og so eñ nu/æ þessum sijdustu Heimsins Tijmum/ad giøra mykel og stoor Dasemdarverk/þa hønum so þoknast vid oss/ Ef vier ad eins setium alla vora Von/ og Trwnadar traust til hans/þui hans Kraptur er j þeim Breysku Mættugur/2.Cor.12.

Þar næst/og j añañ mata/Lofar og Vegsamar Jomfrw Maria/Eilyfan Allsvalldanda Gud/fyrer syna Fødurlega Velgiørninga/ huørier ad øllum Jesu Christi Elskendum jafnt tilheyra. Þessum Velgiørningum vors Guds og Drottins/ samlyker sa goode Guds Madur David/ vid eina Coronu/ þar hañ so seiger/Psalm. 5. Þu Koronar þa med þiñe Nad/so sem einum Skiollde. Nu/lyka sem þad/ ad ein Korona hefur huørke Vpphaf nie Enda/ þa hun kiemur wr Gullsmidsins Hende/þui huør kañ ad siæ/huar hun er til samans sett. Eins er og vared Guds Myskunseme/hun er Oendanleg/og so stoor sem hañ er sialfur/Syr. 2.

Maria Vegsamar hier og eirniñ Drottiñ/fyrer syna mykla Magt/og Styrkleika/ huørn hñ audsyner j þui/**Ad sundurdreifa þeim Dramblatu/j þeirra Hiartans Hugsun.** Fyrer þa Dramblatu eiga ad skilliast aller þeir/sem hallda sig øllu ødrū Vysare/og vilia helldur hafa Vegsemd hia Møñū/eñ Vegsemd hia Gude/so sm̄ Johañes ad Orde kiemst/12. C. Soddañ Dærlegur Mañeskiur/þa þær hallda sig vysar ad vera/ eru þær ad Þussum ordnar/seiger Postuliñ/Rom. 1.

Framveigis syngur Maria so/j þessum synum Lofsaung/og seiger/ **Volldugа sette hañ af Stoole/og Vpphoof Lijtelata.** Slykt ad giøra/er Gude Audvellt/og alhægt/so sem liooslega mæ siæ af Dæme Pharaonis/ Señacheribs/Nabocadnesars/Antiochi/og añara fleyre. Gud syner og eirniñ opt og tydum syna Magt/j þui/Ad Hañ Vpphefur Þa Lytelatu/ so sem Maria syngur hier. Eñ vier skulum vita/ad fyrer þa Lytelatu eiga ad skilliast þeir einer/sem vidurkieña siñ Overdugleika/og tilreikna ecke sialfum sier/ þad gott sem þeir giøra/edur adhafast/helldur sialfum Gude. Þeir sem so giøra/ þeir eru Gude hiner allra þekustu/e kiærustu/og þess meir sem þeir audmykia sig/ þess meir vill hañ Vpphefia þa/ og til Heidurs setia/æ synum Tyma/suo sem

Postuliñ

Postulin̄ Petur vottar/2. Pist. 3. Dæme þar vppa hófum vier æ Joseph/ Moyse/David/Esther/Daniel/og mørgum ødrum.

Hier wt af høfum vier oss þad til Huggunar ad taka/Ad þo so sie/ad Ovi- ner vorer/ sem oss Ofsækia/ sieu mykler/ þa er Gud þo meire. Treyste þeir vppa sin̄ Styrk/og Armlegg/ þa er Armleggur Drottins þo Þusundsin̄- um sterkare/so sem David seiger/ Psalm. 20. Þeir hiner adrer treysta vppa Vagna og Hesta/en̄ vier huxum vppa Nafned Drottins Guds vors.

Ad siøundu prijsar og Vegsamar Jomfrw Maria Gud/ fyrer sitt mykla Aurlæte/þui so seiger hun hier/Hungrada fyllte han̄ ollum Giædum/ En̄ Hinum Rijku sleppte han̄ fanijtum. . Þetta æ ad skiliast æ Andlegan̄ hatt/vm alla þa/sem Hungra og þyrsta epter Riettlætenu/Matth. 5. Þa hi- na sømu vppfyller og blessar Gud/med allshattudum Goodum Giædum/and- legum og Lijkamlegum. Vilier þu nu og so/min̄ Brooder og Syster/ ad Gud veite þier sijnar Nadar Gafur/Þa giefdu þig j Selskap þeirra hungru- du/og medkiendu þitt Volæde/þijna Þørf og Naudsyn. Spamadurin̄ Eli- as kun̄e ecke ad fylla Krwser þeirrar Fatæku Ekiu/ med Oleo/ fyrr en̄ þær voru allar toomar ordnar/2. Kong. B. 4. So kun̄um vier z ecke helldur Hlu- ttakar ad verda/Guds Nadr Velgiørninginga/nema so sie/ad vier ædur giørum vort Hiartans Kier og Jlaat toom/og afleggium allar Verálldlegar Girnder Ahyggiu og Bwksorg/en̄ setium alleinasta vort Trwnadartraust til Drottins huadan̄ oss kiemur Hialpin̄.

Framveigis auglyser Gud/z j lioose lætr sitt Aurlætis Gied vid oss/j þui/ad han̄ vill min̄ast æ sijna Myskunseme/og þo ad vier af Man̄legum Breyskleika/ kun̄um ad falla/j eirn edur an̄an̄ maata/þa vill hn̄ oss samt aptr æ Fætur hial- pa/nær vier til hans flijum/med san̄re Audmykt/og Jdrande Hiarta. Nu vier villum hier med enda þessa stutta Rædu/bidiande vorn gooda Gud/j Na- fne sijns Elskulega Sonar Jesu Christi/ ad hn̄ velie framhallda vid oss sin̄e Naad/medan̄ vier lifum hier j þessum Eymdardal/ og giefa oss Gledelegan̄ og farsælan̄ Afgáng af Heime þessum/og ad Endalokunum Eilijft Lijf/ Þeir- re Heiløgu Guddoomsins Þren̄ingu/sie Lof/ Heidur og Þackargiørd/ Nu hiedan j fra/og ad Eilijfu/ A M E N.

# Fimta Sun̄udag epter Trinitatis.

Evangelium/Luc. 5. Cap.



G þad skiede/ þa er Folked flycktest ad honū /til ad heyra Gu- ds Ord/og han̄ sialfur stood vid Siooin̄ Genezareth/Og hn̄ leit tuo Skip standa vid Siooin̄. En̄ Fiskararner voru stigner af Skipunum/og Þuodu Netin̄. Han̄ stie þa vppa an̄ad Skip

ed/ þad

ed/ þad ſem var Simonar/ og bad hañ ad draga nockud fra Lande. Og hañ ſat og kiende Folkenu af Skipenu. Og ſem hañ gaf vpp ad kieña/ſagde hañ til Simonar. Drag þu vt a Diwped/og leyſed vpp ydar Net til Fiſkedrættar. Simon ſuarade/og ſagde til hans. Meyſtare/ j alla Noott høfum vier Erfidad/og feingum eckert. Eñ j þijnum Orde mun eg Netenu vtkaſta. Og þa þeir høfdu þetta giort/ jneluktu þeir mykla Mergd Fiſka/ſo ad þeirra Net Rifnudu. Og þeir bendtu ſijnum Fielogum/ ſem voru a hinu odru Skipenu/ þad þeir kiæme þar/ og hialpudu þeim. Og þeir komu/og hloodu bæde Skipiñ full/ſuo ad þau ſucku ad meſtu. Þa ed Simon Petur ſa þetta/fiell hañ til Knia ña Jeſu/og ſagde. Gack fra mier Lavardur/Þuiad eg em Madur Syndugur/af þui/ad Felmtur var yfer hañ komiñ/og alla þa ſem med hønū voru/af þeim Fiſkedrætte er þeir feingu til ſamans/ Lijka eirniñ yfer Jacobum og Johañem Sonu Zebedei/ſem ad voru Lagsmeñ Simonar/ Og Jeſus ſagde til Simonar/Ottaſt þu eige/ Þt hiedañ i fra ſkalltu Meñ veida. Og þeir droou ſijn Skip ad Lande/yfergafu allt ſamañ/ꝛ fylgdu honum epter.

# Exordium.



Hier leſum j Exodi Bokar/16. Cap. Þar vm/Ad þegar Gud Drottiñ fædde ꝛ forſorgade ſitt Folk/a Himnabraudenu/j þeirre Arabiſku Eydemørku/Þa hafe hañ giefed þeim eina viſſa Reglu/epter ad ganga/Huørniñ þad ſkyllde Himnamiølenu ſafna/ ſem er/ Ad Huør ſkyllde taka ſo mykid ad Morgne/ ſem hønum nægde til þeſſ ſama Dags/ad fædaſt a/eñ huørke meira nie miña/Eñ a þeim ſiøtta Deige// ſem var næſtur fyrer Sabbathsdagiñ/Byfalade Gud Jſraels Folke/ad ſafna tuøfallt/ſo þad hefde noeg fyrer ſig ad leggia/bæde þañ Dag/og a epterkomande Sabbaths Deige/Eñ huør ſem hier a moote giørde/og took meira af þui Himna Miøle/eñ Drottiñ hafde befalad/Þa vard þeim þad ad øngvum Notum/helldur Madkade þad/og fordiarfadeſt. Huar med oſſ verdur kient/huørniñ þad/vier eigum ad leita vorrar Næringar og Atviñu riettelega/ſem er/ j ſøñum Guds Otta/ꝛ epter hans Bode ꝛ Befalningu/ſo framt ſem vier villium hafa oſſ ad vænta/nockurs Gagns af voru Erfide/epter þui ſem Chriſtur ſeiger/hia Matth.6 Cap. Leited fyrſt Guds Rijkis/ og hans Riettlætis/ og mun ydr allt añad til leggiaſt. Dæme hier vppa/høfum vier a Poſtulanum Petre/huør ed alla Nootena hafde Erfidad/og eckert feinged/Eñ þa hañ hafde heyrt Herrans Chriſti Predikun/ og epter hans Befalningu/vtkaſtad

ſijnu

synu Nete/siæ/þa verdur hañ strax var vid/ so Rykuglega Guds Blessan/ ad hañ jñelykur so mykla Mergd Fiska/ad Skiped sæck ad mestu. Hier vm vilium vier nockud fleyra fa ad heyra talad næst Guds Hialp. Og eru þad fierdeilis tuær Smaagreiner/sem vier vilium oss fyrer Hendur taka/ad þessu siñe/ wt af þessu Heilaga Gudspialle.

Og er hin fyrsta vm Predikun Herrans Christi/ er hañ giørde a Skipenu.

Auñur vm þañ yfernatturlega Fiskedrætt/sem Postulanum Petre tilfiell/ þegar hañ epter Herrans Orde og tilsøgn wtkastade synu Nete.

Nu/vppa þitt Ord Herra Jesu vil eg og einneñ wtkasta mynu Nete/ gief mier þyna Naad og Blessan/ suo ad mitt Erfide verde ecke forgiefens j DR OTTne/og þad sama fyrer þyns blessada Nafns saker/Amen.

# Fyrre Greiniñ.

FYrst er oss hier athugande/huør sa sie sem framsetur þessa Skips Predikun. Ecke var þad sa Riettlætesins Predikare Noe/Ecke Johañes Skyrare/ecke Postuliñ Paall/ Sem var Doctor og Lærefader Heidiña Þiooda. Helldur Jesus Christur Sonur lifanda Guds/huør komeñ er j þeñañ Heim til þess ad openbera oss Møñunum Vilia syns Himneska Fødurs/Joh. 1. Huør ed kallast Doctor med þa lærdu Tunguna/Esa. 50. Af þessum Læremeystaranum hafa aller Ordsins Þienarar Prestar og Kieñemeñ þetta ad læra/Fyrst alvarlega Idne og Astundan j synu Kalle og Embætte/þui so sem þad/Herrañ Christur var kostgiæfeñ til ad kieña og predika Ord Drottins j øllum stødum bæde a Sioo og Lande/j Giestabodum/Eydemørkum/A Fiøllum vppe/og j Musterenu/Jaa/J huørium þeim stad/sem hañ hafde nockra Tilheyrendur. Eins eiga og so Kieñemeñerner ecke ad forsooma sig/helldur ad framkuæma sitt Verk verduglega/so vydt møgulegt er/2. Tim. 4. Þui Bølvadur er sa sem giører Verk Drottins Suiksamlega/Jerem. 48. Cap.

Þar næst eiga Kieñemeñerner ad Læra þad/af Herranum Christo/ad predika hreinañ Lærdoom/þui Texteñ vottar AD HAñ HAfe PREdikad GVds Ord/Þar fyrer seiger Ande Guds so fyrer Muñ Spamañsins Esa. 8. Ad ef Prestarner seigia ecke epter Løgmaalenu og Vitnisburdunum/ þa skule þeir ecke faa ad siaa Lios Morgunrodans/þad er Lioos H. Evangelij Sañleika.

J añañ mata er oss athugande/ huørier ad vered hafe Tilheyrendur Christi/þa hñ giørde þessa syna Skips Predikun/ Hier vm hlioodar suo Textinn. Og þad skiede/þa Folked flyktest ad hønum/et cf Hier heyrum vier/huad fyrer Tilheyrendur ad Christur hafe haft/ sem er/Ecke Høfudprestana/ edur Aulldungana Lydsins/ecke Phariseana/og ecke Skriptlærda/þui þeir forsmædu Guds Raad/j moote sialfum sier/Luc. 7. Helldur var þad sliett og Einfallt Folk/sem komed var wr øllum attum/til ad heyra hans Predikun. Eñ huad mykla Alvøru og Epterlangan/þad hafe haft til þess/ad hlyda Guds Orde/þad maa raada þar af/ad þetta Folk þreingde sier suo ad hønum/ad hann



hafde

hafde ecke Rumi ad standa j Fiøruñe. Soddañ Guds Orda Epterlangan/ bli
nst nu ecke hia mørgum/a þessum Døgum. Christur predikar ad søñu eñ nu j
Dag/fyrer Muñ siña Pienara/ þui so seiger hañ sialfur/ hia Luc.10. Huør
ydur heyrer/ hañ heyrer mig/ Huør ydur forsmaaer hañ forsmaaer mig/og hu
ør mig forsmaaer/ hañ forsmaaer þañ sem mig sende. Eñ þad geingur so til/ad
vorer Tilheyrendur koma añadhuørt sialldan edur alldrei til Kyrkiuñar/ad he
fra Guds Ord/ edur þo þeir kome/þa vilia þeir þo ecke betra sig/helldur aña
fram j synum Syndum eins og ædur.

Þegar eirn eda añar hefur ecke Lyst til Matarens/ þa er þad vijst Teikn
þar til/ ad hañ er añadhuørt ordiñ/eda ætlar ad verda Siukur. Eins er þui
vared vm Guds Ord/huørt ad er su retta Sælar fædañ/Joh.6. Ad þegar
Meñ tekur vid þui ad velgia(eins z Jsraels Folk velgde vid Himnabraude
nu)þa eru þeir aller andlega a Saluñe siuker ordner/þui Madurin lifer ecke
a einusamañ Braude/helldur af sierhuøriu Orde/ sem framgeingur af Guds
Muñe. Þar fyrer/miñ Brooder og Syster/Vilier þu Sælu þiñe vel/þa for
smædu ecke Søfnudiñ/ Helldur heyrdu giarnsamlega Guds Ord/ Og seigdu
med Spamañenum David/af Psalmenum 26. Drottiñ/Eg elska Stadiñ þy
ns Hwss/og þañ Stad/þar ed þyn Dyrd byr.

J þridia lage er oss athugande/ Huør vered hafe Predikunarstoll Herr
ans Christi/Hier vm hlioodar so Textiñ. Og hañ leit tuo Skip standa vid
Siooiñ/Og stie vppa añad þeirra/sem var Simonar Petri/ og kiende
Folkenu af Skipenu. Hier heyrum vier/Ad Herrañ Christur hefur brwk
ad og teked sier fyrer Predikunarstool/þad audvirdelega Skipkorn Petri/Hu
ad furdanlegt mæ þikia/Þui huad er þetta litla Peturs Skip ad reikna/edur
samlykia vid Jerusalems Mustere? So siaum vier hier/ ad þar vardar ecke
vm/huørt Guds Ord/og su heilaga Pionustugiørd/er framflutt j storū Mwr
udum z Prydelega Bygdum Kyrkium/edur j smærre Hwsum/Þuiad sañer til
bidiendr meiga akalla Fødurin j Anda/ iafnvel j øllū stødum/Joh.4. Herr
añ Christur giefur oss og eirniñ hier/eitt merkelegt Epterdæme/þar hañ bidur
Petrum vm Skip sitt/og ad draga nockud fra Lande. Huar af vier eigū aller
þad ad læra/Ad taka ecke med Vallde/ fram fyrer Hendur vors Naunga/hns
Eign til nockrar Brwkunar/edur Medferdar/so sem giørt hafa/ og eñ nu giø
ra(kañ skie)marger Hardwduger og Jllgiarner Yferbodarar/ synum Vndert
sætum/ad þeir taka fra þeim æn allrar Þackar/ Akur og Eng/ Hws og Hy
byle/so sem vier høfum auglioost Dæme vppa/ a Kong Achab og Jessabel/
huør ed tooku med Vallde/ og Orette/ fra þeim frooma Naboth hans Vyn
gard/Huørs vegna þau mættu deya aptur j stadiñ/ einum Smæarlegum Da
uda/so sem þar vm mæ lesa/j fyrre og añare Kongaña Book.

Þar næst lærum vier hier/ af Dæme Peturs/ad vier eigum ad liæ Herrañū
Christo/Skip vors Hiarta/ad hañ þui stiorne og styre/ Huad ad skiedur/ þa

þa vier

þa vier epter Dæme þessa Folks/sitium vid Fætur Christi/hlydum hans Ordum og Aminñingum/so mun hañ aptur aa mot til vor koma/og Vistarveru hia oss giøra/Joh. 14.

# Aũnar Greiniñ.

EPterfylger nu þad añad Greinarkorned/med fæstum Ordum/ Hlioodande vm þañ Yfernatturlega Fiskedrátt Peturs Postula/Hier vm hlioodar so Textiñ. Og sem hañ gaf vpp ad kieña/sagde hañ til Simonar/Drag þu vt aa Diwped/og leysed vpp ydar Net til Fiskedrattar.

Hid sama verdur einum og sierhuørium eñ nu j Dag befalad/af Herranum Christo/ad hañ skule draga wt aa Diwped/Þad er/ so framt sem vier viliu/ad Guds Blessan fylge voru Erfide/þa siaum til/ad vier wtkøstum Nete vors Embættis/vel og Trwlega/og giørum þad eina Goodviliuglega/ sem Gud Almattugur hefur oss boded/huør j siñe Stiett. Þui þo suo sie/ad þar sieu marghattud Embætte og Stietter til/ sumar ædre/ sumar lægre/ þa er þeim þo samt/øllum eitthuørt Verk ættlad. Eirne Stiettene er þad vppalagt/ad kieña og Predika/Hiñe añare/ad vernda z forsuara Lønd z Lyde/Hiñe þridiu/ad næra sig og adra aa siñe Handbiørg/ so aller hafa noog ad giøra/ad taka Vara aa sijnu Erfide. Og so sem þad/ad Meñ meiga ecke vera Idiulauser jñañ Skipsborda/helldur verda sumer ad yta fra Lande/ Sumer ad styra Skipenu/ Sumer ad kasta wt Netenu. Eins erum vier aller til Erfidesins skapader//so sem Fugliñ til Flugsins. Þar ꝥ vill S. Paall/ad huør hañ ecke Erfidar/sa skule ecke helldur Matarens neyta/2. Tess. 3. Þui Madurin aa ad neyta sijns Brauds j Sueita siñar Asionu/ suo sem Herrañ Chrristur seiger/ Genesis Bok. 3. Cap.

Nu viliu vier heyra/huerniñ Postuliñ Petur tekr vnder vid Herrañ Christū og gegner þessare hans Skipan/ þad wtvijsar so Textiñ. Simon suarade/og sagde til hans/Meystare/ j alla Noott hofum vier Erfidad/og Feingum Eckert. Þetta hid sama meiga marger froomer Husfedur z Hwsmædur eñ nu j Dag klaga/ Ad þo þeir med Petre/ Erfide bæde Noott og Dag/þa vill þeim þo lited aaskotnast/Eñ þar fyrer aa þo eingiñ ad gefa vpp aa sier Footiñ/edur ad falla j Vol z Vyl/ eins z Gud hefde hañ med siñe Nad yfergiefed/ Helldur skulum vier þeinkia þar vm/ad Ryker og Fatæker verda iafnañ til samans ad vera/og Gud hefur þa huørutueggiu skapad/so sem Salomon seiger Ordsk. B. 22. Cap.

Siertu nu þar fyrer Fatækur/ þa þeinktu med þier/ad Gud mune vissulega hafa sierdeilis Ordsøk þar til/ad lata þig ecke Rijkañ verda/z lat þar ꝥ ecke af þinum Fromleika/þui þad litla sem sa Riettlate hefur/ er betra eñ mikel Audæfe Oguðhræddra/seiger David/ Psalm. 37. Þar finast og so þeir sem Erfida j Myrkre/z aa Natur tijna/eins og Petur/Þad er/Elska Verk

 Myrks

Myrkrañа/og Vppbyria ecke Erfide ſitt med Bæn og Akallan/Þar fyrer eru
þad eingiñ Vndur/þo þeir faae eckert gott j adra Hønd/Helldur mun þad ko
ma yfer þá/ſem Herrañ hootar þeim Ogudlegu/og Athugalauſu/hia Spama
ñenum Haggeum/1. Cap. Ad þo þeir Saae myklu/ þa ſkule þeir ſafna
litlu/þo þeir ete/þa ſkule þeir ecke ſadder verda/et cet. Þar fyrer/ læte eirn
og ſierhuør ſier þad kient vera/afleggia Verk Myrkrañа/ epter Poſtulans A
miñingu/Rom. 13. Eñ giøre ſo ſem Petur giørde/ ad hañ ſie Hlydiñ Herrans
Orde og Tilſøgn/og wtkaſte ſynu Nete j hans Nafne/Þad er/gange fyrſt til
Kyrkiu/og heyre Guds Ord/ſydañ til ſyns Erfidis/ſuo mun hønum þad vel
Lukaſt/ Þuiad Bleſſan Drottins giører Mañ Rykañ fyrer vtan Mædu/
Ordſkuida B. 10.

Þegar nu Poſtuliñ Petur hefur ſo wtkaſtad ſynu Nete/epter Herrans Or
de/ þa giører Endurlauſnariñ vor Jeſus Chriſtus eitt ſtoort Daaſemdar ver
k/ſem er/Ad þar þeir vrdu ecke Fiſkvarer vm Nottena fyrer/ þa jñelykia þe
ir nu ſo mykla Mergd Fiſka/ad fra Net rifnudu/og vrdu ad beidaſt Lids af
ſynum Fieløgum/ad þeir kiæme og hialpudu þeim.

Hier verdr oſſ nu ſynd/ & ꝼ Sioner ſett Magt & Herradæme/vors liufa Lau
ſnara Jeſu Chriſti. Fyrſt j þui/ad hñ a eirnu Augabragde/læt Fiſkana koma
til ſamans j myklum Hoop/og ænetia ſig/Þar næſt/ad þo Netiñ rifne/þa eru
þo ſamt Fiſkarner j þeim faſter. J þridia lage/ ad þo Skipunū ligge vid ad
ſøckva/þa helldur hañ Bleſſadur þeim ſo vid/ad þau komaſt klaklauſt af.
Allt þetta ſetur oſſ fyrer Sioner/Herrans Chriſti Majeſtat/og Dyrdarvell
de/ſo vier meigum ſaña þad ſatt ad vera/ſem David vm hñ talar/j Pſalm. 8.
Ad Gud Drottiñ hafe hønum alla Hlute vnder Fætur lagt/ Saude og Naut
allt til ſamans/þar med eirniñ Villudyriñ/Fuglana vnder Himnenum/og Fi
ſka j Sioonum/og allt huad j Hafenu geingur. Og þeſſ vegna verdur hann
kalladur j Openberingar Book Johañis/19. Dominus Dominantium/ Þad
er Drottiñ allra Drottna.

Hier af høfum vier oſſ þad til Huggunar ad taka/Ad þo ſo ſie/vier kuñum
ad rata j margvyſlegar Mootlætingar/þa eigum vier þo ſamt þañ Herra/ og
Hialparmañ/ ſem er mykell af Rade/og Mættugur af Giørninge/ Skyllde
hønū þa nockud Omøgulegt vera/ad hallda vid Magt ſynum Truudum Børn
um/ & ſtyrkia þau?

Vier lærum hier og eirniñ/af Fieløgum S. Peturs/ ad hallda Eindrægne
og goodañ Stallbrædraſkap/huør vid añañ/og ad hialpa vorum Naunga/huo
rt þad er helldur j Lyfs Faare/edur ødru ſem hønum kañ a ad liggia/ epter
þu ſem Poſtuliñ bydur/Eph. 4.

Hier næſt verdur oſſ fyrer Sioner ſettur/Mañlegur Veikleike/ ſem mørgū
tilfelur/einkanlega & ſierdeilis/þegar nockud j dælpar/og Meñ eru j nockrum
Voda edur Hæka ſtadder/þui þa Simon Petrus ſa þetta/ þa ſeiger Gudſpia
llamañeriñ/Ad hañ hafe falled til Kniaña Jeſu/og ſagt/Gack fra mier

Lavardur

Lavardur/þui eg em Madur Syndugur/ef ec. Mörgū mætti þikia þesse Ord undarlega vppkoma fyrer Postulanum Petre/Ad hañ skule bidia siñ Herra og Lavard fra sier ad ganga/ Eñ ef vier Rañsökum Ordsökena/ huar fyrer hañ þess oskar/ þa fiñum vier/ ad þad hefur ecke af neinne Vantru vered/ suo sem þa þeir j Gergesena Lande/ bædu hañ ad vykia vt synum Landamerkium/Matth.8. Helldur af Audmykt/ þui hañ hiellt sig ecke Verdugañ/ vegna margfalldra siña Synda/ad vmgangast/ edur vera j Nalægd hia þuilyk-um Herra/sem Christur var/Þar med hefur hañ mætt Ottast/ad Reide Guds munde yfer sig koma/ þar hañ visse sig so Synduga Mañeskiu/ sem hñ sialfur hier vottar. Huar vppa vier höfū auglioste Dæme/af Eckiuñe j Sarepta/Hu-ör ed sagde til Eliam/Huad hefe eg med þig þu Guds Madur? Þu ert komiñ hier/jñ til myn//ad miña Misgiörda verde minst/ og miñ Sonur verde deydd-ur/1. Book Kong.17.

Eñ heyrum til/huörsu vor sæte Endurlausnare/ Herrañ Jesus Christus/ sem er Hiartaña og Nyrnaña Ransakare/og veit huad j Mañenum er/ suar-er hönum aptur/ OTTast PV Ecke(seiger hañ)PVi Hiedañ Af Skalltu Meñ VEida. Med þessum Ordum OTtast PV Ecke/ hefur Herrañ Christ-ur læted Hugga synar Sorgande/og skurladar Barnakindur/alla Tyma. Med þeim huggade Eingelliñ Jomfru Mariu/ þa hañ kom til heñar/ og bodade heñe Getnad Herrans Christi/Og Kuiñurnar sm geingu til Grafareñar hñs/ sem og adra fleyre/Huar med hañ audsyner/ad hañ vilie eñ nu j Dag/öngvañ deya edur fordiarfast læta/j synum Syndum/ þui hañ er þess vegna hingad j Heimiñ komiñ/ad hañ vpp leitade þad sem tapad var/og giörde alla Syndara Sæluholpna/1.Tim.1.

Þar næst seiger Herrañ Christur til Peturs/Ad hier epter skule hñ meñ Veida/Huar med hañ kallar hañ til þess Postullega Embættis/og seiger hön-um þ/ad hañ skule ecke leingur vera soddañ Fiskare/ sem hañ hingad til vered hefur/Helldur skule hañ hier epter kasta vt Nete Heilags Evangelij/og j þui veida margar Sæler til Eilyfs Lyfs/Huad og so skiede strax at þeirre fyrstu Huŭstasuñu þess Nya Testamentesins/ þa Petur predikade/ ad þar snerust og vrdu vidaukuar nær þriar Þusunder Sælna/Act.2.

Eñ Ordsaker/huar fyrer Herrañ Christur lyker þui Heilaga Predikunar Embætte vid Veideskap/eru þessar. Fyrst so sem þad/Ad Fiskararner hliota optast ad hafa myked Erfide/ ef þeir skulu añars hafa nockurn Avinn-ing. Eins verda þeir sem j Ordenu Erfida/mykla Mædu og Omak ad vtstand-a/ef þier vilia riettelega og vel/standa j synu Kalle z Embætte.

Þar næst/suo sem þad/ ad Fiskararner Erfida opt forgiefens/og fa eckert/ yfer huöriu Postuliñ Petur klagar hier. Eins geingur þad og suo til fyrer Prestum og Predikurum/ Ad þeir gieta stundum litlu eda öngvu til Leidar komid/ hia synum Tilheyrendum/ Þuiad Heimur þesse er vondur/og vill sig ecke af Guds Anda straffa læta/Gen.6.

 Jþridia

J þridia lage/so sem þad/Ad j Netenu veidast bæde goder Fiskar z jller til samans/ Eñ þa ad Lande er komed/ kasta Fiskararner þeim vondu j burt þra þeim goodu. Eins geingur þad til j Kyrkiu sǽþnudenum/ Þar þiñast bæde jll er Meñ og goder/Eñ a sijdasta Deige/ mun Drottiñ adskilia sijna Saude þra Kidunum/Matth. 25. Þa munu Meñ hid þyrsta þaa ad siaa/huad stoor Mis munur sie a mille þeirra Riettlaatu/og þeirra Ogudlegu/og þeirra sem Gude haþa þienad/og ecke þienad/Mal. 3.

Ad sijdustu stendur so j Nidurlage Textans. Og þeir droou sijn Skip ad Lande/yþergaaþu allt samañ/og þylgdu hønum epter. Laatum oss og eirniñ epterþylgia vorum Blessada Endurlausnara/ Fyrst j Lærdomenum/ Ad vier blijþum stadþaster vid hans Heilaga Ord/ og vykium ecke þra þui huørke til hægre nie vinstre Handar/Esa. 30. Og þar næst j Liþnadenum/Ad so sem þad/ad Christur heþur vndañ oss geinged j Elskuñe/ Hoogværdiñe og Þolenmædiñe/og ødrum þleyrum merkelegum Dygdum/so skulum vier og sua bera oss ad þeta j hans Foorspor/ og læra aþ hønum þa riettu og søñu Hoogværd/Lijtelæte og Þolenmæde/Huad eþ vier giørum/þa munum vier sijdar meir hønum epterþylgia j Dyrdeñe/þui þad er vissuleg Sañinde/ ad eþ vier þoium med hønum/ þa munum vier med hønum Rijkia/ Deyum vier med hønum/ þa munum vier med hønum liþa/ 2. Tim. 2. Huad vm sijder ad þaa og ødlast/oss veite Gud Fader/Sonur og Heilagur Ande/aþ siñe Naad/ Huørium Einum z Þreñum/ad sie Dyrd z Loþ/nu hiedañ j þra/z ad Eilijþu/Amen.

# Siøtta Suñudag epter Trinitatis.

## Evangelium/Matth. 5. Cap.



Jesus sagde til siña Læresueina/Eg seige ydur/Nema so sie ad ydart Riettlæte yþergnæþe/meir eñ þ hiña Skriftlærdu og Phariseis/þa munu þier eige jñganga j Nimnarijke. Þier haþed heyrt huad sagt er til þeirra Gømlu/ Ecke skalltu Mañ vega. Eñ huør hañ vegur Mañ/sa verdur Dooms sekur. Eñ eg seige ydur þad/ huør hañ Reidest Broodur sijnum/ sa verdur Dooms sekur. Eñ huer sem ad seiger til Broodur sijns/ Racha/hañ verdur Raads sekur. Enn huør sem seiger/þu Aþglape/hañ verdur sekur Helvijtis Ellds. Þar þ/ nær ed þu Oþþrar þijna Gaaþu til Alltaris/og þier kiemur þar til Nugar/þad þiñ Brooder haþe nockud a moote þier/þa lattu þar þijna Gaaþu þyrer Alltarenu/og þar adur ad sætta þig vid Broodur þiñ/ og kom

þa ad

þa ad Offra þijna Gaafu. Vertu snarlega samþyckur þijnum Motstødu Manne/ æ medan þu ert eñ æ Veige med honum/ so ad eige selie þig þin̄ Motstødumadur Doomaranum/ og Doomarin̄ selie þig Þienaranum/ og verder þu j Dyblyssu kastadur/ San̄lega/ san̄lega seige eg þier/ ad eige mu nfu þadan̄ wt fara/ þangad til þu hefur borgad þin̄ sijdasta Pening.

# Exordium.

Jer lesum j Exodi Bok. 34. Cap. Ad þegar Moyses kom aptr ofañ af Fiallenu Sinai/ med Løgmaals Tøblurnar fra Drottne/ þa hafe Geyslar staded af hans Andlite/ so Israels Børn þordu ecke ad koma nærre hønum/ Hugrs vegna han̄ vard ad læta Skylu fyrer sijna Asionu/ þa han̄ skyllde vid þau tala. Þetta hid sama wtleggr Postulin̄ Paall/ vppa Andlega vijsu/ 2. Pistle til Cor. 3. Og vill merkiast læta fyrer þa Geysla/ sem af Moysis Andlite stoodu/ Fullkomlegt Riettlæte og þa jñre Hlydne sem Moysis Løgmaal wtheimter/ sem er/ Elska til Guds af øllu Hiarta/ allre Saalu/ og øllum Kraptum. Eñ su Skyla sem Moyses heingde fyrer sitt Andlit/ edur Asionu/ merker þan̄ stoora Blindleika Gydinga Folks/ huørt ad hiellt ad Løgmaaled wtheimte ecke vtan allemasta Vtvortis Hlydne/ sem er/ Ad slaa ecke j Hel/ Hoorast ecke/ Bera ecke Liwgvitne/ og annad þessu lijkt/ og þa þeir giørde hier epter/ hielldu þeir sig Løgmaaled vppfyllt/ og þui Fullnustu giørt hafa/ Eñ þan̄ jñra Hiartleika edur Fullkomlegleika Løgmaalsins/ ahræerande sañа Elsku til lifanda Guds/ kuñu þeir ecke/ edur villdu ecke sia. Þessa Huldu z Skylu tekur nu Herran̄ Christ: j burt fra Andlite Moysis/ j þessum vorum vpplesnum Texta/ z syner oss/ huad vier sieum Gude fyrst og fremst/ og þar næst vorum Naunga/ skyllduger. Og vilin̄ vier þui j Jesu Nafne taka oss fyrer Hendur einfalldlega ad skoda/ og yfervega þetta heilaga Evangelium/ j tueimur Smaagreinum.

Og skal hin fyrre vera vm Phariseaña Riettlæte/ og hitt añad betra Riettlæted/ sem fyrer Gude gillder.

Þar næst vilium vier heyra nockud talad/ wt af þui fimta Bodordenu/ og huørnin̄ vier eigum þad riettelega ad skilia. Gud hialpe oss øllum med siñe Naad/ so vier mættū hier wt af nockud gott læra/ z oss til Nytsemdᵛ færa/ Am̄.

# Fyrre Greinin̄.

Nema so sie/ ad ydart Riettlæte yfergnæfe/ meir eñ þeirra Skriptlærdu og Phariseaña/ þa munu þier ecke jñganga j Himmarijke/ seiger Christur j Vpphafe þessa Gudspialls/ til siña Lærisueina. Eñ huørnin̄ var og hattad hafe vered Riettlæte þeirra Phariseaña/ og Skriptlærdu/ Þad syner oss og fyrer Siooner setur/ Dæme þess Hofmooduga Phariseara/ sin̄

 gieck

gieck vpp til Musteresins/ad bidiast fyrer/og hroosade sier af sijnum wt vortis
Heilagleika/ og Goodverkum/seigiande/Gud/ Eg þacka þier/ad eg er ecke suo
sem adrer Men/Ranglæter/Ortettrijser/ Hoordoomsmeñ/ eda suo sem þesse
Tollheimtumadur/ Jeg fasta tuisvar j Viku/ og gief Tijunder af øllu þui eg
æ/et ct. So hefur þa Phariseaña Meining vered þesse/ Ad þa þeir þionudu
ecke añarlegum Gudum/eins og Jsraels Folk giørde j Eydemørkuñe/ þa þad til
bad Gullkalfiñ/Exo.32. Edur Bølvudu ecke/ eins og sa sem lastade Nafn
Drottins/og var þar fyrer j Hel gryttur/Lev.24. Edur forsmaudu ecke
Guds Ord/og þau helgu Sacramenta/eins og sa Ryke Madur/sem ecke vil
lldc heyra Moysi ꝫ Spamønunu/Luc.16. Eda settu sig ecke vpp a mote sijn
nu Forelldru/eins og Absalon/2.Sam.15. Eda slæge ecke sin Brodr j Hel/eins
ꝫ Cain/Gen.4. Eda drygdu ecke Hoor/eins ꝫ David/ 2.Sam.11. Eda stæ
leecke/eins ꝫ Achan/Jos.7. Eda bære ecke Falskañ Vitnisburd/eins ꝫ þ.ir tu
eir Doomarar giørdu/j mote Susønu/Edur stundudu ecke epter Gotze ꝫ Pen
ingum sijns Naunga eins og giørde Achab og Jessabel vid Naboth/1.Kong.
21.C. Edur girntust ecke añars Mans Eigenkonu/eins og Herodes Marc.
6.C. Þa hefde þeir vppfyllt og Fullnægiu giørt þeim tiju Guds Bodordum
jafnvel þo Hiartad være hid jñra fullt af Reide / Hatre/ og allra handa vo
ndum Gyrndum og Lystingum. En Herrañ Christur vill ecke samþyckur ve
rda þessare þeirra raungre Meiningu/Helldur seiger wtþrykelega/ad þeir sem
þetta giøra/skule ecke komast ad helldur j Himmarijke/og þad sama vegna þessa
ra epterfylgiande Ordsaka.

Fyrst/Ad soddañ Riettlæte Phariseaña var eitt Hræsnisfullt Riettlæte/
þui þeir giørdu ecke þesse Vtvortis Goodverk/af riettre og sañre Elsku til lif
anda Guds/edur hønum til Æru/helldur alleinasta vppa þad/ad þeirra wt
vortis Heilagleike mætte siaast af Mønum/Matth.6. Hvørs vegna ad Herr
añ Christur samlijker þeim vid Forfægadar Grafer Framlideña Maña/Hvør
iar ad vtañ synast fagrar/En hid jñra eru þær fullar af Daudra Maña Be
inum ꝫ allskonar Ohreint/ Mal.23.

Þar næst vill Herrañ Christur ecke samþyckur verda Phariseaña Riettlæte
ad þad var Ofullkomed/ þuiad þo þeir slæe øngva j Hel med Hendeñe/ þa
var þo þeirra Hiarta samt fullt af Hatre og Aufund/ huad ad ecke er sijdur
Mañdrap ꝼ Gude/en hitt/Þui so seiger Postuliñ Johañes/1. Pist.3. Ad hu
ør hañ hatar siñ Brodur/sa sie Mañdrapare. Jaa/þo þeir drygde ecke wtvo
rtis Hoor/þa voru þo samt þeirra Augu full af Hoordoome/2.Pet.2.
Og þo þeir gæfe alldrei so myklar Aulmusur/ þa var þo þeirra Hiarta giei
gnumsmoged af Agyrne/og giørdu þad meira af Vana/ eñ Elsku til sijns Na
unga/huar med þeir hafa sig sialfa a Tælar dreigid/þuiad Løgmaled er and
legt/ Rom.7. Og wtheimter ecke alleinasta wtvortis Hlydne/allra vorra
Lida ꝫ Lima/helldur ꝫ jñvortis Hlydne Hiartans/Andans ꝫ Salareñar.

J añañ mata kieñer Herrañ Christur oss hier/ Hvørniñ vared eige ad vera
voru

voru Riettlæte/sem er/ad þad æ ad vera betra eñ Phariseaña Riettlæte/Pad er/Oss byriar ad hafa soddañ eitt Riettlæte/sem ad er fullkomed/hreint ꝛ Oflecкad/aan Syndsamlegra Girnda/og Tilhnyginga. Eñ huilykt fullkomed Riettlæte/kuñum vier þo ecke ad fiña med oss/þui af Syndareñar Eytre/ erū vier so spillter og fordiarfader vordner/ad þar er eingiñ sa sem gott giører/ og ecke eirn/ sem David seiger/Psalm. 14. Løgmaaled wtheimter ad søñu af oss eina heilaga og Oflecкada Natturu/ Eñ vier erū þar kuert æ mote/ aller Børn Reidiñar/Eph. 2. Løgmaaled wtkrefur af oss heilaga Þanka/eñ hia oss fiñast ecke vtañ sauruger Þankar/og vondar Hugxaner/Matth. 15. Løgmaaled vill hafa af oss eitt hreint Hiarta/ Eñ huør er sa sem kañ ad seigia/ mitt Hiarta er hreint/Ordsk. B. 20. Løgmaaled wtheimter af oss eina stadfasta og varanlega Hlydne/ Eñ þar kuert æ moote fellur sa hiñ Riettlæte sjøsiñum æ Deige/Jaa/Þar er eingiñ sem kañ ad Formerkia huad opt hañ Misgiører/Psalm. 19.

Huad eigū vier þa til Raads ad taka/so vier gietū komist yfer ꝛ atvegad oss/ þetta betra Riettlæte? Vier skulum nælægia oss til Christū/ ꝛ huad sem oss brestur/taka af hans Fyllingu Naad fyrer Naad/Joh. 1. Þui huad Løgmaalenu var omøgulegt(med þui þad veiktest fyrer Hollded)þad giørde Gud/ og sende siñ Son j Asynd Syndugs Hollds/og fordæmde Syndena j Holldenu fyrer Syndena/ suo ad Riettlætingeñ sem Løgmaaled heimte/ vppfylltest j oss/ Rom. 8. Cap.

## Auñur Greiniñ.

NV viljum vier koma til þess feirna Greinarkornsins/og heyra huørniñ vor blessade Endurlausnare vtleggur þad fimta Bodord/Hier vm hliodar suo Textiñ. Vier hafed heyrt huad sagt er til hiña gomlu/Ecke skalltu Mañ vega/Eñ huør hañ vegur Mañ/sa verdur Dooms sekur/Eñ eg seige ydur/huor hañ reidest Broodur sijnum/sa verdur Dooms sekur/og huør sem ad seiger til Broodur sijns Racha/hañ verdur Raads sekur/ Eñ huør sem seiger/þu Afglape/hañ verdur sekur Helvijtis Ellds.

So heyrum vier hier/ad Mañdraaped/ huørt Gud fyrerbydur j þui fimta Bodordenu/skiedur ecke med einu moote/helldur med þrefølldum Hætte.

Fyrst skiedur þad med Verkenu/ so sem þa eirn yferfellur añañ med Vallde og Ofryke/eins og Cain giørde Broodur sijnum Abel/þa hañ sloo hañ j Hel/ Gen. 4. Edur med Suikum og Vnderferle/ þa eirn læst vera añars goodur vin ꝛ Broder/eñ stundar þo samt j Pele nidre/epter Æru hñs ꝛ Velferd/eins og Saul giørde vid David/ þa hañ gaf hønum sijna Doottur Michol/yfa þad/hñ gixte þ komed hønū/ 1. Sam. 18. Sama lesum vier og so/ad Absalon hafe giørt sijnum Broodur Amon/2. Sam. 13. Og marger adrer fleyre/ Vm þessa talar David so/ Psalmenum 55. Og seiger/ Ad þeir Bloodgiar

ugu og Flærædu mune ei þar syna Lyfdaga hælfnad.

Þar næst skiedur og so Mañdraped med Muñenum/ þegar eirn añadhuørt reidest Broodur synum/ syner æ sier heiptugt gied vid hañ/ hræker edur spytter epter hønũ/ huad ad merkiest fyrer þetta Ordkorned RACha/ Edur kallar hañ Afglapa/ edur ødrum jafu skiemelegum Nøfnum.

Hier verdur oss fyrer Sioonir sett/ huad andstyggelegur Hlutur Reiden sie/ þar Herrañ Christur sialfur jafnar heñe samañ vid Mord og Mañdrap. Þar fyrer (miñ Brooder og Syster) sie so þu vilier huørke vera nie heita/ eirn Mordinge/ og Mañdrapare/ þa tak þier sterkañ Vara þar fyrer/ ad ala ecke Heipt nie Hatur j þynu Hiarta/ vid þiñ Naunga. Þar næst so ad þu meiger þess helldur fordast þeñañ vonda Skaplöst/ þa skal þier þar til koma/ Haaske sa/ sem Reidiñ med sier færer/ sem er/ Hun dregur Mañ vnder Guds Hefndardoom/ og strangañ Riettlætis wrskurd/ þui þad skal huør og eirn vita/ ad Reikningskapur mun þar wtheimtast æ sydasta Deige/ so fyrer Heipt og Reide/ sem fyrer adrar Daudlegar Synder/ þui so talar Herrañ Christur hier Kitooslege/ AD huør Sem Reidest Broodur Synum/ Sa sie Dooms Sekur/ En huørniñ villtu nu þu Veslug Mañeskia standast fyrer þeim Doome? Þar situr ecke þeñañ Doomiñ þuilykur Yfirdoomare/ sem blecktur verdur med Rangre Afsøkun/ edur diarflegre Neitun/ helldur sitr þeñañ Doom sialfur Gud Fader/ Sonur og Heilagur Ande. Þesser Yfirdoomarar hafa so skørp Augu ad þeir sia jñ j Hiartad og Samviskuna/ Jerem. 11. Þui tiaer øngrum vid þa ad þræta/ Þeir sia og eirniñ/ huørniñ huad fyrer sig hefur tilbored/ þui stodar eingiñ Afsøkun. Þar fyrer/ gieter þu ecke med riettu afsakad þyna Reide/ þa vill þar visselega fylgia æ epter Guds Hefndar Straff/ vtan þu giører ædur sterka Jdran.

Þad þridia/ sem oss skal knya til þess/ ad fordast Reide og Hatur/ vid vorn Naunga/ er sa hrædelege Okostur/ sem þessum vonda Skaplesti fylger/ sem er/ ad Reidiñ burtrekur og wtrymer heilagañ Anda Guds/ wr Hiarta þess Hatursama/ so sem merkia ma/ af Ordum Postulans/ j Pistlenum til Eph. 4. Þui þegar hañ hefur vpptaled einar og adrar Synder/ æ medal huørra ad Reidiñ er/ fyrer huørium hañ tekur þeim j Epheso vara/ þa leggur hañ þessi Ord til/ og seiger/ Og hrygged ecke heilagañ Anda/ med huørium þier erud Jñsiglader vppa ydar Endurlausnar Dag.

J fiorda mata skyllde huør og eirn spornast vid Heipt og Reide/ þuiad Deilugiarn Madur og Reidiñ/ verdur alldrei Vinsæll til leingdar/ hia neinum Møñum/ so sem Salomon vottar j Ordsk. B. 27. Og þar af kiemur þad/ ad þu skallt ægiad sia/ ad Hyggner Meñ vilia Ogiarnañ dryfa sig nockud vid storsiñada Meñ/ helldur hlidra hia þeim/ og fordast þa/ suo sem Meñ fordast ad vera æ Veige fyrer einu Oarga Dyre edur grimmum Hleckia Hunde/ þui þesser er alldrei ørvænt/ ad Madur meige af þuilykum Heiptarfullum Siñisvørgum/ añadhuørt Smanader verda/ med Ordum edur Verkum/ ellegar Madur meige

j Ostilling

j Skillingu siñe/ þad Slis a þeim viña/ sem hañ villde ad ecke hefde skied.

J fimta og sijdasta Mata skulum vier fordast Hatur og Reide/ vegna þess ad heñe fylger eñ nu ein su Oodygd/ ad hun giører Meñ Afsiña/ og Oodum Møñum lykare/ eñ þeim sem Gud hefur Vit og Skyn giefed/ Þui eins og þ/ ad Reikuriñ/ þa hañ kiemur mykell vpp j Augun/ þa er hañ þar so sterkur/ og Beyskur/ ad Madur kañ huørge fra sier ad siaa/ helldur eñ hañ være blindur/ So forblindar og so Reidiñ Mañsins Hugskot/ ad hañ sier ecke huad sier Soo mer/ edur vid huørn hañ a. Þar fyrer/ Huør hañ vill ecke vera og heita ein Narre/ edur Galuñ Gloopur/ sa stande a moote Heipt og Reide/ epter Raadum þess vijsa Salomons/ j Predikarans Book. 7. Cap. Vertu ecke bradur til Reide/ þui j Hiarta þess Daarlega plagar Reidiñ ad huijlast.

Þridia Mord edur Mañdraap/ sem skiedur a mote þui fimta Bodordenu/ kiemur af Hiartanu/ þegar eirn huxar sijnum Naunga jlltog vill med øngvu mote vid hañ forlijkast/ fyrr eñ hañ hefur gietad hefnt syn a hønum/ j einhuørn mata/ Huad Herrañ Christur vill þo øngvañ eiginn lijda/ og þess vegna seiger hañ so j þessum vorum Gudspialls Texta. Nær ed þu Offrar þijna Gafu til Alltaris/ og þier kiemur þar til Hugar/ þad þiñ Brooder hafe nockud a mote þier/ þa laattu þar þijna Gafu fyrer Alltarenu/ og far fyrst ad sætta þig vid Broodur þiñ/ Item/ Vertu snarlega samþyckur þijnum Mootstødumañe/ a medañ þu ert eñ nu a Veige med hønum/ so ad eige selie þig þiñ Motstødumadur Doomaranum/ og Domariñ selie þig Þienaranum/ og verder þu j Dyblijssu kastadur. Sañlega seige eg þier/ ad eige muntu þadañ vt fara/ þangad til þu hefur borgad hiñ sijdasta Pening. Hier vpptelur nu og framsetur Herrañ Christur/ nockrar sierdeilis Ordsaker/ sem oss skulu vppvekia til þess/ ad ala ecke Heipt z Hatur til leingdar/ vid vorn Samchristiñ Naunga. Og er hin fyrsta su/ Ad vier erum aller Jñbyrdis huør añars Brooder/ og af einu Bloode/ Act. 17. Þar fyrer ber oss/ ad hafa Broodurlegañ Kiærleika huør til añars. Syrach seiger j/ 13. Cap. Ad huørt Dijr elske siñ Lijka/ Huad myklu framar ættum vier þa Meñerner ad elska vorn Naunga/ þui þad gledur bæde Gud og Meñ/ þegar Bræburner forlijkast vel/ seiger same Syrach/ 25. Cap. Item/ seiger David j Psalm. 133. Sia þu/ Huørsu agiætt og Elskulegt þad er/ ad Bræddurner bwa huør vid añañ samþyckelega. So og hroosar Ritningiñ Forfødurnum Abraham þar fyrer/ ad hañ lifde j Kiærleika/ og Eindrægne vid siñ Broodurson Loth/ Gen. 13. Eñ þar þuert a mote lesum vier j Genesis Bok. 21. Ad Jsmael var wtrekiñ fyrer þad/ hañ hatade Jsaach. Þar fyrer skulum vier lata þeñañ andlega Brodurskap/ vppvekia oss til jñbyrdis Kiærleika/ Añars kuñum vier ecke med goodre Samvisku/ ad koma fram fyrer Gud/ og Offra Bæns/ og Þacklætis Fornum vorum/ vppa þad andlega Alltared/ sem ad er vor

Drottiñ Jesus Christus/Rom. 3. Eñ Gud Náde/Þar er nu komiñ sú Aulls ad Skynlausar Bestiur hafa meira Samhellde/ eñ Brædur og Máungar/ og giøra Skøm̃ til margra huørra sem alldrei vilia vera til Frids.

Þar næst á oss ad vppvekia til Christelegs Kiærleika/og Eindrægne/vid vorn Samchristiñ Máunga/Alvarleg Amiñing/ og Skipan Lifanda Guds/ Suør ed seiger/VErtu Snarlega Samþyckur Þynum Mootstødumañe/ Þar fyrer/j Dag/j Dag/ ef vier heyrum Guds Raust og Befalning/ þa Forherdum ecke vor Hiørtu/so ad þær hrædelegu Bølvaner kome ecke yfer oss/ sem Herrañ hootar þeim Ohlydnu/Deut. Book. 28. Sem er/Ad þeir skule vera Bølvader/j Iñgaungu/og wtgaungu/et c.

J þridia máta/skal oss áknya til Fridar og Forlykunar vid vorn Brooður og Máunga/Ad vier eigum hier stutta Stund til samans ad vera/ og Lyfdagar vorer eru næsta miøg fallvallter/so alldrei veit nær/eñ oss mune þa og þa burtkipt verda/so sem Dagleg Dæme audsyna/ad eirn er heill og hraustur j Dag/eñ á Morgun Siukur/ eda kañ kie burtdaudur/Þar fyrer syngur suo Christeleg Kyrkia/og seiger. Eins er myn Æfe og Þuerhønd breid/ allskyns hladiñ med Sorgum/ Lytels verdt er mitt Lyfsins Skeid/ vnderlagt Eymdum ørgvm/fallvallt og miøg Forgengelegt/ Fánytt og þar med Hiegomlegt/ eins og Draumur og Skugge. Og hier fyrer Amiñer og eirniñ Herrañ Christur oss/Ad Vier skulum Snarlega samþycker verda vorum Motstødumañe/ A Medañ Vier Erum Eñ nu á Veige Med Hønum/Þad er/á medañ vier lifum til samans/hier j þessum Eymdardal.

Þad fiorda/sem oss skal áfysa/til Fridar og Forlykunar/vid vorn jafnchristiñ/Er þad Vidbioodlega Straff/sem yfer øllum þeim hánger/sem ecke villia Sættum taka/þa þeirra er vel og Tilbærelega leitad/ s m er/Ad þeir verda ofurselldir Doomaranum/og Doomariñ selur þa Þienaranum/ & verda so j Dyblyssu kastader/ og þad þo allra þyngst er/ ad þeir eiga øngrar Frymnar edur Frelsis von/wr þeirre Myrkvastofu/og Fángelse/Þ Angad til þeir hafa Borgad þañ sydasta Pening. Nu/ sa Eilyfe Fridarhøfdingiñ/vor Drottiñ Jesus Christus/stiorne oss og styre/med synum gooda Heilaga Anda/ad vier mættum so lifa j þessum Tárañadal/ ad vier/ad Endadre þessare vorre Vegferdar Reisu/mættum fá og ødlast Farsællega Jñgaungu j þañ Himneska Fridarsal/ Þad heyre Gud/fyrer Saker Nafns syns Blessada Sonar Jesu Christi/ Huørium med Fødurnum/og þeim Gooda Heilaga Anda/ sie Lof & Dyrd fra Eilyfd til Eilyfdar/ A M E N.

## Siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Evangelium/ Marc. 8. Cap.

J Þan̄ Tijma. Þa þar var en̄ margt Folk komed saman̄/og ha- ꝼde ecke til Matar. Jesus kallade sijna Læresueina til sijn/ og sagde til þeirra. Mig aumkar yꝼer Folked/þuiad j þr- ia Daga haꝼa þeir hia mier vered/ og eckert til Matar haꝼt. Og eꝼ eg læt þa ꝼastande heim til sijn ꝼara/ þa Vanmegnast þeir a Leidin̄e. Þuiad sumer voru langt ad komner. Og hans Læresueinar suorudu honum. Huadan̄ ꝼaum vier þau Braud/hier a Eydemorku/so vier ꝼaum þa Mettad? Og han̄ spurde þa ad. Huersu morg Braud haꝼe þier? Þeir sogdu honum/Sio. Og han̄ skipade Folkenu nidur ad set- iast a Jordena. Og took þau sio Braudin̄/ þackade og braut sundur/og ꝼieck sijnum Læresueinum/ ad þeir legde þau ꝼram̄. Og þeir logdu þau ꝼram̄ ꝼyrer Folked. Þeir hoꝼdu og ꝼaa eina Fiska/og þa hina semu Blessade han̄/og baud ꝼram̄ ad leggia. En̄ þeir neittu/og vrdu Metter. Og þeir tooku vpp þad yꝼer var/ sio Karꝼer med Aꝼgangs Leiꝼar. En̄ þeir sem Neitt hoꝼdu/voru nær Fiorar Þusunder/ og han̄ liet þa j burtu ꝼara.

# Exordium.

ÞEgar Jsraels Folk haꝼde ꝼeinged Leida aꝼ Himnabraudenu/j Ey- demorkun̄e/og villde ꝼaa Kiøt ad eta/þa møglade þad j giegn Moy- se/og sagde. Vier Endurmin̄unst nu þeirra Fiska/ sem vier atum ꝼyrer eckert j Egyptalande/ En̄ nu eru Ander vorar þrottar/ þui vor Augu siaa eckert vtan þetta Man. Þessa Kløgun Folksins heyrde Drottin̄/og sagde/ til Moysen/seigdu til Folksins/Ad þad skule Helga sig til Morguns/þt ad Morgne vil eg gieꝼa þui Kiøt ad eta/ecke eirn Dag/ecke tuo ecke ꝼim̄/ecke tiju/ecke tuttugu Daga/ Helldur eirn Manud/þangad til þad ge ingur wt om þeirra Naser/ so þad velge vid þui. Þetta þotte Moyse næsta Omøgulegt vera/ og sagde til Drottins/ Þetta Folk er sex Hundrud Þusund Footgaungulids/ og þu seiger/ Eg vil gieꝼa ydur Kiøt ad eta/eirn Manud/ skal nockud slaa nidur Naut og Saude/so þeim meige nægiast? Eda skulu aller Fiskar Siaꝼarens saꝼnast hingad/ ad þad kune ad nægiast handa þeim? Enn Drottin̄ andsuarade hønum/og sagde/Er þa Hønd Drottins stutt ordin̄? Nu þu skallt siaa/ huert mitt Ord kan̄ ad koma ꝼram̄ vid þig/ edur eige/ Og þar wtgieck Vindur ꝼra Drottne/og liet Vakelur koma aꝼ Sioonum/ og dreifde þeim yꝼer Herbwdernar/hier eirnrar Dagꝼerdar Leingd/og þar eirnrar Dag leidar leingd/tueggia Alna hætt yꝼer Jørdun̄e/ sem lesa maa j Num. B. 11. Moodlijk Historia/og Dæme/verdur oss ꝼram̄sett/j þessa Dags Heilaga Evan

 gelio

gelia/Þui ſo ſem þad/ad Drottinn Fædde Jſraels Folk æ Vaktelunum/ſo þad hafde anægianlegt/Eins Fæder Herrann Chriſtur hier/ nær fioorar Þuſunder Manna/af ſiø Braudum og faa einum Fiſkum/ſo þar voru meire Afgangs Leifar/enn j fyrſtu var framlagt.

Þar næſt/ſo ſem þad/ Moyſe þotte Omøgulegt/ ad Drottinn ſkyllde/ kunna ad giefa Jſraels Folke nægelegt Kiøt ad eta/þar hann hafde þo ædur ſied þad vppa/ad Drottinn hafde læted Himna Miøled Rigna/ og leidt Vatned wt af Hellusteinenum. Eins gatu Lærefucinarner ecke helldur Truad/ ad Herrann Chriſtur munde gieta fædt ſo margt Folk j Eydemørkunne/ og þar fyrer ſeigia þeir/ Hvar faaum vier Braud hier æ Eydemørku/et. ct. Ja/þeir muna nu ecke ert til þeſſ/ þa hann fædde fimm Þuſunder Manna/ med fimm Byggbraudum ædur fyrre/ Joh. 6.

J þridia lage/ſo ſem þad Gud fædde Jſraels Børn/ æ Vaktelunum/ j Eydemørkunne/So fæder og eirninn Herrann Chriſtur/hier j Eydemørkunne/ſyn Børn miøg Dæſamlega/ Audſynande þar med/ ad hann ſie ſannur Guds Sonur/ ſem ecke er bundinn vid nockurn Stad/Tyma edr Medal. Vier villum ecke leingra Inngangs/vyrkia til Textans/ og wt af hønnm ſkoda og yfer vega/ þeſſa þria epterfylgiande Puncta.

Hinn fyrſte ſkal vera/vm þad Millda/og Myſkunarfulla Hiarta/ Endurlauſnarans vors Jeſu Chriſti/Huør ed aumkade ſig yfer Folked.

Annar vm Vantrw Poſtulanna. Og hinn þride vm ſialft Dæſemdarverked/ſem Herrann Chriſtur hier giører. Sa Almættuge og Eilyfe Gud/ſem wr litlu kann ad giøra myked/ Hialpe oſſ med ſinne Nad/ ſuo vier mættum hier wt af nockud gott læra/ og oſſ til Nytſemdar færa/Amen.

# Fyrſte Puncturinn.

Likka ſem þad/Ad huør og eirn Madur/hefur eirn Lykama/og j Lykamanum eina Lifande Saal/So þarf hann og ſo vid/bæde Andlegrar og Lykamlegrar Næringar/z Vpphelldis/þui Madurinn lifer ecke æ einuſaman Braude/ helldur af ſierhuørtu Orde ſem framgeingur af Guds Munne/ ſo ſem ſialfur Endurlauſnarinn vor lioosljega vottar/ hia Matth. 4. Dæme hier vppa høfum vier/j þeſſa Dags Gudſpialle/Þui epter þad/Ad Herrann Chriſtur hafde fædt og fooſtrad Saaler þeſſa Folka(ſem hønum epterfylgde)æ þui Himneſka Braude/ſyns Bleſſada og Lyfskrøptuga Ords/ þa fæder hann þ og ſo Lykamlega/ Audſynande þar med/ad hann ſie ſa hinn ſame/hia huørium vier eigum ad leita bæde Saalarennar og Lykamans Næringar/ Huad hid ſama Folk þetta hefur athugad/ og þeſſ vegna epterfylgdt Herranum Chriſto wt j Eydemørkenna. Af huørs Dæme vier ſkulum athuga þetta þernt.

Fyrſt ſo ſem þad/ Ad Gudſpiallamadurinn vottar/ ad þad hafe ecke vered þar einar Manneſkiur/ſem hier hafe ſamann komed/til ad hlyda æ Herrans Chriſti Predikun/ Helldur Margt FOlk/ So eigum vier og eirninn ad hafa eina

Hiartans

Hiartans Girnd/ og Epterlangan/til þess/ad heyra Guds Ord/ læra þad og Idka/og læta oss þad ecke leidast. En sinum til (Good Guds Børn/huad Glyter vier erum/sem a þessum Døgum lifum/ þessu gooda Foolke/þad flyktest hier Þusundum samans/til Herrans Christum/til ad hlusta epter hans Keñingu/ En j vorum Kyrkium/þegar su Andlega Saalar fædañ/sem er Ord Drottins/ verdur Kient og frambored/ þa koma þar valla tyu/Ja/ kañskie stundum eirn eda eingiñ.

J añañ mata seiger Gudspiallamaduriñ/Ad Foolk þetta hafe ecke ad eins vered wr næstu Kryngumliggiande Þorpum/ Helldur hafe SUmt UEred Langt ad komed/En huørneñ fer oss? Vær høfum Kyrkiuna og Guds heilaga Ord alla leid vpp vnder Gardenum hia oss/Ja/skamt fra vorum Bæum & Heimele/ & neñum þo ecke ad vykia oss Bæiarleidarleingd edur fuetsfootar til þess ad hlyda Orde DROTtins. Vær lesum j heilagre Ritningu vm Drottningena af Arabia Ryke/þad hun hafe giørt sier ferd til Salomonis/til ad heira hans vysdoom so langañ veg/sem tuøhundrud fiørutyu og eina Mylu. skylldum vier þa telia epter oss/ad ferdast eirn lyteñ Spøl/til ad heyra Christū sem længtum vysare er eñ Salomon. Æ/ huad mykeñ Kiñroda giøra Austurvegs Vitringarner oss/sem soocktu til Christum meir eñ vm hælft fimta Hundrad Mylz/Eirniñ Gielldinguriñ Drottningareñar Candaces j Morlande/sm ferdadest fiøgur Hundrud og attatyu Mylur/til ad heyra Evangelium/þar Foolk amast nu vid ad ganga wr næsta Hwse til ad heyra Predikun.

J þridia lage verdur þess gieted j Gudspiallenu/Ad Foolk þetta hafe vered hia Herranum Christo/og vnder hans Predikun/ecke eirn tyma/edur hælfaun añañ/helldur j heila ÞRia DAga. En vær gietum valla seted litla stund vnder Guds Orda Heyrn/og kløgum opt yfer løngum Predikunum. Ja/þad fell ur mørgum nu þyngra/ad hallda þria Daga heilagt a stærstu Hætydum Arsins/eñ Foolke þessu ad vera þria Daga j Eydemørkuñe hia Christo. En sie sagt/ad j þeim edur þeim stad/eige ad lesa Søgur/hallda Glede & Vøku nætz/ & þar eige ad fremia allra handa Leike/Dansa & Vikevaka/þa er vppe Footz og Fit (sem vier pløgum ad seigia) þa þykest huør goodu bættur sem þanngad kiemst/og virda huørke fyrer sier Fiuk nie Frost/Regn eda Storm/ helldur vna ad sitia þar vid/og hlyda þui heilum Nottrum og Døgum j giegn.

J fioorda mata/ hefur Foolk þetta soddañ Hiartans Gyrnd/ Alvøru og Kostgiæfne til þess/ad hlyda Jesu Blessada Orde/Ad huør hleipur og flytur sier sem bweñ er/Heimañ fra synu Hwse/og hugsar huørke vm ad taka mz sier Mat nie Dryck/edur añad sem þad vid þarf. En hier fuert a moote for sooma marger a þessum Tymum Predikun/og Kieñing Guds Orda fyrer einskis verdañ Hiegooma/ Acktande meyra fyrer Suyn syn/eins og þeir j Gergesena Lande/ Marc. 5. Eda fyrer Uxa syna/eins og þeir ofarklætu Giester/sem bodner voru/ Eda fyrer syna stundlega Næring/so sem giørde sa vnge Madur/vm huørn skrifad stendur hia Matth. 9. En Guds Guddomlega Ord

 huørt

huørt ad er þo hinn allra dyrmætaste Fiesioodur sem æpenlega varer/ 1. Pet.
1. Cap. Hafande Fyrerheit þessa Lyþs og añars/ 1. Tim. 4.

Pad añad sem oss er athugande j þessu fyrsta Greinarkornenu/ Er vm þa
breñande Elsku/og Medaumkunarsama Hiarta/vors liuþa Lausnara Jesu
Christi/sem hañ hefur til Foolks þessa/ Hier vm hlioodar suo Textinn.

Jesus kallade syna Læresueina til syn/ & sagde til þeirra/ Mig aumkar
ÞEßer FOlked. Matth. Gudspiallamadur sem þessa Historiu hefur skrifad
a Hebreskt maal brwkar þar til þetta Ord Channon/ Huad ad merker so my
ked sem goods ad vña/edur vel ad vilia einum/suo sem Christur hefde so sagt/
Eg añ Fooltenu/ Eg hefe gott Gied og Astseme til Foolksins. Og j þeim Gr
iska Textanum stendur eitt eptermiñelegt Ord/sem merker suo myked/sem þui
lyka Goodvilld og medaumkan ad hafa til nockurs/af huørre ad hræraft og
vidkomast øll Mañsins Jdur af Medaumkan. Par fyrer er þad møg
Huggunarsamlegt fyrer alla þa sem eptersylgia Herranum Christo/og heyra
hans Ord af Alvøru/ Kostgiæfne og Astundan/ þeim vill hañ vera so yfer
mætanlega goodur/Nadugur/Epterlaatur/Milldur/Almattugur og Blessu
narfullur Gud/og Drottiñ/suo sem Gudspiallameñerner hañ hier vppmaala/
Ja/hañ er ecke alleinasta Medaumkunarsamur og Goodgiarn vid oss/helldur
fws og Reidubwiñ Drottiñ til ad hialpa/ þar fyrer seiger hañ so/ J Eg vil
Ecke Laata Þa FAstande FRA Mier FAra. Hañ skortar hier og ecke hell
dur Efniñ og Mattriñ þar til/ þui hñ er eirn Almattugur Gud/ og Drottiñ
j huørs Vallde ad stendur allt/ Og suo sem Lærefaderiñ Taulerus merkelega
vm hañ talar/Længtum liufare til þess/ad gefa/og giøra oss til Gooda/ enn
vier erum til þess ad þiggia/ og vid ad taka/ Og þar fyrer seiger hiñ heilage
David/Psalm. 103. Ad lyka sem þad Faderiñ er Børnunum Lyknsamur/eins
sie Drottiñ Myskunsamur/vid þa sem hañ ottast/þui hañ er Fader Myskunn
semeñar/og Gud Huggunareñar/so sem Postuliñ vottar/2. Cor 1. Par fyrer
kuñer þu (miñ Brooder og Syster) ad rata j Volæde og Fatækt/eda ørbyrgd/
þa efastu samt ecke/ helldur þenktu strax til þess Medaumkunarsama Hiarta/
þyns Endurlausnara/og Huggadu þig þar vid/ad þad er a mote hans Natt
uru/ad læta nockurn af þeim sem a hañ treysta/Naud lyda/þui fyrr hlioota
Hrafnarner ad koma/og bera þeim Braud og Fædslu/ so sem þeir giørdu vid
Spamañiñ Eliam/1. B. Kong. 17. J añañ mata lætur Herrañ Christur
j Lioose/Aast syna og Hiartalag/sem hañ hefur til þessa Folks/ sem og allra
vor/sem elskum hans Ord/ j þui/ ad hañ ecke ad eins hefur Medaumkan med
oss/helldur og eirniñ huxar oss fyrer Braude/og þeirre Lykamlegu Næringuñe
so vier skulum ecke fastande fra hønum fara/eda Vanmegnast a Leideñe. Ha
fe nu vor sæte Endurlausnare giørt þetta Obediñ/ huad myklu framar mun
hañ giøra þad/nær vier hañ þar vm bidium? Hafe hñ so Kreptugur vered a
siñe Nidurlægingar Tyd/Huad meine þier/ad hñ mune þa Krøptugr vera/þar
hañ situr nu/og er vpphafiñ til hægre Handar syns Fødurs/ yfer allañ Hófþot
ingskap

eingſkap/Valldſtiett/Magt og Herradoom/og allt huad nefnaſt mæ/ei einaſta
i þeſſare Verølldu/helldur jafnvel j Otkomnne/Eph. 1. Herran̄ Chriſtur vill
og eirnin̄ oſſ med þeſſum Ordum Amint hafa/þar han̄ ſeiger/Læte eg þa fa-
ſtande fra mier fara/þa Vanmegnaſt þeir a Leideñe. Huad ſtoor Nauð
ſyn og Þørf oſſ ſie a þeirre riettu Sælar Fæduñe/Herranum Chriſto/ Hans
Orde/og Sacramentunum/ſo huør hn̄ a ſtad ferdaſt/ æn þeſſa Veganeſteſins
hn̄s auma Sæl hlytur eilyflega ad Vanmegnaſt/eins z Sæl þeſſ Ryka Mans/
Luc. 15. Þar fyrer ſkyllde eirn og ſierhuør hallda ſier til Chriſtum/ ecke ad
eins han̄ fyrſta og an̄an̄ Dag/ þad er a Æſkutymanum/og Fullcyda Alldren
um/Helldur og ſo han̄ þridia Dag/eins og Folk þetta/þad er allt til vors ſi
daſta Burtferdar tyma/ þa vier eigum vid ad ſkilia/ og fara heim aptur.

# An̄ar Puncturin̄.

NV vilium vier vykia til þeſſ an̄ars Greinartornſins/ og ſtuttlega ſkoda/
Vantrw þeirra goodu Herrans Chriſti Læreſueina/Þui þa Drottin̄ ſeiger
þeim ſyna Fyrerøtlun/og huad hønum byr j Sin̄e/vid þetta Folk/ſem er/ ad
han̄ vilie giefa þui Fædu/ þar j Eydemørkuñe/ þa ſiæ þeir ſtrax epter þeim
utvortis Medølum/og Afrada hønum/ad taka þad j Ord/ad fæda ſo margt
Folk/ Fyrſt vegna Eynaleiſis/þui þeir ſeigiaſt ecke hafa fyrer Hende vtan̄ ein
SJø BRaud/ſem þeir hafe keypt fyrer ſialfa ſig/ſier til Neſtis/og hielldu
þeſſ vegna þad meſta oraad vera/ad han̄ ſkyllde bera ſig ad ſkypta ſo litlu a
medal ſuo margra. Eins erum vier og ſo ſin̄ader/ad vier ſiaum alleinaſta epter
þui ſem vier høfum fyrer framan̄ Hendurnar/ En̄ ad Almætte Guds og hn̄s
Krapte giætum vier (þui midur)ſialldnar/eins og Riddaren̄ j Samaria vm hu
ørn leſed verdur j an̄are Book. Kong. 7 Cap.

Þar næſt afrada þeir Herranum Chriſto/ ad fæda þetta hungrada Folk
vegna Ohentugleika Platzins er þeir voru j ſtadder/ſem var Eydemørkin̄/
þar fyrer anſa þeir ſo til og ſeigia/Huadan faaum vier þau Braud hier a
Eydemorku ſuo ad vier faaum þa mettad? Þad er ſem þeir hefdu
ſagt. Værum vier j Jeruſalem/þa være eingen̄ Neyd/ Vier ſkylldum þa faa
noog Braud/þo an̄ad jafnmargt Folk være/En̄ hier j þeſſū ſtad er eckert an̄ad
en̄ Trie/ Steinar og Gras/huad ecke er kienanlegt til ad ſedia med Hungradan̄
Maga. Eins geingur þad til og ſo/en̄ nu j Dag fyrer mørgum/ad ſtrax þeg-
ar Aaraſkipte verda/og ecke Fiſkaſt ſo vel ſeirna Aared/ſem þad fyrra/eda ef
Miſbreſtur verdur a Jardaren̄ar Grooda/ Huad er þa an̄ad/en̄ Men̄ ørvæn-
ta ſier/og bera ſtoora Vmhyggiu fyrer/huørnin̄ þeir kun̄e ad hialpaſt/ſeigian-
de/ HVar faaum vier BRaud hier a Eydemørku? En̄ hitt er Vęræde betra/
ad flyia til Herrans Chriſtum/og bera vpp fyrer hønum Vancfne ſyn/þui hn̄
hefur ſoddan̄ eina Almættuga Hønd/ ſem ecke er en̄ nu ſtutt ordin̄/Eſa. 50.
Huør Fædde og Forſorgade Jſraels Folk j Eydemørkuñe/j heil fioruty ar?

þar til/ad vier lærum ad þeckia/og kanast vid oss sialꝼa/og audmykia oss vndir Vollduga Guds Hønd/so han vpphefie oss a sinum Tyma.

# Annur Greinin.

NV viliu̅m vier koma til þess seirna Greinarkornsins/z athuga/huørsu Daarsamlega og Furdanlega/Herran Christur Læknade þenan auma Man.

Fyrst seiger Gudspiallamadurin/ AD Han HAꝼe Viked Hønum AFsydis FRa FOlkenu. Þetta hid sama giører Endurlausnarin vor/en nu j Dag vid oss/Og þad sama fyrst j Skyrnine vorre/ þar vier verdum Endurꝼædder/ og so sem Aꝼsydis tekner/ꝼra þeirre Vondu Verølldu/og giørder ad Guds Børnum/ Þar ꝼyrer seiger suo Postulin Paall/ Þier erud aller Guds Børn ꝼyrer Trwna a Jesum Christum/Þui so marger aꝼ ydur sem skyrder eryd/Þier haꝼed Jklædst Christo/ Gal. 3. Han tekur oss og eirnin Aꝼsydis ꝼra Folkenu/ ꝼyrer Alvarlega Løgmaalsins Predikun/ Þegar han lætur Amina oss/ til eins Christelegs Lyꝼernis/ so vier verdum ecke lyker þessare Verølldu. Og j þridia maata vykur han oss Aꝼsydis/ Fyrer Kross og Motgang/ þui nær vier Dæmunst/ þa verdum vier aꝼ Drottne Typtader/ vppa þad vier Fyrerdæmunst eige med Heimenum/seiger Postulin/1. Cor. 11. Cap.

Annur Ceremonia edur Adꝼerd/ sem Christur Brwkar/ til ad Lækna þennan auma Man/er þesse/AD HAn LÆtur Synar BLEssudu Fingur J HAns EYru. Fyrer þenan Fyngurin a ad skiliast sa goode Heilage Ande. Þetta er sa Krøptuge Fyngurin/ Med huørium Herran Christur Opnar en nu j Dag/ Eyru vors Hiarta/so vier gietum heyrt og medteked Guds Ord med Føgnude/giørt sana Jdran/og snwed oss ꝼra Syndunum. Eg vil gieꝼa min Anda j ydur( seiger Drottin )og eg vil giøra soddan eitt Folk aꝼ ydur/sem geingur j mynum Bodordum/z helldur myn Riettinde/og giører þar epter/Ezech. 35. Cap. Med þessum Fingrenum opnade Drottin ꝼordum Tilheyrendur Petri/so ad hans Predikun gieck þeim til Hiarta/ Act. 2. Þar ꝼyrer/so opt sem vier gaungum til Kyrkiunnar/ og heyrum Guds Ords Þienara þar predika oss Ord Sannleiksins/ þa þeinkium suo med oss/ Nu riettet min Hiartans Endurlausnare wt sin Fyngur/og vill opna mitt Hiarta. Bidium þar ꝼ Gud med David/aꝼ Psalm. 119. z seigium/O Drottin/Opna þu myn Augu z Eyru/so ad eg heyre og siaae þa ꝼurdanlegu Hlutena/j þynu Løgmaale.

Þridia Ceremonia/edur Adꝼerd/sem Herran Brwkar til ad lækna þan siuka var þesse/ad Han HRAkte VT. Fyrer þnan hns Heilsusamlega Hraaka/a ad skilia( vppa Andlega Visu )Guds Ord/og þau heiløgu Sacramenta/Þuiad so sem Hraakin heꝼur syn Vpptøk aꝼ Høꝼdenu og Heilanum/ So er og so Christur Høꝼud syns Saꝼnadar/wt aꝼ huøriu ad ꝼlytur Ord Trwarinnar. Aꝼ huøriu vier lærum/ad þeckia Gud/bæde epter hans Vern og Vilia/Huad ad er þad eilyꝼa Lyꝼed/Joh. 17.

Þegar oss ber þad nockud ꝼ Siooner/sem oss þellur ecke/og vier høꝼum Vidþiood

blood vid/ þa pløgum vier ad hrækia og spyta/og seigia/huada Andstygd er ad þarna. Þesse aume Madur var so af Dißlenum wtleikiñ/ad Herranum Christo gafst eirniñ Ordsøk til ad Hrækia wt/ Audsynande þar med/ Huad mykla Andstygd hañ hefde a Verkum Andskotans/Giefande oss eitt Epterdæme/Ad vier skylldum j sama mata hata/ og Vidbiood hafa a þui/ þa vier siaum/ ad eirn eda añar lætur Diøfuliñ koma sier til þess edur þess jlls Verks/ad fremia/ so sem ad eru Galldrar/ og adrer þuilyker Andstyggeleger Lester.

Fiorda Ceremonia/sem Christur brwkade hier til/var þesse/ AD HAñ LEIT Vpp Til Himens. Þegar vier forundrum oss vppa nockud/ þa pløgum vier ad Horfa til Himens/ sama giører Herrañ Christur/ þa hañ sier þeñañ auma Mañ/sem Gud hafde þo skapad/epter siñe Eigen Mynd/þa so sem hañ Furde sig þar vppa/Ad Diøfulliñ skyllde hafa fared so jila med hañ/og Ræna hañ bæde Heyrn og Male.

Fimta Ceremonia edur Adferd Herrans Christi/ til ad Lækna þañ siuka/ var þesse/ Ad hañ ANDVarpade/ Audsynande þar med syna Broodurlega Elsku/ɀ Hiartalag/sñ ɀ eirniñ Medaumkan/sñ hñ hefur til allra vor/ Og hñ hefde þar ꝥ/vppa sig teked vort Holld og Blod/ad hñ Myskunade sig yfer oss/ ɀ so sem eirn Trwlyndur Byskup/ꝥ Gude/Forlykade Folksins Synder, Heb. 2.

Ad sydustu brwkade Herrañ Christur/sitt Krøptuga HEphata/til ad Heilbrygda þeñan Mañ med/vid huørt hans Almættis Ord hønum so bra/Ad Gudspiallamaduriñ seiger/Ad jafnsnart hafe vpplokest hans Eyru/þa hafe og eirniñ vppleyst Fiøtur hans Tungu/so hañ talade Rieńt. Og kiemur þad hier fram/sem David vm hañ spaer/Psalm. 33. So sem hañ seiger so skiedur þad/so sem hañ befalar/so stendur þad/fyrer sitt Ord/ hefur hann oss og allar Skiepnur skapad j Vpphafe/med synu Orde vidhelldur hañ oss/og Endurnærer/ j allskonar Krosse og Mootlætingum. Þuiad hefde þitt Ord Drottiñ ecke myn Huggun vered/seiger David/þa hefde eg farest j miñe Eymd Psalm. 119. A sydasta Deige mun hañ og so med synu Orde/Vppluka Grøfum vorum/og leida oss sitt Folk wt þadan/Ezech. 37. Þui sa Tyme mun koma/ad aller þeir sem j Grøfunum eru/skulu heyra hans Raust/Og þeir munu þa framganga sem gott hafa giørt/til Lyfsins Vpprisu/Eñ þeir sem jllt hafa giørt/til Doomsins Vpprisu/ Joh. 5.

Hllar af vier lærum/Ad vor Endurlausnare/Herrañ Jesus Christus er og heiter med riettu Dominus dicens et faciens/Þad er/sa Drottiñ sem eitt Ord talar/ɀ giører þad eirniñ/Ezech. 17. Og er þetta vm ꝥ añad Greinarkorned.

# Þridia Greiniñ.

Epterfylger þad þridia med einu Orde/ sem er/ vm Lofgiørd og Þacklæte Folksins/sem þad leggur Herranum Christo aptur/ fyrer þessa syna Nadarryka Hialp/sem hañ audsynde þessum Auma Mañe/seigiande. Allt giorde hañ vel/ þuiad Dauffa lætur hañ heyra/ og Mallausa tala.

 Sañar-

Sañarlega er þ skylldugt/Ad vier tøkñ vnder med þessu Folke/og seigiũ/ Ad
Jesus Endurlausnare vor/haþe allt giørt vel. Jaa/Allt giørde hñ vel j Skøp
unarverkenu/ so sem Moyses vottar/seigiande. Og Gud saa alla Hlute/ sem
hañ haþde giørt/og siaa/þeir voru harla gooder/Gen. 1. Allt giørde hañ vel
j Endurlausnarverkenu/Eñ Diøþulliñ þar þuert aa moote/giørde allt jllt/þa
hañ þellde vora þyrstu Forelldra/aasamt alla þeirra Epterkomendur j Synd-
ena og Daudañ/Eñ Jesus heþur giørt þad allt aptur gott/þar hñ leid Pyñ-
ing z Daudañ þyrer oss/so þar er nu eckert þordæmanlegt aa þeim sem j Christo Je-
su eru/Rom. 8. Allt giører hñ vel/j þui/ ad hañ helldur oss vid Lyþ og Hei-
lsu/Lætur syna Sool vpprenña/yþer jlla Meñ sem gooda/Matth. 5. Gieþur
Sumar og Vetur/ Og suo leinge sem Jørdiñ stendur/ þa lætur hañ ecke linna
Saad og Kornskurd/Frost z Hita/ Dag og Noott. Hañ verndar oss og vardv-
veiter/so sem sitt Augna Staalldur/og skyler oss vnder synum Nadar Væng-
ium/eins og Hænañ giører synum Vngum/Matth. 23. A sydasta Deige mun
hañ og einniñ allt vel giøra/þa hañ mun vppvekia oss aþ Duþte Jardarennar/
og Vpprickia oss med sier j Loptid/Þar vier munum Æþenlega med hønum ve-
ra/og med Heiløgum Einglum/ og Vtvøldum øllum/ syngia þetta Fagnadar
Vessed aa Aþlaats/þrame þyrer Stoole Guds/Omnia bene þecit/ Allt giørde
hañ vel. Til huørrar Glede og Farsælldar oss hialpe Gud Fader/aþ siñe Naad
þyrer Forþienustu syns Sæta Sonar Jesu Christi/ Huørium ad sie Dyrd og
Loþ/Heidur og Þackargiørd/nu hiedan j þra/og ad Eilyþu/ Amen.

# Þrettanda Suñudag epter Trinitatis.

Euangelium/Luc. 10. Cap.



G Jesus snere sier til siña Lærisueina/ og sagde þe-
im sierdeilis. Sæl eru þau Augu sem siaa þad/huad þi-
er siaaed/ Þuiad eg seige ydur/þad marger Spaameñ og
Kongar/villdu haþa sied/huad þier siaaed/og saau þad ec-
ke/og ad heyra huad þier heyred/og heyrdu þad eige. Og
siaa ad nockur Logvitringur stood vpp/þreistade hñs/og
sagde/Meistare/Huad skal eg giøra/ so ad eg eignest Eilyþt Lyþ? Eñ
hañ sagde til hans/ Huad er skriþad j Logmaalenu? Huorniñ les þu?
Hañ suarade og sagde. Elska skalltu Drottiñ Gud þiñ/aþ øllu Hiarta
þynu/og aþ allre Aund þiñe/og af øllum Mætte þynũ/og aþ øllu Hug-
skote þynu/og þiñ Naunga so sem sialþañ þig. Jesus sagde til hans/
Þu suarader riett/ Giør þad og muntu liþa. Eñ hañ villde Riettlæta
sialþañ

sialfan̄ sig/og sagde til Jesu. Huor er þa min̄ Naunge? Jesus suarade og sagde til hans. Madur nockur foor fra Jerusalem/ofan̄ til Jericho/ og hrasade æ medal Ræningia/huorier ed Ræntu han̄ Klædum/og Lemstrudu han̄ Sarum/geingu sijdan̄ j burt/og lietu han̄ þar epter Half dauda liggia. En̄ so bar til/ad Kien̄emadur nockur/ foor ofan̄ þan̄ sama Veg/og er han̄ leit han̄/gieck han̄ fram̄ hia hønum. Slykt hid sama Levitin þa han̄ kom nærre þeim stad/ og sæ han̄/gieck han̄ þar fram̄ hia. En̄ Samverskur Madur nockur foor vm faren̄ Veg/kom þar nærre hm̄ og sem han̄ sæ han̄/ þa hrærdest han̄ af Miskun vid han̄/og gieck ad hønum batt vm Sar han̄s/hellte þar j Vidsmiore z Vijne/og lagde hm̄ vppæ sin̄ Eyk/ flutte til Herbergis/ gaf og giætur ad hønum. En̄ an̄ars Dags þar epter/ þa han̄ foor j burt/ took han̄ vpp tuo Peninga/ og fieck Husbwandanum/og sagde til han̄s/ Haf þu gæt æ hønum/z huad þu leggur meyra vt/þad skal eg borga/nær ad eg kiem aptur. Huer þeirra þriggia sijnest þier vera þess Naunge/sem hrasadur var æ milli Ræningianna? En̄ hn̄ sagde. Sa sem giorde Myskunarverked æ hm̄. Jesus sagde til han̄s/Far þu og gior slijkt hid sama.

## Exordium.

WJer lesum j fyrre Book. Kong. 10. Cap. Vm Drottningena af Ryke Arabia/ Ad þa hun kom fyrer Kongen̄ Salomonem/þa hafe hun talad vid han̄ j Rædgætum/allt þad hun hafde sier æsett/ Og Salomon sagde hen̄e þad allt saman/ og þar var eckert huled fyrer Kongenum/ad han̄ segde hen̄e eige. Hier vppa forundrade Drottningin̄ sig mykelega/ og sagde/ Þad er satt sem eg hefe heyrt j mijnu Lande/vm þijn Efne/og vm þin̄ Vijsdoom/ En̄ eg villde ecke trwa þui/ fyrr en̄ eg kom/og sæ þad med mijnum Augum/Þar fyrer eru þijner Þienarar sæler/sem allteyd standa fyrer þier/og heyra þin̄ Vijsdoom.

Hafe nu Drottningin̄ af Arabia Ryke/mætt Riettelega seigia Salomonis Þienara sæla vera/fyrer þad/ ad þeir stoodu Daglega fram̄e fyrer hønum og heyrdu hans Speke z Vijsdom/Huad myklu framar meiga þa Postular Herrans Christi seigiast sæler/þar þeir feingu ecke ad eins/ad heyra og siæ/helldur og eirnin̄ med sijnum Høndum/ad þreyfa æ Ordenu Lijfsins/vorum Herra Jesu Christo/ Huørs vegna han̄ og so talar so til þeirra/og seiger/ Sæl eru þau Augu/sem siæ þad sem þier siæed/et et. En̄ lijka sem þad/ ad Drottningin̄ af Arabia Ryke/kom þess vegna til Salomonis Kongs/ad hun Reynde hans Vijsdoom med Rædgætum/ w huørium han̄ so leyste/ad aller mættu

 sig þar

Eg þar vppa maklega forundra. Eins kiemur hier nu j þessa Dags Heilaga Gudspialle/ eirn Hofmoodugur Phariseare fram/ og freystar þess Himneska Salomonis Drottins vors Jesu Christi/ med eirnre klooklegre Spurningu/ til huørrar hañ Blessadur suo suarade/ ad hñ vard ecke einungis ad þegia/ helldur og eirneñ ad medkieña/ad þar Hialpar eingeñ Viska/ eingeñ Skynseme/ eckert Raad j moote Drottne/Ordskuida B. 21. Og viliũ vier nu j Jesu Nafne vykia til Gudspiallsins/og þar wt af/oss fyrer Hendur-taka/ tuær Smaa greiner ad yferskoda.

Hin fyrre skal vera/ vm þa yferfliootanlegu Sælu/ sem Lærisueinunum veittest/j þui/ad þeir feingu ad heyra og siaa/þ sem marger Kongar og Spaameñ villdu hafa sied og heyrt/ og feingu þad ecke.

Auñur vm Andsuar Herrans Christi/ sem hañ giefur þessum Phariseara/ sem og eirniñ vm Elsku til Naungans/ og huad vijdt hun wt nææ.

Sa Himneske Samaritan/ vor Drottiñ Jesus Christus/ Virdest ad giefa oss siñ gooda Heilaga Anda/so vier mættum þetta yfervega/hans Nafne til Dyrdar/ eñ oss til Sælar Velferdar/Amen.

# Fyrre Greiniñ.

J Þessum sama Capitula Gudspiallamañsins Lucæ/J huørium þetta Heilaga Evangelium stendur skrifad/ Lesum vier/ Ad epter þad vor Blessade Endurlausnare Jesus/hafe wtvaled þa toolf Postula/Og þar ad auke siøtiju Lærisueina/ og wtsendt þa tuo og tuo til samans vm Landed/ og j alla þa Stade/sem hañ hafde æsett sier ad koma/til ad predika Sañleikans Ord/ og giøra Teikn og Kraftaverk/Ordsins Kieñingu til Styrkingar/Og þa þeir koma aptur til Christũ med þau Fagnadar Tijdinde/ad Diøflarner hefdu z eirniñ orded ad hlyda þeim/j hans Nafne/ Þa gladdest hañ med þeim/Eñ Aminte þa þo samt/ad þeir skylldu ecke Metnast/eda stæra sig þar af/ þo ad Andarner være þeim vndergiefner/ Helldur myklu framar gledia sig yfer þui/ ad þeirra Nøfn væru skrifud a Himnum/ Og strax þar epter þakar hañ synum Himneska Fødur/ fyrer Lukusamlegañ Framgang syns Ords/Snyr sier sydañ til siña Lærisueina/og seiger þeim sierdeilis. Sæl eru þau Augu/sem siaa huad þier siaaed/þui ad eg seige ydur/þad marger Kongar og Spaameñ/ villdu hafa sied huad þier siaaed/og sau þad eige/og ad heyra huad þier heyred/og heyrdu þad ecke.

Tuent er oss hier j þessum Ordum athugande/ Þad fyrra er vm þa myklu Hiartans Epterlangan/sem þeir heiløgu Forfedur/ Spaameñ og Kongar þess Gamla Testamentesins hafa haft/epter Tilkomu Herrans Christi/ j Hollded so sem allvijda maa lesa j heilagre Ritningu. Þegar vor fyrsta Mooder Eva fædde Cain/meinte hun ecke añad eñ þad munde Messias/ þui hun seiger/ Eg hefe ødlast þañ Mañ Drottiñ/Gen.4. Sømu Von hafde og so Lamech

um ſiñ Son Noa/þar hañ ſeiger/þeſſe ſkal Hugga oſſ j vorre Armædu og Er
fide a Jørduñe/ Gen. 5.    Þegar Forfaderiñ Jacob/lꜳ fyrer Daudan
um/ þa kallade hañ vpp/ og ſagde/ Eg byd epter þynu Hialpræde Drottiñ/
Gen. 49.  Huad Hiartanlega Epterlꜳngan/ ad ſa Konunglege Spꜳmadur
David hafe haft hier epter/þ mꜳ ſiꜳ af hans 14. Pſalme/þar hñ ſeiger/ Ach
Eg villde þad Hialpræded kiæme af Syon yfer Jſrael/ þa munde Jacob fag
na/og Jſrael Gladur vera.  Epter þeſſu þrꜳde og ſo þañ Dyrlega Spa
mañ Eſaiam/ þar hann hroopar vpp og ſeiger. Drüpe þier Himnar hier
ofan ad/Og Skyiñ Rygne Riettvyſſiñe/Eſa. 45.  Jꜳ/J einu Orde ad ſeigi
a/Aller Spꜳmeñ hafa haft eina Hiartanlega Epterlꜳngan/epter þeſſu Hi
alpræde Drottins. Lꜳtum oſſ og ſo þar fyrer Andlega lꜳnga epter þeirre
añare Tilkomu vors Drottins Jeſu Chriſti til Doomſins/ og Andvørpum
med þeirre Andlegu Brwdurine/og ſeigium/Veni Domine Jeſu/ Kom Herra
Jeſu/og kom ſnarlega/Openberingar. B. 22.

Þad añad ſem vier høfum hier ad athuga/ Er um þa myklu og yferfliot
anlegu Sælu Lꜳreſueinaña/ um huøria Herrañ hier talar.  Huør Sæluñar
Ordſøk ſie/ edur huar af hun kome/hier um hefur ꜳdur fordum vered margt
og myked Diſputerad af þeim Lꜳrdu. Eñ vier ſkulum vita/ad ſu riettа Sæ
la er ecke þar vnder komiñ/ad lifa j Vellyſtingum og Glede/af huøriu Verall
darenar Børn hallda/og Reikna þad fyrer hina ſtærſtu Farſælld/þa þeim geb
ngur allt ad Oſkum. Ecke er hun helldur komiñ vnder Ryſkedæme/ Gotze og
myklum Audæfum/ſo ſem ſa Ryke Korn Bonde hiellt/um huørn Lucas tal
ar/12. Cap. Eñ ſydur er hun komiñ vnder Tign og Metordum þeſſarar Ver
alldar/ helldur er hun komiñ vnder riettre Sioon og Þeckingu þeſſ Almætt
uga og Eilyfa Guds Sonar/Þui þad er þad eilyfa Lyfed/ ad þeir þecke þig
ſañañ Gud/og þañ þu ſender Jeſum Chriſtum/ Joh. 17. Cap.

Hier kañ einhuør ad ſeigia/ Ef ad ſu riettа Sæla er komiñ þar vnder/ ad
meigia ſꜳ ad ſiꜳ Herrañ Chriſtũ/ & heyra hñ tala/ Huar þ meigia þa ecke og ſo
ſæler kallaſt/Hañas/Caphas/Pilatus/ Herodes/ og adrer Þuſundſiñum fleire
Gudlauſer Gydingar & Heidingiar/huørium ad audnadeſt ſo vel ſem Lꜳreſuei
nunum/ad ſiꜳ Herrañ Chriſtum ꜳ hans Hierviſtar Døgum. Eñ vier ſkulum
vita/Ad Herrañ Chriſtur verdur ſiedur med þreñu moote/ edur ꜳ þrefalldañ
hꜳtt, Fyrſt Andlega/Huør Sioon ad ſkiedur/ med þeim ſyñre Augum Hiart
ans j Truñe/ med huørre Trw Madur hefur hañ ſier fyrer ſyñre Sꜳlareñar
Sioonum/og umfadmar hañ/ þo hañ ſiꜳe hañ ecke med Lykamlegum Augum
Og þetta er ein ſæl og Heillaſæm Sioon/epter þui ſem Herrañ Chriſtur ſial
fur vottar/ þar hañ ſeiger til Thomam/ Sæler eru þeir ſem ecke ſiꜳ/eñ trwa
þo/Joh. 20. Og ꜳ þeñañ Hꜳtt hefur Abraham/og aller Trwader / ſied Chri
ſtum j Anda/Og med Trwñe/ og eru þar med Sꜳluholpner ordner.

Þar næſt og j ødru lage/ verdur Chriſtur ſiedur Lykamlega/epter þeirre
ytre Aſynd/ꜳ huørn hꜳtt þeir Vantrwudu Gydingar og Heidingiar/ ſꜳu hñ


ꜳ ſinum

a ſynum Hiervistar Døgum/ huør Sioon þa þo eckert stodade/ med þui ad
þeir høfdu ecke Trwna a hañ/ Helldur myklu framar er þeim ſu þeirra Sion
til þungs Dooms Afellis/ z til eins Vitnisburdar j moote þeim ſialfum/ ſo
ſem Endurlauſnarin̄ vor vottar/hia Joh. 15. Cap. Være eg ecke komiñ/ og
hefde eg ecke ſagt þeim þad/ þa hefdu þeir øngva Synd/eñ nu kuña þeir eck-
ert fyrer ſig ad bera/til ad afſaka ſyna Synd med.

J þridia lage verdur Christur ſiedur/ bæde Lykamlega og Andlega/ edur
hid ytra og jñra/vnder eins/med huørre tuøfalldre Sioon/Postular Christi og
Lærefueinar/ſau hañ med Trwudum Hiørtum/og hier af kiemur þad/ad He-
rrañ Christur ſeiger Lærefueina ſyna SÆla/ af þui/ad þeir feingu ecke ein-
ungis ad ſia hañ j Holldenu/helldur og eirniñ j Truñe/epter þui ſem Postul-
iñ Petur vottar/þar hañ ſeiger til Christum. Huørt ſkulum vier fara/þu hef-
ur Ord Eilyfs Lyfs. Af huørium Ordum Liooſlega ma rada/ ad hañ hef-
ur ecke einungis þeckt hañ af ytre Aſynd/helldur og eirniñ med þeim jñre Trw-
areñar Augum.

Vier ſkulum a þeſſum ſydustu Tymum/lata oſſ Nægia þar med/ad vier fa-
um ad ſia og heyra Endurlauſnarañ vorn Jeſum/tala vid oſſ j ſynu Orde/z
þeim Heilǫgu Sacramentis. J ſynu Orde lætur hañ ſig jduglega heyra/fyr-
er Rauſt ſiña Þienara/ſem oſſ Predika Løgmaaled og Evangelium/ huørium
hañ hefur giefed wt þad verduga Vyglu Brief/ſem ſuo hlioodar/ Huør ydur
heyrer/hañ heyrer mier/og huør ydur Forſmaaer/hñ forſmaaer mig/ Eñ huør
mig forſmaaer/hañ forſmaaer þañ ſem mig ſende/ Luc. 10.

J þeim heiløgu Sacramentis/ lætur hañ oſſ og eirniñ ſia ſig/j huørium
hañ giefur oſſ ſig ſialfañ/ til Eigenlegrar Eignar. Þui huad er Skyrn-
iñ vor? Hun er j Sañleika ad ſeigia/eckert añad/eñ þad Rauda Bad/ſem er lit-
ad j Christi Bloode/ ſem burt hreinſar af oſſ og tekur/ alla vora Meinſemd/
med huørre vier erum ſpillter og Fordiarfader/og vier høfum teked j Arf/ep-
ter vorn fyrſta Fødur Adam.

J þui heilaga Alltareſins Sacramente/giefur hañ oſſ og tilſeiger allra vor-
ra Synda Kuittan/z Fyrergiefning/huøria Syndañа Fyrergiefning hañ Jñ-
ſiglar og ſtadfeſter/med ſynum Lykama og Bloode/ſem hñ lætur oſſ medtaka/
þa vier erum hans Bordgieſter/j Kuølldmaltydar Sacramentenu. Þui ſo ſei-
ger hañ ſialfur/hia Johañ. 6. Huør hañ etur mitt Holld/og dreckur mitt Bl-
ood/ſa hefur Eilyft Lyf/z eg vil vppvekia hañ a ſydaſta Deige.

O huad ſæler erum vier þa/ ſem meigum fa ad ſia vorn Endurlauſnara
ſo andlega j ſynu Heilaga Orde/og Sacramentunum/og høfum þar med ſtad-
faſta Trw a hañ. Sañarlega/ Þeſſe vor Sæla og Trwareñar Sioon/ er ecke
miñe eñ ſu Sioon/ſem Herrañ Christur hrooſar hier ſynum Lærefueinum af/
og ſeiger/SÆl Eru Þau AVgu Sem Sia Huad Þier Siaed/et cet.

Sa gamle Christelegrar Kyrkiu Lærefader Auguſtinus/ Oſkade ſier þeſſa
freñs/þa hañ eñ nu var a Døgum. Fyrſt/Ad hañ mætte fa ad ſia Roma

borg

borg/ j synum mesta Tignugleika og Bloma. Þar næst/ Ad hañ mætte hafa feingeð ad heyra Paal Postula Predika. Og j þridia lage/ ad hañ hefde mætt faa ad sia Christum j Holldenu. Þesse hans sijdasta Osk var betre øllum hinum/ hverna høfum vier nu og so feiged/ Lof sie Gude/ Þar vier siaum nu vorn blessada Endurlausnara/ med øllū synū Naadar Velgiørningum j hans H. Orde. O Naad yfer Naad/ O Giæskurijke yfer allt Giæskurijke. Hefde Gud ecke vnt oss þessarar Sioonareñar/ þa hefdum vier mætt eilijflega hafa fortapast. J Eilijfu Lijfe munum vier þo eñ sællre verda/ þa vier faaum fullkomlega ad sia þa Heiløgu Guddoomsins Þreñing/ Auglite til Auglitis/ og epter þeirre Dyrdar Sion eigum vier ad læta oss lannga/ so leinge sem vier lifum/ seigiande so og syngiande/ med Christelegre Kyrkiu/ Vbi sunt Gaudia/ þar sem heyra maa/ Ad Guds Einglar syngia/ Nova Cantica/ og Basonur klyngia/ in regis curia/ Eia værum vier þar/ Eia værum vier þar. Og skal þad so sagt vera vm þad fyrra Greinarkoned.

## Añur Greinin.

Epterfylger þad añad/ J huøriu gieted verdur vm Spurning Løgvitringsins/ sem ad hañ framsette fyrer Herrañ Christum/ vppa Freistne/ so seigiande/ Meistare/ Huad skal eg giøra/ so ad eg eignest Eilijft Lijf.

Asetningur hans var sa/ Ad giøra Gis og Spott/ ad Herranum Christo/ Meinande/ hñ munde alldrei geta sier Vrlausn giørt/ a þessare siñe Spurningu. Þar fiñast eñ nu a þessum Døgum/ þeir sem þykiast Hælærder/ Kloker/ og hu ørium Mañe meire/ Setia þær og þær Spurningar fram/ sem þeir ætla ad ecke mune vrleysast/ Leitande sier þar med Lofdyrdar og Hroosunar/ hia ødrum/ Eñ þeir skylldu athuga þad/ sem þar stendur hia Malachiam Spamañe/ 1. C. Bølvadur sie sa sem er eirn Suikare/ þad er sem suiksamlega vmgeingst j Ordum z Giørdum/ vid siñ Naunga/ þuiad huør ed Steine hatt j Lopt kastar/ j Høfud a þeim dettur hañ/ Huør sem Leinelega styngur/ særer sialfañ sig. Huør hañ grefur Grøfena/ sa fellur þar j sialfur. Huør fyrer añan Snøruna leggur/ sa Fangar sig sialfañ. Huør hañ vill ødrum Skada giøra/ hønum kiemur þad sialfum yfer hans Hals/ seiger Syrach/ 28. Cap. Ecke var þo ad sijdur Spurning þessa Hælærda Løgvitrings/ Onyt edur Onaudsynleg/ þui so seiger hañ/ MEystare/ Huad skal eg giøra/ so eg eignest Eilijft Lijf? Ecke spyr hñ ad þui/ huørniñ hñ kuñe ad komast yfer stoora Audlegd og Rijkedæme/ af huøriu Verølldeñ mest helldur/ helldur huad hañ skule giøra/ so hañ fæe Eilijft Lijf. Þetta var ad søñu ein Naudsynleg Spurning/ hefde hun añars fram komed af hreinu og einføllldu Hiarta.

Og skulum vier læra þad hier af hønum/ ad Grenslast epter/ huørniñ þad vier meigum faa ad lifa eitt Christelegt Lijferne/ og ødlast vm sijder Eilijfa Saluhialp/ ad Endudum vorum Hiervistar Døgum. Þui huad erum vier? Med riettu ad seigia/ erum vier ecke añad eñ riettir Pilagrimar/ og Reisumeñ/

 þessare

j þeſſare Verølldu/hafande øngvañ blyfanlegañ Samaſtad/Heb. 13. Þar fyrer er liggur oſſ ſtoor Naudſyn a/ ad vier þeinkum vm þad Epterkomanda/ og huørniñ þad vier kuñum ad verda jñtekner/ j þad Himneſka Hwſed/ huørt ad ecke er med Høndum giørt/helldur æfenlega Blyfande a Himnum/2. Cor. 5.

Nu vilium vier heyra/ huørniñ Herrañ vor Jeſus ſuarar þeſſum Skriftlærda Mañe/vppa ſijna Spurning. Vor Bleſſade Endurlauſnare viſſe vel/ ad hañ var komiñ til þeſſ/ad Freiſta hans/og þar fyrer ſuarar hañ hønum ecke edur predikar wt af Evangelio/ eins og Nicodemo/ helldur vyſar hønum til Løgmalſins/og ſeiger/ HVad Er SKrifad j Løgmalenu/ HVørniñ Les Þu? Þad er ſo myked/ ſem Herrañ Chriſtur hefde ſo ſagt og talad. Med þui þu ſpyr mig ad/huad þu ſkuler giøra/ſo ad þu eigneſt Eilyft Lyf/Þa taktu Logmaled fyrer þig/ þad getur ſagt þier þad/huad þu att ad giøra. Eñ huad giører þeſſe Skriftlærde? Hañ hefur ſtrax bwed Suar til/og hnyter ſamañ øllu Løgmalenu/j ſtuttu Male j tuent/og ſeiger. Þu ſkallt Elſka Drottiñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu/⁊ af allre Aund þiñe/og af øllum Mætte þijnum/ og af øllu Hugſkote þijnu/ og þiñ Naunga ſem ſialfañ þig. Þetta Andſuar lykade Herranum Chriſto vel/og ſeiger til hans. Þu ſuarader riett/Giør þad/og muntu lifa. Hier verdur oſſ nu ſyndt/og fyrer Siooner ſett/ ſo ſem j einum Speigle/ huørniñ Hiartalage vort eige ad vera vared/Fyrſt til Guds Og þar næſt til vors Naunga. Sem er/ ad vier eigum ad elſka Drottiñ Gud vorn. Fyrſt af øllu Hiarta/ Þar næſt af allre Saal/J. þridia læge/ af øllum vorum Mætte og Megne/ Og j fiorda læge af øllum vorum Krøftum. Slykrar Elſku krefur hier Drottiñ af oſſ/ ſo ſem framar ſkal kient verda/þañ ætlanda Suñudag epter Trinitatis. O/ Giæfe Gud/vier giætum hana og eirnin j Tie læted. Hier ad auke/wtheimter hñ og eirniñ af oſſ/Elſku til Naungans/ huørn hañ vill ad vier ſkulum elſka/eins ⁊ ſialfa oſſ/þad er ad ſkilia/Ad ſo Hiartanlega og Trwlega/ ſem vier elſkum oſſ ſialfa/og girnunſt vort eiged Gagn og Beſta/ſo eigum vier ad elſka vorn Broooder og Naunga/og hialpa hønum til rietta. Og hier vppa framſetur Herrañ Chriſtur eina Epterlyking/j huørre hañ liſtelega wtmalar/Dæme þuilikrar Elſku/ſo ſeigiande. Madur nockur foor fra Jeruſalem/ og ofañ til Jericho/og hraſade a medal Ræningia/huørier ed Ræntu hañ Klædum og lemſtrudu hañ Saarum/geingu ſijdañ j burt/og lietu hañ þar epter halfdaudañ liggia. Eñ ſo bar til/ ad Kieñemadur nockur for ofan þañ ſama Veg/og er hañ leit hañ/ gieck hañ fram hia hm̄. Slykt hid ſama Levitiñ/þa hañ kom nærre þeim ſtad/ og ſa hañ/ gieck hañ þar fram hia. Eñ Samverſkur Madur nockur foor vm fariñ Veg/kom þar nærre hønum/og ſem hañ ſa hañ/þa hrærdeſt hañ af Myſkun vid hañ/ og

gieck

gieck ad hønum/batt vm Saar hans/ hellte þar j Vidſmiøre og Vijne &
lagde hañ vppa ſiñ Eyk/og flutte til Herbergis/gaf & Giætur ad hønū.

Gydingar voru j þeirre Meiningu/Ad þar være eingiñ ſiñ Naunge/ vtañ
alleinaſta ſijner Viner/og Velgiørda Meñ/huørs vegna þeir elſkudu ſijna Vi-
ne/eñ høtudu Ovine/Matth. 5. Þar ſkyllde og ſo ecke finnaſt vor a medal/þe
tt ſem ſama hiellde. Eñ vier ſkulum vita/ad huør Madur er og þeirer vor
Naunge/ huørt hañ hefur forſkulldad gott edur jllt af oſſ/ ſie hañ ſkylldur
edur Vandalaus/ nalægur edur fiarlægur/ Rijkur edur Fatækur/ Siukur
edur Heilbrygdur/ſo ſem Herrañ Chriſtur oſſ liooſlega fyrer Siooner ſetur/
j þeſſare Agiætu Epterlijkingu.

Hier kañ einhuør ad ſeigia/a eg & ſo ad hallda þañ fyrer miñ Naunga/ſem
ecke er ſømu Trwarbragda og eg? A eg ad giøra hønum til Gooda/ og aumk-
aſt yfer hañ/ſo ſem hañ være riettchriſtiñ eins og eg? Ja/ſañarlega. Þui ſo
giørde þeſſe Samverſke Madur/ vid þañ ſem hraſade a medal Ræningiaña/
þo þeim bære ecke ſamañ j Lærdoomenum/edur Trwarbrøgdunum. Þar fyr-
er/So opt ſem vier kuñum ad ſia þeſſ hattar Mañeſkiu/ þa þeinkium ſo med
oſſ/Ad þo ſo ſie hun fare villt j ſiñe Trw/þa hefur Jeſus þo ſamt/ lided Pij-
nu og Dauda fyrer hana/ og þo eg hafe meira Vit a Gude mijnum/eñ hun/
þa er þad hans Naad ad þacka. Þar fyrer vil eg giøra ſo ſem þeſſe Samver-
ſke giørde/Eg vil hialpa heñe a Fætur/leggia vid heñar Saar/og giøra heñe til
gooda/& ſo myked ſem mier er møgulegt/bera mig ad færa hana a riettañ Sa-
luhialpareñar Veg aptur/ þui ſlijkt er Gude eitt þægelegt Verk/epter þui ſem
Poſtuliñ Jacob vottar/ 5. Cap. Ef ad nokur a medal ydar villeſt fra
Sañleikanum/og vmſnijr hønum einhuør/ ſa ſkal vita þad/ad huør ed Synd-
aranum vmſnijr/j fra Villu hans Vegar/hefur frelſad eina Aund fra Dauda
og mun nidurbyrgia Fiølda Syndaña. Vier eigum og ſo ad hialpa vorum
Naunga med Hiartanu/Eins og giørde þeſſe Samverſke Madur/huør ed au-
mkade ſig yfer þañ ſem falliñ var a medal Ræningiaña. Og ef vier gietum
hønum ecke añad til gooda giørt/þa Andvørpum þo ſamt hans vegna til Gu-
ds/og oſkum hønum af Hiarta/Heilſu og Heilbrygde/& allo añars goods/Ei-
ns og David giørde vid Ovine ſijna/ Pſalm. 35.

J þridia lage/ſo ſem þad/Ad þeſſe Samverſke Madur hialpade þeim vey-
ka med Hendeñe/j þui/ad hañ batt vm hans Saar/ Hellte þar j Vidſmiøre og
Vijne/og lagde hañ vppa ſitt Dyr/ og flutte til Herbergis. So ſkulum vier
& ecke helldur/læta oſſ þikia myked fyrer/ad koma nærre þeim veyku/& Volu-
du/ og giøra þeim til gooda/ med vorre Hende. Huxande vm þad ſem Jeſus
mun ſeigia til vor/a ſijdaſta Deige/ Huad þier giørdud einum af þeſſum mijn-
um minſtu Brædrum/þad giørdud þier mier/ Matth. 25.

J fiorda mata hialpade þeſſe Samverſke/ þeim Veyka og Hrima Mañe/
med Peninga Vtlage/þui hier ſtendur/Ad hañ hafe teked vpp tuo Peninga

 og feing-

og þeinged Nwsbwandanum/og sagdt til hans/ Naþ þu gæt a hønum/ og huad þu leggur meira wt/skal eg borga/nær eg kiem aptur. Sama eiguñ vier ad giøra/ Vær eigum ad vera villuger ad hialpa þeim Fatæka/ aþ þui Gotse/ sem Gud heþur oss lænad/suo sem ad giørde Job/huør ed seiger/ Eg var Auga þess Blinda/og Footur þess Hallta/og Fader þess Fatæka/ Job 29. C. Item/seiger Postuliñ Johañes/1. Pistle.3. Cap. Eþ nockur heþur Audæþe þessarar Veralldar/og sier siñ Brodur Naud lyda/ og lykur sitt Hiarta til þyrer hønum/ Huørniñ blyþur Guds Kiærleike hia hønum? Lætum oss nu þar þyrer yþer alla Hlute fram/setia vora Trw/ og Traust/vppa vorn Endurlausnara Jesum Christum/ og bevijsa so sijdañ vora Trw/ med sønum Kiærleika til Guds og Naungans/ so munum vier ad Endalokunum/ þaa og ødlast þad Eilyþa Lyfed/ Huar til oss hialpe Gud/ aþ siñe Nad/ þyrer Forþienustu og Medalgaungu syns kiæra Sonar Jesu Christi/ Huørium ad sie Loþ og Dyrd/Heidur og Vegsemd/þra Eilyþd til Eilyþdar/ Amen.

# Fiortanda Suñudag epter Trinitatis.

## Evangelium/Luc. 17. Cap.



Þañ Tijma. Og þad skiede so/ þa ed Jesus gieck til Jerusalem/ad hañ þerdadest j Giegnum midia Samariam/og Galilæam. Eñ sem hañ gieck jñ j nockurt Kauptwn/mættu honum tiju Lijkþrær Meñ/ huørier ed stoodu længt þra/Nooþu vpp sijnar Radder/og sogdu. Jesu goode Meystare/Myskuna þu oss. Eñ sem hañ leit þa/sagde hañ til þeirra/Fare þier/ og sijned ydur Kieñemoñunum. Og þad skiede so/þa þeir geingu þadañ/ad þeir vrdu hreiner. Eñ eirn wt aþ þeim/nær hañ sa þad/ad hañ var hreiñ vordiñ/snere hañ aptur/Loþande Gud med hærre Raust/þiell fram a sijna Asionu þyrer Fætur Jesu/giørande honum Packer/og þesse var Samverskur. Eñ Jesus suarade og sagde. Nuørt voru ecke tiju Nreinsader? Eñ huar eru hiner niju? Fanst eingiñ añar/sa sem aptur snere/og gæþe Gude Dyrdena/ nema þesse Vtlendingur? Og hañ sagde til hans. Statt vpp/og þar hiedañ/þuiad þijn Trw giørde þig Nialplegañ.

# Exordium.

I Añare Book Konganña/5. Cap. Lesum vier vm Naaman/Strijds höfdingia Kongsins af Syrlande/Ad hñ hafe epter Tilsögn/ og Befalningu/Spamañsins Eliseæi/þuegied sig sïösiñum j Añe Jordan/ Og sem hañ formerkte/ad hñ var hreiñ vordiñ af siñe Lÿkþrä/ þa hafe hañ snwed aptur og giört Guds Mañe Packer fyrer syna Hreinsun/og þad sama/ ecke einungis med Ordunum/Helldur þa hafe hañ og suo þar ad auke boded hönü Stoorar Skeinkingar/z lofad ad hañ skyllde ecke þadann j fra/ fæta Foorner añarlegum Gudum/ helldur Drottne.

Hier j þessu heilaga Evangelio/ verdur og eirniñ talad vm tÿu Lÿkþrä edur Spillta Meñ/ Huöria Herrañ Christur læknade/ Eñ þeir voru ecke aller so þacklater sem Naaman var/þui hier snÿr eingenn aptur til ad þacka synü Heilsugiafara/vtan alleinasta eirn Samverskur Madur/ hañ kañast vid strax sem hañ formerker/ad hañ var hreiñ vorden/huad myked gott hañ eige ad þacka Herranum Christo/ Og veit ecke huörsu audmiukañ hñ ä ad tiä sig vid hñ aptur ä moot/ þui Gudspiallamaduriñ seiger/Ad hañ hafe snwed aptur/ Lof ad Gud med hærre Raust/og falled fram ä syna Asioonu/og þackad hönum. Þetta er eitt Merkelegt Epterdæme/ huar epter vier ættum aller ad breyta/ þuiad huör Packlætenu Offrar/hañ heidrar mig/og þad er Veguriñ/ad eg sÿne hönum mitt Hialpræde/seiger Ande Drottins/fyrer Muñ Davids/Ps. 50.

Vier vilium äñ leingra Jñgangs/vÿkia til Gudspiallsins/ og oss þar wt af taka þriär Smägreiner/ad skoda og yfervega ad þessu siñe.

Hin fyrsta skal vera vm þessa tÿu Lÿkþrä Meñ/ sem komu ä Veg fyrer Herrañ Christum.

Añur vm þa myklu Nad og Hialp/sem hañ audsynde þeim/j þui/ad hreinsa þa af siñe Lÿkþrä.

Og hid þridia vm Packlætid/sem sa eine Samverske færde hönum aptur ä moot/med þui fleyra/sem hier ad hnÿgur/ og vier kuñum oss til Lærdooms/ Huggunar og Amiñingar ad taka. Nu/Sa mykle Lækner og Meystare til ad hialpa/vor Drottiñ Jesus Christus/hañ kome til vor/ med siñe Nad/ og sende oss Styrk þess Gooda Heilaga Anda/ so vier mættü hier wt af/ nockud Gott læra/ og oss til Nytsemdar fæta/Amen.

# Fyrre Greiniñ.

Fiorar Kringumstædur eru oss vel athugande j þessu Greinarkorneñu/ og er hin fyrsta vm Tymañ/ä huöriñ Herrañ Christur hafe giört þetta mykla Dasemdarverk/sem var þa hañ giörde syna sÿdustu Reysu til Jerusalem/ til ad lÿda Kuöl og Pynu/fyrer Mañkynsins Synder/so sem siä m.a af epterfylgiande 18. Capitula/ A þessare siñe sÿdustu Reysu/skrifa þeir heilögu Gudspiallameñ/Ad vor Blessade Endurlausnare hafe giört mörg öñur Ypparleg Dasemdarverk. A medal huörra voru þesse/ Ad hañ giörde þañ Blinda hia Jericho Heilskygnañ/ Luc. 18. Vmsnere Zacheo/ Luc. 19. Formællte þui

Avaxtarlausa Fykiutrie/so ad þad visnade/Matth. 21. Og uppvakte Laz-
arum af Dauda/ Joh. 11. Huar med hann villde Openbera sijna Dyrd/ og
audsijna/ad hann være ecke sliettur/og einfalldur Madur/helldur sannur og Ein-
gietinn Sonur Lifanda Guds/þui soddann Teikn og Dasemdarverk kann einginn
ad giøra/nema Gud sie med hønum/so sem þar stendur hia Joh. 3. Cap.

Þar næst er oss athugande/huørt vered hafe Plassed edur Staduriñ/sem He-
rrann Christur giørde þetta sitt Dasemdarverk j /a þessum tyu Lykþrau Møn-
um. Gudspiallamaduriñ seiger/ Ad þad hafe vered eitt Þorp /nærre Samar-
ia. Undur ma þad þykia/ad Herrann Christur skyllde vera so Lytelatur/
ad nalægia sig og giøra til gooda þeim Samverskum/ þar þeir voru ecke ad
eins vonder Skalkar/og hielldu stundum med Gydingum/stundum med Heid-
ingium/ Helldur þa høfdu þeir adur fyrre/ forsmad hann Blessadann/so þeir
villdu ecke Herbergia hann/og lia hønum Hws/so sem lioost er af/9. C. Gud-
spiallamannsins Luce. Enn huørninn sem þessu var vared/þa var hann þo samt so
Giæskuryktur/og Nadarfullur/ ad hann giørde sier Reisu uppa nytt til þeirra/
Auglysande þar med/ad hann villde ecke þeirra Salarskada/ og Fordiørfun/
Helldur ad þeir mætto Saluholpner verda/ og komast til Sannleiksins Vidur-
kienningar/1. Tim. 2.

J þridia lage/verdur hier z eirnin aminst/huad marger ad þesser Lykþrau
Menn hafe vered/sem er/ecke tueir eda þryr/ helldur heill Hoopur. Huar af
rada ma/Ad þesse hrædelege Siukdoomur/hafe vered miøg Almennelegur hia
Gydingum/þar j einu litlu Plasskorne fundust tyu/sem af þeim Siukdoome
voru spillter/ z þad ecke alleinasta/ helldur vottar z heiløg Ritning/ad bæde
Hwsenn/og so Klædnadurinn/ hafe vered af þessare Sooott fordiarfadur/ sem
lesa ma/Levit. B. 13. og 14. Cap.

Hier kann einhuør ad spyria/Huad Gude skule hafa geinged til þess/ad legg-
ia þennann hrædelega Krankleika framar uppa sitt Folk/enn adra? Enn vier skul-
um vita/ad Gud hafde þar vissann Tilgang til/sem er/Ad hann þar med Aumin-
te þad/a Synder sijnar og Yfertrodslur/ huøriar Herrann hefur ætyd suo vel
straffad/a sijnum Vinum sem Ovinum.

J fiorda máta verdur hier gieted sialfs Krankleikans/sem la a þessum Au-
mu Mønnum/sem var Lykþraiñ/huørt Soottarferle vier køllum ødru Naf-
ne Spitelsku. Nu so sem þad/Ad Lykþrainn er ein Vidurstyggeleg og Ban-
vænn Soott/sem Manneskiunne er hoorud og uppaløgd/vegna Forþéktunar Gu-
ds Løgmals/so sem þar stendur/ Deut. B. 28. Drottinn mun sla þig med E-
gyptskum Kylum/ med Bakhlutans Sarendum/med Vose og Klada/suo þu
kunner ecke ad Læknast. Item stendur j sama Cap. Drottinn mun sla þig med
jllum Graptarsarum/A Knien og Footleggina/so þu munt ecke Græddur ve-
rda/fra Iliun og allt uppá Huirfel.

So hafa þeir gømlu Christnennar Lærefedur/lykt og samiafnad þessum hræ-
delega Suikdoome/ vid Syndena/ med þui lyka/ad hann er suo sem øll ønnur
Krank

Kranckdæme/sem Mañeskiñe vppafalla/eckert añad eñ Laun og Straff Syndarenar. Og skulum vier læra þad hier. Fyrst so sem þad/ Ad Spitelskanñ edur Lykþrætiñ er eirn tilvilliande Hlutur/eñ ecke j Natturiñe skapadur/ So skulum vier og so vita/ ad Syndeñ er ecke helldur skapadur Hlutur af Gude/ so sem sumer Villumeñ hafa hallded. Þar næst/so sem þad/ad Spitelskañ kveikest/og kiemur a Mañeskiuna/af Ohoofsemi/Ofæte og Ofdryckiu/ sem og Ofnnytelle Kostagyrnd/ og ødru þess hattar. Eins skulum vier vita/ ad Syndiñ er jñkomiñ j Hemiñ/vegna Ohlydne vorra fyrstu Forelldra/ Adams z Evu/ þar þau a moote Guds Vilia og Forbode/ atu af þui bañada Trie/ Gen. 3. Cap.

J þridia lage/so sm̃ þad/ Ad Spitelsker Forelldrar/Gieta optast nær Spitelsk Børn af sier/ So høfum vier og eirniñ/teked Syndena j Arf/epter vora fyrstu Forelldra. Þui so stendur þar skrifad j Sköpunar Book. 5. Ad Adam hafe Gieted Son epter siñe Mynd og Lykingu. Eirniñ vottar David so/Psalm. 51. Sia þu/Vt af Syndsamlegu Sæde er eg Gietiñ/og j Syndiñe Gat mig mijn Mooder.

J fiorda Mæta/lyka sem þad/ad Spitelskañ Fordiarfar ecke ad eins eirn Lim Lykamans/helldur allañ Lykamañ/Jæ/hvørn og eirn Blooddropa sem j Mañeskiuñe er. Eins spiller Syndiñ ecke alleinasta eirn Part Lykamans/helldur fordiarfar hun allañ Mañiñ/ a Salu z Lykama/z øllū Kræptū/bædehid jñra og ytra/so vier meigum vel seigia med hinum H. David/af Psal. 38 Ad þar sie eingiñ Heilbrygde j voru Hollde.

J fimtu Grein stendur hier/ Ad aller þesser tyu Meñ/hafe verid Lykþræter/sem voru nyu Gydingar/og eirn Samverskur. Eins lyka vottar Heilög Ritning/ad aller Meñ sie Synduger/z þar sie eingiñ sem gott giøre/ z ecke eirn.

J siøtta Mata skulum vier vita/ Ad Spitelskañ er soddañ eirn skadlegur Siukdoomur/sem eirn kañ snarlega ad fa af ødrum. Eins er þui og vared fyrer Syndeñe/og þeim sem j Syndsamlegum Athøfnum liggia/ ad sie suo ad Meñ hafe Vmgeingne med þeim/þa kuña þeir liettelega af þeim ad saurgast/Þuiad jllt Samtal spiller goodum Sidum/1. Cor. 15. Og hver hañ teckur a Tiøruñe/hañ klijner sig a heñe/ seiger Syrach. 13. Cap.

J siøunda Mata/Lyka sem þad/ Ad þeir Spitelsku voru vtsetter adur fordū/ af Borgum/Þorpum/Kauptwnum/sem og eirniñ Herbudum/ Hvørs vegna og so/Lykþræiñ hefur sitt Nafn j Þysku Male/af Vtsetningu. Eins lyka hefur Syndiñ vtelukt vora fyrstu Forelldra fra Paradys/ Og vtelykur eñ nu j Dag/alla Jdranarlausa Syndara/vegna siñar Andlegrar Spitelsku/fra Guds Huse/og Samfielagskap Heilagra.

J attunda mata/so sem þ/ Ad þeir Lykþræau adur fordū/ hlutu ad ganga Berhøfdader/so þeirra Siukdomur mætte hvøriū Mañe Openber vera. So er þui og so vared fyrer oss. Vier hlíootum ad vidurkieña Blygdun þa/og Banga/sem oss er tilfalliñ/ sem er/ Ad vor Korona og Høfudprydc/þad eru þær

 Nadar

Nadar Gafur/sem oss voru veittar/ med huørium vier vorum prydder fyrer Falled/ þær høfum vier mist/og þeim fyrerfared/ vegna Syndarenar.

J nyunda mata/vrdu þeir sem Spitelsker voru/ ad ganga j sundur rifnū Klædum. Eins lyka høfum vier/vegna Syndaña/sundurrifed og slited þui Dyrmæta Gyllene Klæde Sakleysesins/og Riettlætesins/ so vier hlíootum nu ad ganga j illre Tøtraflyk eins Betlara/edur Hwsgangs Mans.

J Tyunda mata/so sem þad/Ad þeir hiner Spitelsku/ hafa eitt Banvænañ/og jlla Luktande Anda. So Luktar nu ecke vor Ande leingur/ so sem sa sæte Ande Guds/ sem hañ jñblies j Mañiñ/ helldur lucktar hañ af fwlum og Andstyggelegū Syndum.

J Ellefta mata/Lyka so sem þad/ad Lykþraañ giører Mañeskiuna hæsa ⁊ Illaroomande Rødd. So spiller og Syndeñ vorre Tungu/og vorum Muñe so vier kuñum ecke ad vpphefia klara Raust til Guds/ eda hañ med Heilagre Røddu ad Dyrka/akalla og vidurkieña.

J Tolfta mata/vpptendrar Spitelskañ j þeim Lykþrau/saran og þuyngunarsamañ Þorsta/vegna þess Ofurhita/sem þeir hafa hid jnra ad bera. J sama mata/ Þegar Syndiñ vppvaknar/þa hreifer /sier Angist ⁊ Neyd/bytur og nagar/plagar og þuyngar Hiartad/ og Salena/so ad aller Kraptar vppþorna/so sem añad Skurn/ sem David yfer klagar/Psalm. 22.

J sydasta Mata/so sem þad/ ad Lykþraañ er Olæknanleg/ so myked sem Mañaña Hialp vidvykur/og kañ ecke ad burtrymast/fyrer vtañ sierlega Guds Adstod. So kañ og megnar eingiñ/ vtañ alleina Christur/ vor beste og Trwaste Lækniameistare/ ad hialpa nockrum Mañe fra Syndiñe/þui hañ er alleina sa sem vorar Synder afmæer/so sem añad Sky/og hreinsar oss og þuær af þeim/fyrer sitt Blood/1. Joh. 1

Hier af siaum vier nu klarlega/huad Hrædelegur og Vidurstyggelegur Hlutur ad Syndiñ sie. Þar fyrer skulum vier aminter og vppvakter vera/af Dæme þessara Spitelsku Maña/huørsu þad/oss ber ad flya til Christum/ og leita oss Hialpar ⁊ Adstodar hia høñū/a mote þeirre andlegu Spitelsku/Syndiñe.

Fyrst stendur hier vm þa tyu Lykþrau/ Ad þeir hafe geinged wt/a moote Herranum Christo/þa þeir villdu/ad hañ skyllde giøra sig Heilbrygda. Sama hliootum vier og so ad giøra/viliū vier Heilbrygder verda af vorre andlegre Lykþra/Vier hliootum ad ganga wt af Soottarstofu vorre/þad er/Ad hata og yfergiefa þa Ohreinu/⁊ syndugu Verølld/eñ lata oss fundna verda a þeim Vege/huar vm Christur geingur/ so sem ad giørde Zacheus Tollheimtumadur/og adrer fleyre.

J añañ mata stendur hier j Gudspiallenu/ AD ÞEir HAfe Staded Langt Fra. Ordsøkiñ var su/ Ad þeir vissu ad þeir voru Spitelsker/ og þordu þui ecke ad koma j bland añara Heilbrygdra Maña/Vidurkieñande þar med siñ Overdugleika/og Ohreinleika/ So ber oss og eirniñ ad yfervega vora Andlega Spitelsku/og huad langt vier erum þ Syndena fraskilder fra Gude.

J þridia

J þridia Mata seiger Gudspiallamadurinñ/ Ad þesser tyu Lyþþraaer Meñ/ hafe ecke þeigiande staded/helldr vpphafed syna Raust/ Kieñande oss þar med/ ad hroopa og kalla til Guds/ j vorum æliggiande Naudsynium/ so framt sem vier vilium af hønum fa Lækning/ og Græðslu/ vorra andlegra Saalarmeina.

J fiorda lage/ þeckia og medkieña þesser tyu Lyþþraaer Meñ/ Herrañ Christum/ ecke alleinasta fyrer siñ Meystara/ huør ed sitt Lykamlegt Krænkdæme kuñe ad lækna/ Helldur þeckia þeir hañ og eirniñ fyrer Jesum/ þad er/ Hialpara allrar Verålldar/ þui suo seigia þeir/ JEsu Goode MEystare/ Hialpa þv Oss. Vier skulum og eirniñ j sama mæta/ þeckia hañ og vidurkieña/ fyrer vorn Skapara og Meystara/ huør ed syna Skiepnu vel þecker/ og af huøriu Efne hañ hefur oss giørt/ Sañarlega/ hañ mun so sem eiñ Goodur Meystare/ ælyta Veykleika vorn/ og Eymd/ so sem hañ æleit þessa tyu Spitelsku Meñ/ Þui vier høfum ecke þañ Byskup/ seiger Postuliñ/ sem ei kañ Samþyning ad hafa med vorum Breyskleika/ Helldur þañ sem Freistadur er æ allañ hatt/ lyka so sem vier/ þo æn Syndar/ Heb. 5. Og skal þad suo stuttlega sagt vera vm þad fyrsta.

# Aññur Greiniñ.

EPterfylger þad añad Greinarkornid med einu Orde/ Sem hlioodar vm þa myklu Naad/ sem Herrañ Christur audsynde þessum tyu Lyþþraau Møñum/ Huar vm so stendur j Textanum. Og þegar hañ (þad er Drottiñ vor Jesus) leit þa/ sagde hañ til þeirra. Fared og syned ydur Kieñemøñunum/ og þad skiede þa þeir geingu j burt/ ad þeir vrdu hreiner.

Tuo sierdeilis Velgiørninga/ audsyner vor liufe Endurlausnare Herrañ Christur hier/ þessum Aumu Møñum/ Hiñ fyrre er sa/ Ad þo Hundradsiñum hañ Blessadur visse vel/ og Sæe/ ad þesser Meñ være Spillter og Veyker ordner/ þa snyr hañ samt ecke Bakenu vid þeim/ helldur snyr hañ til þeirra synu Milldu Auglite/ og ælytur þa Naadarsamlega. Eitt byriar oss ad giøra/ Ad þo so sie/ ad vor Samchristiñ Naunge/ meige vera þiadur og Þuyngadur/ j eirn edur añañ mæta/ huørt þad er helldur af Lykamlegu Krænkdæme/ edur ødru þui sem Gud hefur hønu vppa lagt/ þa eigu vier ecke ad hafa Andstygd æ hønum þar fyrer/ vppa þad/ vier epter Syrachs Ordum/ Aukum ecke Sorgfullu Hiarta meire Sorg. Og eñ aptur seiger hañ/ Kued ecke nei vid Bæn hins auma/ og snw ecke Asionu þiñe fra þeim Fatæka/ nie þynum Augum fra Naudþurfande Mañe/ so hañ klage ecke yfer þier/ þuiad sa sem hañ skapad hefur/ heyrer hans Bæn/ nær hañ med hryggru Hiarta klagar yfer þier/ Syr. 4.

Añar Velgiørningur/ edur Naadarverk/ sem vor Sætaste Endurlausnare/ Herrañ Jesus Christus/ audsynde þessum tyu Lyþþraau Møñum/ var þesse/ Ad hañ virdte þa Vidurmælis/ Hañ gaf þeim ecke helldur nein Afsuør/ eins og hañ giørde Canversku Kuiñuñe/ Matth. 15. Helldur talar hañ Huggunarsamlegu

legum Ordū til þeirra/so seigiande/Fared Og Syned ydur Kieñemøñunum.
Hefdu nu þesser Spitelsker Meñ vered eins siñader/ & Naaman sa Syrlendske
var/þa hefdu þeir kuñad so ad þeinka/og seigia. Herra/Huad þurfum vier
ad fara til Kieñemañaña/ & syna oss þeim/ vier høfū giørt þad ædur/og hafa
þeir epter Løgmælenu Aliktad oss Spitelska ad vera. Og hid sama mun þeir
ra Andsuar vera eñ nu/þo vier þa finnum. Nei/soddañ Ord læta þeir ecke
af sier heyra/helldur fara þeir strax an Dualar af stad/og giøra so sem Her
rañ Lyfsins befalar þeim. Þessa Hlydne ættum vier af þeim ad læra/ og sei
gia so sem Israels Folk sagde fordum/Allt þad sem Drottiñ hefur sagt/þad
vilium vier giøra/ Exo.19. Þuiad Hlydne er betre eñ Offur/og Gaumgæfi
ne betre eñ Feitleike Hrwtaña/ þui Ohlydne er Galldra Glæpur/ og ad vera
Þuerbrotiñ er Skurgoda Bloot og Afgudadyrkan/epter þui sem þar stend
ur/j fyrre Sam. 15. Cap.

Framar meir kañ einhuør ad spyria/ Huør vered hafe hiñ sierlegasta Ord
søk til þess/ ad Herrañ Christur skyllde vysa þessum Spitelsku Mønnum aptur
til Prestaña? Vier skulū vita( Elskuleg Guds Børn )ad vor Blessade Endur
urlausnare/giørde þad sierdeilis og einkum þess vegna/Ad hañ þar med Amin
te eirn og sierhuørn/ad þeir hefde jafnañ j Tilbærelegu Ackte/ Æru og Vird
ingu/þad heilaga Ministerium/edur þa Kieñemañlegu Stiett/og greiddu syn
um Sælusorgurū/ þær Skylldur sem þeim ber/epter þui sem Syrach seiger/
7. Cap. siñar Bookar. Ottast þu Drottiñ/og heydra Prestana/ þui suo sem
þad/ad Prestunum j þui Gamla Testamentenu bar jafnañ/ad hafa nockud af
sierhuøriu Offre/so sem lesa mæ/Exo.B.29. Cap. So vill Herrañ Christur
og so/ ad Kieñemøñunum eñ nu a þessum Døgum/ sieu greiddar Good vilius
lega syñar Tiunder/so ad þeir sem Alltarenu þiona/hafe Not af Alltarenu
1.Cor.9. Eñ huørt munde þa Gagned edur Avøxturiñ vera/ sem þesser tyu
Lykþrau Meñ høfdu þar af/ad þeir hlyddu Jesu Befalningu/og geingu str
ax j burtu ad syna sig Kieñemøñunum? Þad vottar Gudspiallamaduriñ hier/
seigiande. Og þad skiede so/þa þeir geingu þadañ/ad þeir vrdu hrein
er. Vilier þu nu og so( Miñ Brooder og Syster )fæ þad og ødlast af Drot
tne/ad þu meiger verda hreirn af þiñe Andlegre Lykþra/ þa giør þu so sem
þesser tyu Lykþrau Meñ giørdu/Trw þu a Jesum/ og vert Hlydugur hans
Ordum og Tilsøgn/ So mattu vera Ofadur þar vppa/ Ad huad hellst sem
þu oskar af hønum/þad fær þu visselega/so framt sem þad kañ ad þiena þier
til Saluhialpar.

## Þridia Greiniñ.

NV vilium vier hid stuttlegasta/ skoda og yfervega/ j þessu þridia Greinar
kornenu/Packlæted edur Lofgiørdena/sem sa eine Samverske Madur fær
de Herranum Christo aptur/þa hañ fañ þad/ ad hañ var Heilbrygdur ordiñ/
Vier

Hier vm hlioodar so Texteñ. Eñ eirn wt af þeim/ nær hañ sa þad/ ad hañ var hreirn ordiñ/ snere hañ aptur/ Lofade Gud med hærre Raust/ fiell fram̄ a syna Asioonu/fyrer Fætur Jesu/gierande hønum Þacker/ og þesse var Samverskur. Og verdur oss hier kient/og so sem j Speigle fyrer Sioner sett/huørniñ þad/ vier epter Dæme þessa Samverska Mans/ eigum Gude vorum ad þacka/fyrer alla syna Nadar Velgiørninga/sem hann Daglega Dags audsyner oss og veiter. Fyrst eigum vier/ ad þacka hønum af øllu Hiarta/seigiande med hinum heilaga David/ af Psal. 86. Eg þacka þier Drottiñ Gud miñ/wt af øllu Hiarta. Hid sama giørde og so Jomfrw Maria j synum Lofsaung so seigiande. Myn Aund myklar Drottiñ/og miñ Ande Gledst j Gude Heilsugiafara mynū. Þar næst eigum vier ad þacka Gude vorum med Muñenū/ so sem ad giørde þesse Samverske Madur/huør med hærre Raust lofade Gud. J þridia lage eigum vier hønum ad þacka/med wt vortis Hegduneñ/ Þad er/ Vier eigum ad falla fram̄ fyrer hañ/ ecke einungis a Sælareñar/helldur z so Lykamans Knie. Ja/Gude verda so af oss audmiukar Þacker giørdar/þa vier med vorre Raust/syngium hønum Lof/edur Spiluū fyrer hønum/vppa Velklyngiande Hlioodfære/ so sem ad giørde hiñ heilage David/ Og til þuilykrar Þacklætisgiørdar/ skal oss koma fyrst Befalning sialfs Lifanda Guds/huør ed so seiger/ Psalm. 50 Offred Gude Þackargiørd/ og giallded hønum ydar Heit/Og 1. Tess. 5. Cap. stendur so/Vered þacklater j øllum Hlutum/ þui þad er Guds Vilie j Christo Jesu/til ydar. Þar næst skal oss vppvekia til þess/ ad vera Gude vorum Þacklater/ Lofleg Dæme þeirra Heiløgu Guds Maña/huørier ed jafnañ færdu Gude Þacker/ þa hann giørde þeim nockud til Gooda. Sa Riettlætesins Predikare Noe/bygde Drottne eitt Alltare til Lofgiørdar/og Þacklætis Miñingar/þegar hañ liet Flooded þuerra/ sem lesa ma/ Gen. B 8. Cap. Eleasar Abrahams Þienare/ þackade og eirniñ Gude/fyrer Farsæla Reisu/og Good Erendislok/so seigiande. Lofadur sie Gud Drottiñ/myns Herra Abrahams/ sem ecke hefur yfergiefed syna Myskun og Sañleika vid miñ Herra/Gen. 24. Seiger ecke Forfaderiñ Jacob so/ j Skøpunar Bok. 25. Cap. Til alls syns Hws og Heimulis Folks? Lætum oss fara til Bethel/so eg meige byggia þeim Gude þar eitt Alltare/sem Bænheyrde mig/ j miñe Motgangs Tyd. Huad vilium vier seigia vm hiñ Heilaga David? Huad opt þackar hañ Gude j synum Psalmum/ fyrer Nad syna og Myskunseme/sem hañ audsynde hønum? Og þuilykt Dæme Heilagra Maña/fiñast nær þui Otelianlega mørg/j Heilagre Ritningu/ huør øll hier er oflængt vpp ad telia. Þad þridia/sem oss skal æfysa/og vpphuetia/ til Þacklætis og Lofgiørdar vid Lifanda Gud/ þa eru þeir storu Velgiørningar/sem vær af hans Hende þyggium og medtøkum Daglega Dags. Hefur hñ ecke myndad oss j Moodurlyfe/og leidt oss wt þadañ/a vissum og æsettum tyma/Psalm. 22. Er hañ ecke sa hiñ same/sem giefur oss Lyfed? Job. 10.

 Ja/

Jæ/ hañ sem vpplykur siñe Milldre Hende/ og sedur allar Lifande Skiepnur med siñe Blessan/Psalm.145. Eñ eirn er þo sa Velgiørningur sem yfergnæf er og Coronar alla adra/ huørn vier eigum og Gude ad þacka/alla vora Lijfs daga/sem er þesse/ Ad hñ hefur fyrer siñ Elskulegañ Son/frelsad oss af Rijke valldre Myrkrañа/Col.1. Og læted sitt Ord Rijkuglega byggia vor a medal j allre Visku/so vier kuñum ad læra þad sem oss er Nytsamlegt/til vorrar Sæluhialpar/Esa.48. J einu Orde ad seigia/Velgiørningar Drottins/sem hañ audsyner oss/eru so marger og storer/ad osser Omøgulegt þa vpp ad telia/auk helldur þa ad þacka/& æsañast læta sem verdugt er.

Pad fiorda sem oss skal koma til þess/ ad þacka Gude fyrer allt þad gott/ sem hañ veiter oss/ þa er þetta/ Ad ef vier erum hønum þacklater/ þa er hañ Blessadur jafnañ Reidubweñ ad giøra oss eñ meira til gooda/ þar fyrer seiger Lærefaderiñ Crisostomus so/Gratiarum actio/est ad plus dandum/invitatio/ Pad er ad skilia/ huør sa sem Gude er þacklætur fyrer medtekna Velgiørninga/Hañ kiemur hønum til ad vpplika ad nyu/ Hirdslu siña Andæfa/ og vt byta oss fadañ/þad sem oss er til Tymanlegrar og Eilyfrar Velferdar Naudsynlegt. Par fuert a moote er Ofacklætid eirn skiemelegur Løstur/sem bæde Gude og Møñum er Andstygd ad/ Huørs vegna þeim Ofacklætu verdur j Heilagre Ritningu hootad hrædelegu Hefndar straffe/so sem lesa mæ/Ordsk. B.17.Cap. þar so stendur. Huør hañ gott med jllu Launar/ af þess Hwse mun ecke jllt liña.

Framveigis talar Herrañ Christur so/ j Nidurlage þessa vors Gudspiallз. Nuort voru ecke tyu hreinsader/eñ huar eru hiner nyu? Fañst einginñ añar/ sa sem aptur snere/og giæfe Gude Dyrdena/nema þesse Vtlendingur?

Hier af høfum vier þad ad læra/ Ad so sem Herrañ Christur munde Tølu þeirra Mañа/sem hañ Læknade/so man hañ og veit eñ nu/ Tølu þeirra/ sem hañ giører til Gooda/J huøriu Lande/j huørre Borg/ Huørre Samkunde & huøriu Hwse/& giæter ad/huad marger hm eru þacklæter/huad marger ofacklæter/& huad marger stadfaster sieu/& huad marger ostadfaster/& mūn vm syder hallda Reikning & Eftergrenslast/& bryxla þm ostødugu/& Ofacklætu/& tilseigia þm sitt Straff. Eñ þar fuert a mote/læta þa sim stødugær hafa staded/& þacklæter vered/þæ eina gledesama Aflausn/eins & þesse Samverske Madr fieck.

Par næst lærum vier hier/af Dæme þeirra nyu Ofacklætu Gydinga/ sem ecke villdu snwa aptur/og giefa Gude Dyrdena/ Ad Kross og Mootgangur er oss længtum þarflegre/eñ gooder Dagar. Puiad so lenge sem þesser nyu voru fiæder/og vnderokader Siukdomenum/ þa høfdu þeir eina sterka og stødvga Trw/Eñ sem þeir voru Heilbrygder vordner/fiellu þeir fra. Par fyrer hefde þeim betra vered/ad þeir hefde vered Spitelsker allt til Dauda Dagа/ og verda Sæluholpner/ Eñ ad þæ aptur syna Heilbrygde/ og lyda Tøpun a Sælu siñe/epter þui sem Christur seiger/hia Matth.18. Betra er þier jñ ad ganga til Lijfsins/Halltur og Handarvane/Eñ þad þu hafer tvær Hendur og tuær

tuær Fætur/og verder j Eilijfañ Elld kastadur. Þar fyrer skulum vier sem Christner erum/ ecke Oska oss ad meiga lifa/og wtenda alla vora Daga/ fyrer vtan Kross og Motgang/ þui añars kyñe þad so ad skie/ad vier gleymdum Gude/ lifdum Athugalaust/forsoomudum Bænrækner ad vera/eda giøra þad/sem Drottne vorum þocknadest. Þetta hefur David Guds Madur vel athugad/ Og þess vegna kiemst hañ so ad Orde/j Psalm.119. seigiande. Fyrer goodu vard mier þ Drottiñ/ad þu Lijtelæckader mig/ so ad eg lærde þijn Riettinde.

J þridia og sijdasta mata/ lærum vier þad hier/ af Dæme þessara nyu Ofbacklætu Gydinga/ Ad þad er ecke noog/ad byria vel og Gudrækelega Christendoom siñ/ef hønum er ecke framfylgt/ Þui huad stodade þad/þo þesser Meñ kiæme til Christum/og feinge Lækning hia hønum/ þar þeir skømu þar epter/ fiellu fra hønum aptur? Gud ælijtur myklu helldur/ huørniñ þad ein Mañeskia endar sitt Hlaup/helldur eñ/huørniñ hun þad byriar. Postuliñ Pall byriade sitt Hlaup j fyrstuñe jlla/eñ endade þad þo sijdar vel. Judas byriade vel/ og endade jlla/ þar fyrer feingu þeir og suo Olijk Laun/ Og hier fyrer æminner Ande Guds alla oss/fyrer Muñ Postulans Johañis j Openber. Bok. 2. Cap. suo seigiande/ Esto Fidelis usq ve ad mortem/ Vertu trwr allt til Dauda/ og mun eg giefa þier Lijfsins Coronu. Huøria ad fa og ødlast/ad endudum þessum vorum Hiervistar døgum/Oss veite Gud Fader af Nad siñe/fyrer Forþienustu og Medalgøngu sijns elskulega Sonar Jesu Christi/ Huørium med Fødurnum og Heiløgum Anda sie Lof/Dyrd z Heidur/ Nu hiedañ j fra/og til Eilijfdar/ A M E N.

# Fimtanda Suñudag epter Trinitatis.

## Evangelium/ Matth. 6. Cap.



þañ Tijma. Jesus sagde til siña Læresueina. Eingeñ Kañ tueimur Herrum j señ ad þiona/ Añadhuert hann afræker þañ eina/og elskar hiñ añañ/eda hañ þijdest þañ eina/og fyrerlætur hiñ añañ. Eige giete þier Gude þionad z þeim Ranglætis Mamona. Þar fyrer seige eg ydur/Vered eige Hugsiuker fyrer ydru Lijfe/huad þier skulud eta og drecka/og eige helldur fyrer ydrum Lijkama/huoriu þier skulud Klædast/Eda er ecke Lijfed meira eñ Fædslañ/ og Lijkamiñ meira eñ Klædnaduriñ. Lijted a Fugla Himens/þeir ed huorke sa nie Vppskiera/og ecke helldur safna þeir j Kornhledu/ og sa hiñ Himneske Faderiñ hañ fæder þa. Eda erud þier ecke myklu framar eñ þeir?

Eñ huør ydar giefur med ſiñe Ahyggiu/auked eitnre Alen vid ſijna Lein-gd? Og huar til eru þier Nugſiuker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akurſins Liliugrøſum/huørniñ þau vaxa/þau viña ecke nie ſpiña/ Enn eg ſeige ydur/ þad Salomon j allre ſiñe Dyrd/var eige ſuo ſkrijddur ſem eitt aff þeim. Og eff Gud prijdet ſo Graſed/þad ſem j Dag er a Akre/eñ a Morgun verdur j Offn kaſtad/ ſkyllde hañ ecke myklu fframar þad ſama vid ydur giøra/ O þier lijteltruader? Þar ffyrer ſkulud þier ecke Nugſiuker vera/ſo ſeigiande/Huad eigum vier ad eta? eda huad eigum vier ad drecka? Eda med huøriu eigum vier ad Klædaſt? Þuiad epter þe-ſſu ollu leita Heidnar Þiooder. Og ydar Himneſkur Fader veit ad þier þurffed alls þeſſa vid. Þar ffyrer leited ffyrſt Guds Rykis/ og hans Ri-ettlætis/og mun ydur allt þetta tilleggiaſt. Fyrer þui ſkulu þier ecke Um-hyggiu bera ffyrer Morgundeigenum/ þuiad Morgundaguriñ mun ffyrer ſialffum ſier Umhyggiu bera. Huørium Deige næger ſyn Þianing.

## Exordium.

I Deutronomi Bookar 22. Cap. Leſum vier/ Ad j Løgum þeſſ Gamla Teſtamentesins/ haffe ffyrerboded vered/ a medal añara. Fyrſt þad/ad eingiñ ſkyllde ſiñ Vijngard/edur Akur/Sa med tuøffelldu Sæde. Þar næſt/Ad Meñ ſkylldu ecke Eria a einu Naute og Aſna til ſamans. Og j þridia lage/Ad þar ſkyllde eingiñ bera/edur fføra ſig j þau Føt/ ſem giørd væru aff Ullu og Lijne til ſamans.

Huad meine þier (mijner Elſkanleger) Ad Gud Drottiñ haffe viliad ſkiliaſt lata/ffyrer þetta þrent/ſem hañ ffyrerbydur j þeſſu ſijnu Løgmaale. Sañarle-ga/eckert añad/eñ þad ſem ſtendur j þeſſa Dags Gudſpialle/ſem er/ ad eingiñ kuñe under eins/ad þioona Gude og Mamon/ Þui huør ſem vill bera ſig þar ad/Huad er þad añad/eñ hañ Saar Akur ſijns Hiarta/med tuøffelldu Sæde/ ſem er/ Med Elſku til Guds/og Elſku til Veralldlegra og Forgeingelegra Hl-uta/huad ecke kañ under eins ad ſkie/ Þar ffyrer ſeiger ſo Poſtuliñ Johañes/ 1. Send. B. 2. Cap. Eff nockur Elſkar Heimiñ/j þeim ſama er ecke Kiærleik-ur Føðurſins. Þad añad/ ſem Gud bañade/ j þeſſu ſijnu Løgmaale/var/ Ad Madur ſkyllde ecke Eria a Naute og Aſna til ſamans/ Þui huad er þad añad/eñ ad vera Under eins Andliga og Veralldlega ſiñadur? Huad ecke kann helldur ſamañ ad koma/ ede ſamhlioода ad vera/Þui ſuo ſeiger Poſtuliñ til Gal. 5. Ad þeir ſem Chriſto tilheyra/Kroſſfeſte ſitt Holld/med Gyrndum og Tilhneygingum. J þridia mata var ffyrerboded/Ad Meñ ſkylldu ecke Jklædaſt þeim Føtum/ ſem giørd væru aff Ullu og Lijne til ſamans/ Huad rettelega ma þijdaſt/ oppa þa ſem ſuo eru ſiñader/ ad þeir lataſt vera j gøru

Orde Gudhræddder/en j ødru eru þeir Vakner og Sofner/wt vm sijna Mam-
ons þienustu. Hier fyrer Aminner oss nu sialfur Endurlausnarinn vor/Drottinn
Jesus Christus/j þessa Dags Evangelio/ edur Gudspialle/ Ad vier skulum
vakta oss/fyrer þeirre skadsømu Mamons þienustu/og Buksoorg/ þuiad O-
møgulegt sie vnder eins/ad þioona Gude og Mamon/Huører ad eru tueir O-
lijker Herrar. Og viliu vier þar fyrer j Jesu Nafne /vijkia til Text-
ans/og hann stuttlega skoda og yferrega/ j tueimur Sm agreinu.

Fyrst viliu vier athuga/huad Mamon sie/og huar fyrer vier eigum oss suo
sterklega fyrer hønum vara ad taka/sem ꝼ allre annare Onytsamlegre Bukso-
rg/og Ofþørfum Ahuga.

Þar næst viliu vier athuga/þa Gullrægu Malsgrein/og Heilsusømu Raad
leggingu/sem Herrann Christur framsetr fyrer oss alla/j Nidurlage þessa Gud
spialls/so seigiande/ LEited FYrst Guds Rijkis/og hans Riettlætis/z mun
ydur allt annad gott tilleggiast. Nu/ Gud giefe oss sijna Naud/j Jesu
Nafne/suo vier hier wt af/ mættum nockud gott læra/ og oss til Nytsemdar
vera/ Amen.

# Fyrre Greinin.

POstulinn Jacob/tekur so til Orda(Elskuleg Guds Børn)j sijns Pistels 4.
Cap. Og seiger/Vite þier ecke/ad Veralldarennar Vinfeinge/er Guds O-
vinskapur/Huør Veralldarennar Vinr vill vera/sa mun Guds Ovinur verda.
Þesse Postulans Ord eru miøg merkelega samhlioodande/ þeirre ægiætu Pre-
dikun Herrans Christi/sem hann framsette fyrer sijnum Tilheyrendum/og skri-
fud stendur j þessu heilaga Evangelio/þar hann Blessadur so ad Orde kiemst/
og seiger/Enginn kann tueimur Herrum j senn ad þiona/annadhuort þa afrækt
er hann þann eina/og elskar hinn annann/ellegar hann þydest þann eina/og fyr-
irlætur hinn annann/þier gieted eige Gude þioonad og Mamon.

Vilie nu einhuør vita/ Ordsøk og Efne/ Huar fyrer ad Herrann Christur
framsette þessa Malsgrein/þa var hun þesse/ Ad hann sa fyrer/so sem eirn Al
vitur Herra og Drottinn/ Huørninn a þessum sijdustu Tijmum munde til gang
ga/sem er/Ad Menn mundu Ofmykla Ahyggiu/og Vmsorg bera/fyrer sinne At
vinnu/og Næringu/huxande meir þar vm/huørninn þeir kynne ad samandraga/
Aud og Rykedæme/so þeir kynne ad hafa alls Nægter/helldur enn þad/huørninn
þeir kynne ad komast yfer þau Himnesku Oforgeingelegu Audæfinn/ vm huør
Christur talar/j þessu sama Cap. Gudspiallamannsins Matth. seigiande/Safn
ed ydur ecke Fiarsioodum a Jørdu/huar Mølur z Rid etur þa/og huar Þiof
ar meiga eptergrafa og stela/helldur safned ydur Fiesioodum a Himne/ huar
ed huørke ma Mølur nie Rid granda/og huar Þioofar fa ei stoled/ nie epter
grafed/þui huar ydar Sioodur er/þar er ydart Hiarta. Og hier fyrer tek-
ur Herrann Christur/ einum og sierhuørium sterkann Vara þar fyrer/ ad festa



ecke.

ecke Hiarta sitt ofmyked vid Mamon/ edur þetta Jardneska/sem er/ Aud og
Rykedæme þessa Heims/Þuiad Mamon er eitt Syrlendskt Ord/og þyder suo
myked/sem allskonar Nætter/og Yferfliootanlegheit/af Gotze z Audæfum.
Nu er þui so vared/ad storre Audlegd z Rykedæme/fylger optast nær/sa Lø
stur ag Vanart/ad þad dregur/og so sem stelur Hiertum Mañaña fra Gude/
og kiemur þeim til ad siña meir þessum stundlegum/og Hiegomlegum Audæfe
um/eñ ad adhillast Gud/og hñs Heilaga Ord. Ordsøkiñ er sü/ Ad Gud og
Mamon eru tueir næsta møg Olyker Herrar/so sitt vill huør þeirra/Þar fyr
er seiger Herrañ Christur hier/Ad eingiñ kuñe þeim bædum vnder eins ad þi
oona. Gud er eirn Myskunsamur Herra/Eñ Mamon Omyskunsamur/Gud
er sa allra Giafmilldaste/Eñ Mamon sa Nyskaste/og Fasthelldnaste. Gud
vill ad vier skulum giøra øllum til Gooda/ af þui sem hañ hefur oss lænad/
Eñ Mamon bañar þad/ og vill þad j ønguañ mæta lyda. Gud skipar oss/ ad
stunda epter þui Himneska/sem þar er vppe/Eñ Mamon epter þui Jardneska
sem hier er nidre. So siaum vier þa hier af/huad mykell ad sie Mismunur
æ millum þessara tueggia/Guds og Mamons/Og huørsu þad sie Omøgulegt/
vnder eins þeim bædum ad þioona. Jæ/ Þad er so Omøgulegt/so sem einum
er ad lyta edur horfa vnder eins med sama Auga/ vpp j Himeniñ/ og ofan æ
Jørdena/edur ad Klæda tuø Høfud med einum Hatte;. Nu þo so sie/ad
Herrañ Christur take oss hier sterkañ Vara fyrer/þeirre andstyggelegu Mam
ons þienustu/ edur Ohooflegre Peninga Agyrne/huørria Postuliñ Pæll kallar
Afgudadyrkan/Pist. til Col. 3. Þa samt sem ædur/fyrerbydur hañ ecke/ad
Meñ meige eiga Riettfeingiñ Aud. Ad þioona Mamon/bañar Christur hit
er ad søñu/Eñ ad eiga Mamon/þad bañar hañ ecke/Helldur skipar hañ oss/ad
vier skulum giøra oss af hønum Vine/hia Luc. 16.. Jæ/Hañ vill ad vier sku
lum vera hans Herrar/eñ hañ ecke vor/ Þad er/ Ad vier skulum ecke hafa hañ
so kiærañ/ad vier tymum ecke ad siæ af Alen edur Alnar virde/vid þa Naud
þurftugu/so sem þui midur/ad marger finast/sem eru Vellryker/ og vita ecke
Aura siña tal/Eñ Plæga þo sialfa sig/og tyma (kañ skie) huørke ad Klæda sig
nie Fæda Sæmelega/ auk helldur/ þeir mune giøra ødrum Fætækum til Good
da. Huad er Mamons þionusta ef þetta er ecke?

Lætum oss þar fyrer/bar vm Aminta vera/Ad flya z fordast/alla Oleit
felega Mamons þienustu/so sem Andskotañ sialfañ/þuiad hun er sa hiñ skad
legaste Hlutur sem verda kañ. Eñ þionum Gude vorum/ og adhillumst hañ/
med allre Hiartans Alwd/og Lytelæte/Þui hañ eirn er Drottiñ allra Drott
na/huør ed Rædur og stioornar øllum Hlutum/æ Himne og Jørdu. Jæ/hañ
er vor Drottiñ epter Skøpuneñe/og Vardveitsluñe/þui hañ skapade oss j ønd
verdu/og hefur giefed oss Sæl og Lyf/og allt añad gott. Hañ er vor Dro
ttiñ og Herra/epter Endurlausniñe/epter þui sem Postuliñ Petur vottar/ 1.
Pist. 2. Cap. Hañ er og so vor Drottiñ/epter Helguñe/og Endurfædingu
ñe/Rom. 4. Skylldum vier þa ecke elska hñ yfer alla Hlute fram? Eg hafa

alla

alla: vora Hiartans Lyst/Vnum og epterlangan j hønum einum/eñ øngre añare skapadre Skiepnu/huørke æ Himne nie Jørdu? Hier þuert æ moote/ber oss ad hafa Andstygd z Hatur æ Diøflenum/þuiad þo hañ kallest einn Herra/þa er hañ þo samt ecke vor Herra/helldur er hañ Herra og Høfdinge Myrkrañ a/og þessa Heims/verande Kroptugur j Børnum Vantruareñar/Eph. 2. Vørunst þar fyrer/ad giefa oss hønum til Þienustu/ j nockurn mata/ þui hañ launar synum Þienurum ecke ødru/eñ eilyfum Kuølum vm syder.

Nu so sem þad/Ad Herran Christz hefur hingad til/reked oss Vara fra þeirre skadsømu Mamons Þienustu/ so tekur hñ oss og einniñ framreigis hier j Gudspiallenu/Vara fyrer Bwksorg/og Oþørfum Ahuga/ so seigiande. ÞAR fyrer seige eg ydur/vered eige Nugsiuker fyrer yduru Lyfe/huad þier skulud eta og drecka/og eige helldur fyrer ydrum Lykama/ huørju þier skulud Klædast. Hier setur nu Herrañ Christur oss fyrer Sioonir/ huad þad sie/sem Mañeskiurnar bere mesta Ahyggiu fyrer/æ medañ þær lifa hier/j þessum auma og Fallvallta Heime/ sem er fyrst/ fyrer Daglegre Næringu/ huad þær skule eta og drecka/Eñ vppa þad/ad eingiñ skyllde falla j Vyl og Efasemewt af synu Vpphelldre/ þa vysar Herrañ Christur oss øllum hier/ til Fuglaña vnder Himnenum/so vier kyñum af þeim ad læra. Fyrst/ad hafa eitt ørugt z stadfast Trwnadartraust til Lifanda Guds. Fuglarer bera øngva Ahyggiu fyrer siñe Fædu/helldur taka þeir strax æ Morgnana snemendis/þegar Sooliñ kiemur vpp/ ad lofa siñ Herra og Skapara fagurlega/med synum Tungum og Kuake/sydañ fliugur huør siñ Veg/wt vm Verølldena/og vita þo ecke huørt þeir eiga ad hafa sig/ samt sem ædur hefur Gud hugad sierhuørium þeirra fyrer synu Korne/so þeir verda aller sadder. Þetta ættum vier af þeim ad læra/ og giøra þad sem oss er befalad/ Varpande allre vorre Ahyggiu vppa Drottiñ/þui hañ ber Vmhyggiu fyrer oss/epter þui sem Postuliñ Petur vottar/1. Pist. 5. Cap.

Þar næst eigum vier ad læra þad af Fuglunum/ad vera Þolenmooder/Vier vitum þad/Ad Fuglarner hafa huørke Hws nie Hybyle/helldur eru þeir vnder berum Himne/og þegar ad Kuøllda tekur/þa setia þeir sig æ einn Kuist/Þwfu eda Stein/styngia so Høfdenu vnder Vængiñ/og Sofa Ohulter allt til Morguns/sydañ fliuga þeir aptur wt/og einginñ giefur þeim neitt ad eta/ edur Elur Añ fyrer þeim/þo eru þeir ecke ad sydur Lifuger/og Gladværer/z sueima hyngad og þangad vm Lopted. Eins ættum vier og so siñader ad vera/og Murra huørke nie Møgla j mote Gude/þo oss gange ecke allt ad Oskum helldur ombera Þolenmoodlega/þ sem Herrañ vill lata oss ad Høndū koma.

Þad þridia/sem vier ættum af Fuglunum ad læra/Er/ad lata oss anægia med þad sem Gud veiter oss og giefur/sie þad myked eda lytid. Heyrum huad Herrañ Christur seiger hier vm Fuglana. Hañ seiger. Þeir Sæe huorke nie Vppskiere/ og ecke helldur safne þeir j Kornhlødur: Helldur lata þeir



sier

sier nægia med þau støku Korn/sem þeir finna sier hyngad og þangad. Hid sa
ma eigum vier ad giøra/þuiad þad litla sem sa Riettlate hefur/ er betra enn
mykel Audæfe/margra Ogudlegra/seiger hiñ heilage David/Psalm. 36.
Þad añad sem Mañeskiurnar hier i Lyfe/bera mestañ Kuydboga/ og vm
hyggiu fyrer/ þa er Klædnaduriñ/ Þar fyrer vijsar Herrañ oss aptur vppa
nytt/ ecke til Fuglaña eins og fyrre/ helldur til þeirra Andvønu Skiepnaña/
sem er til Liliu grasaña/so seigiande. Hyggied ad Akursins Liliu grøsum/
huorniñ þau vaxa/þau viña ecke nie spiña. Hier høfum vier ad skoda
Guds Oransakanlega i Vijsdom/sem lætur Bloomsturiñ og Liliurnar a Akre
num vaxa so Fagrar og Prydelegar vpp/med adskilianlegum Farva/ suo eitt
Grased hefur Huytañ/añad Raudañ/þridia Grænañ/fiorda Himenblaan Ky
rtel ad bera/so ad sialfur Christur seiger hier/Ad Salomon i allre siñe Dyrd
hafe ecke vered so skrijddur(þad er/so Fagurlega og Prydelega( SEm Eitt
AF ÞEim. Eins Høndlar sa Goode og Giæskurijke Gud eñ nu i Dag vid
oss Meñena/ Eirn Klæder hañ med Huytu Sylkefate/ eins og hañ froma Jo
seph/Gen. 41. Añañ med Purpura/ eins og Daniel/Dan. 5. Þridia med Sa
udafelldum/⁊ Geitskiñum/eins ⁊ Postulana/ Heb. 11. Elias var ad søñu eirn
mykelhattar Spamadur/samt bar hañ ecke Sylke/og Flugels klædnad/ hell
dur vottar Skriptiñ/ad hañ hafe vered Klæddur eirnre Lodiñe Hwd/og haf
ft Ledur bellte vm sijnar Lendar/so sem lesa mæ/ 2. Kong. B. 1. C. Huør
var meire eda Heilagre/eñ Johañes Skijrare? Þar fyrer Klæddest hañ þo ecke
Gyllinestickis Føtum/huør hønum Soomdu langtum betur ad bera/eñ Herodi
Konge/helldur hafde hañ Klædnad af Vlfvallds hærū/og Olarbellte vm sijn
ar Lendar/ eins og Elias/ Matth. 3. So ættum vier nu þa(Elskuleg Guds
Børn)Ad breyta epter Dæme þessara Loflegu Guds maña/i sañarlegre Aud
mykt og Lijtelæte/og so sem þad/Ad Bloomsturiñ a Akrenum eru til Frids/
⁊ læta sier nægia m; þañ Klædnad/sem Herrañ hefur þeim giefed/so þad allra
fegursta Bloomst: fora:ktar ecke þad Audvirdelegasta hia sier. J sama mæ
ta øfundar ecke þad Føla og Audvirdelega/hid fagra. So skyllde eingiñ añañ
forsmæ/þo Gud hafe Klædt hñ med betre og Pracktugre Føtum/vegna sijns
Embættis/eñ hiñ/þui þad næger til þessa Lijfs/Huør hañ hefur Vatn ⁊ Br
aud/Klæde og Hws/þar med hañ kañ ad hylia sijna Þørf/seiger hiñ Vijse Syr
ach/ 29. Cap.
J añañ mata/setur Herrañ Christur oss hier fyrer Siooner/Almætte Lifa
anda Guds/þar hañ seiger vm Liliugrøsiñ/ad þau viñe huørke nie spiñe/Ei
ns og vier Meñerner pløgum ad giøra/ samt giefur Gud þeim siñ Klædnad/
so þau standa ecke Nakiñ. Eins skulum vier vita/ ad Hønd Drottins er ecke
eñ nu stutt ordiñ/Esa. 50. Helldur giefur hañ oss Vll/Lijn/og añad þad vid
er vidþurfum/ad skyla oss med. Huør Klædde vora fyrstu Forelldra/ epter
Falled? Munde ecke sialfur Gud giøra þeim Skiñ kyrtla? Gen. 3. Huørtum

var þad

var þad ad kieña/Ad huørke Klæde nie Skoor Israels Folks slitnudu/j þau
40. ár/sem þad var j Eydemørkuñe? Giørde þad eckt Almættis Hønd Gus
ds? sem lesa mꜳ j Devt. B. 8. og 29 Cap. Huør hlijfde þeim þremur Møñ
um j Elldsins Ofne/so ad Elldurin kuñe þeim ecke ad granda/og ecke so myk
in skada ad giøra/ad Hꜳr þeirra eda Klæde suidnudu/hid allra minsta? Dan. 3
Munde þad ecke Openbert Guds Verk vera? Nu vel/vier skulum vita/ad sa
same Gud lifer eñ nu/og kañ vel ad forsorga þa Voludu og Aumu/sem ꜳ hñ
treysta/mz Klædum og Skiædum/jafnvel þo þeir sieu so Fatæker/ad þeir ha
fe ecke neitt fyrer framañ Hendurnar/sem þeir giete vñed eda spuñed/Þar fy
ter seiger Herrañ Christur so framvegis/j þessum vorum Gudspialls Texta.
Ef Gud prijder nu so Grased/þ sem j Dag er ꜳ Akre/og ꜳ Morgun ve
rdur j Ofn kastad/skyllde hñ ecke myklu framar þad sama vid ydur giø
ra/O þier Lytelstrwader? Heyrum hier til(Elskuleg Guds Børn)huør
su Hiartanlega/og Nærkuæmlega/ ad sa Himneske Orator og Mælskumadur/
vor Drottiñ Jesus Christus/fer ad telia vm fyrer oss/so vier skulum ecke Vḡ
la og Vola vm vora Atvinu/ og Næring.

Nu vilium vier framvegis/fꜳ ad heyra Ordsaker þær/huar fyrer vier ei
gum ad fordast Hugsyke/ og þa andstyggelegu Bwksorg. Fyrst eigum vier
þana ad fordast/vegna þess/ad þad er Forgiefens/og til ongvtis/þo Meñ vil
le kuelia sig/ og þuijnga þar med/framar eñ goodu Hoofe giegner/ Og hier
fyrer setur Herrañ Christur fram fyrer oss/eitt Merkelegt Epterdæme/j þess
um vorum Gudspialls Texta/so seigiande/Huør er sa af ydur/sem med sin
ne Ahyggiu/gietur auked eirnre Aliñ vid sijna Leingd. Þad er/sem hñ
villde seigia/So sem þad er Heimskulegt/og Dærlegt fyrer eirn/ef hañ villde
bera sig ad auka nockru vid Vøxt hañ/sm Gud hef: hm giefed z afskamtad/So
er þad og so Oþarft/ad bera ofmykla Ahyggiu fyrer sine Næringu/þui Ma
dur viñur þar ecke neitt med.

Þar næst eigum vier/ad slꜳ fra oss øllum Ofþørfum Ahuga/ fyrer Mat og
Dryck/Klædum z Skiædum/og ødru þess konar/þui Christur seiger hier/AD
vor Himneskur Fader vite vel/ad vier þurfum alls þessa vid. Nu fyrst
Gud veit af Naudsynium vorum øllum/ huør vill þa efa þad/ad hañ Blessad
ur mune ecke huxa oss fyrer þui/sem oss kañ ad vera þarfsamleg til Lyfsins
Vppheldis? Christur kallar hañ hier vorn Fødur/Eñ huør er sa Fader/Ef
Barn hans bidur hañ vm Braud/ ad hañ biode þui Stein/ þar fyrer? Eda
bidie þad vm Fisk/ad hañ biode þui eirn Høggorm fyrer Fisk? Eda ef þad
bidur vm Egg/ad hañ biode þui eirn Scorpion? Nu med þui/ef þier sem vo
nder erud/ kuñed ad giefa gooodar Giafer Børnum ydar/ Huad myklu meir/
mun þa sa Himneske Faderiñ/giefa þeim Heilagañ Anda/er hañ bidia/ Luc.
11. Cap. Ja/Þessu Fødurs Hiarta er so vared(miñ Brooder og Syster)Ad

 þeir

þeir sem hans leita/ munu øngvañ skort hafa a neinu goodu/ suo sem David vottar/ Psalm. 24.

Su þridia Ordsok/ huar fyrer vier eigum ad varast þa liootu/ og leidu Bukſorg/ er þesse/ Ad Christnum Mønum Soomer ecke haua ad hafa/ þar fyrer talar Herrañ Christur so hier/ Epter þEssu Aullu LEita HEidnar Þiooder. Eñ huad kiemur þar til/ ad þeir Heidnu eru so Hugsiuker fyrer synu Daglegu Braude? Þad kiemur so til/ ad þeir vita ecke neitt ad seigia af Guds Forsioñ/ og Vmhyggiu/ af hans Elsku og Trufeste/ af Himneskre Glede & Saaluhialp. Þar fyrer er þad eingiñ Vndur/ þo þeir sieu Hugsiuker fyrer þessu stundlega. Ja/ Þo þeir sieu suo kuydande/ huørniñ þeir kuñe ad næra sig og syna. Dæme hier vppa verdur lesed vm eirn Heidiñ Mañ/ sem hiet Aulus/ Huørs Hwsfrw hafde Fædt hønum j Heimiñ/ eina vnga Dottur. Eñ sem Aulus þeinkte med sialfum sier/ huad myked sig munde kosta heñar Vppfoostur/ mykladest hønum Kostnadurin/ og liet þar fyrer kasta Barnenu j Vatn/ og deyda þad. So eru þa aller þeir/ øngvu betre eñ Heidner Meñ/ þo þeir latest vera Christner/ sem leggiast j Bukſorg/ og Mamons þienustu/ þui þeir falla þar med fra synum Christendoome/ wtelykia sig fra Samfielagskap heilagra/ og brioota þañ Saattmaala/ sem Gud hefur vid þa bunded j Skyrniñe.

Hier kañ einhuør ad seigia/ Fyrst eg þarf øngva Ahyggiu ad bera/ fyrer Vpphellde mynu/ og miña/ Þa er best eg take mier gooda Daga til/ Ete og Drecke/ Eyde og speñe þui litlu sem eg a. Eñ vier skulum vita/ Ad Herrañ Christur bañar hier alleinasta alla Oleyfelega Ahyggiu/ eñ ecke þad/ ad huør og eirn skule ecke taka Ackt og Vara a synu Kalle og Embætte/ sem Gud hefur hann tilsett og skickad/ Þuiad huør hañ hefur Embætte/ seiger Postuliñ/ hañ giæte þess Embættis/ Þad er/ framkuæme þad sem hønum er boded & befalad/ j sinu Guds Otta/ Og skal þ so einfalldlega vera sagt/ vm þ fyrra Greinarkorned.

# Aññur Greiniñ.

EPterfylger nu med einu Orde/ ad miñast a þa Gullvægu Maalsgrein/ sem Herrañ Christur framsetur fyrer oss alla/ j Nidurlæge þessa Heilaga Evangelij/ so seigiande/ Leited fyrst Guds Rykis/ og hans Riettlætis/ og mun ydur allt añad gott tilleggiast. Tuent er oss athugande/ j þessu sydara Greinarkornenu/ Þad fyrra vykur vid Befalningu sialfs Lifanda Guds/ Þar hañ skipar oss/ ad leita fyrst Guds Rykis/ Eñ hitt añad ahrærer hans Loford epter a mot/ til allra þeirra/ sem þessare hans skipan hlyda.

Eñ huad er þad þa/ kañ einhuør ad seigia/ Ad leita fyrst Guds Rykis/ og hans Riettlætis/ og huørniñ a eg þad ad giøra? Fyrst skalltu vita/ miñ Broder og Syster/ Ad vilier þu riettelega leita Guds Rykis/ og hans Riettlætis/ þa attu jduglega ad þeinka þar vm/ ad Gud hefur þig so heitt elskad/ ad hañ gaf þier siñ Eingietiñ Son/ vppa þad/ ad aller þeir sem a hañ trwa/ skyllou ecke

ecke fyrerfarast/ helldur hafa þad Eilyfa Lyf. Joh. 3. Þar næst ber þier ad vpplypta þynu Hiarta/Hug og Siñe/fra þessu Jardneska/til Himens/huar þitt rietta Heimele er/og huadañ þu vænter Frelsarans Jesu Christi/Joh. 8. C. Þu skallt og eirniñ heyra Rækelega og jduglega/Guds Heilaga Ord/Ganga sem tydast vel og Verduglega/ til þess Heilaga Alltaresins Sacramentis/Jæ/Þu skallt leggia þig epter Trwñe/ og goodum Verkum/blyfa j þinne Kallan/þad er ad giøra þitt Embætte/ sem Gud hefur þig tilkallad/med allre Dygd/og æstundan/ 1. Cor. 2. Hafa þyna Glede og Vnadsemd/ecke j þessu Jardneska/ edur þui sem j Heimenum er/ Helldur j Gude. Allt huad hellst sem þu giører/ og æformar ad giøra/þa skalltu giøra þad Gude til Dyrdar/ z j Nafne vors Drottins Jesu Christi/ Þu skallt læta þier nægia/ med þad sem Gud vill þier giefa/ sie þad myked eda lyted/og varpa allre þiñe Ahyggiu vppa Drottiñ/ seigiande med hinum Heilaga David/af Psalm 73. Þegar eg hefe þig Drottiñ/þa hyrde eg huørke vm Himen nie Jørd/Og med Postulanum Paale. Jeg reikna alla Hlute fyrer skada/j hia þeirre yfergnæfanlegu Vidurkieñingu Christi Jesu myns Drottins/ Philip. 3. Huør sem nu so giører/og hagar so synu Hiarta og siñe/Ordum og Giørdum/ og øllu Framferde/ sem nu hefur sagt vered/sa hinn same leitar riettelega Guds Rykis og hanns Riettlætis. Eñ huad faa þeir þa til launa/ og j adra hønd/sem skyda sier epter þessare Herrans Christi Befalningu/ og leita fyrst yfer allt fram/ Guds Rykis og hans Riettlætis? þad seiger Herrañ vor Jesus hier vtþryckelega/ sem er/ ad oss mune Allt añad Gott Tilleggiast. Þetta er eitt mykels verdt Fyrerheit (elskuleg Guds Børn) Huør skyllde kunna ad æskia sier meyra edur betra? Hier þuert a moote/þeir sem leita fyrre epter þessu Jardneska og forgeingelega/ sem er epter Magt og Metordum/ Aud og Rykedæme/og ødru þesshattar/eñ epter Guds Ryke/ þeir hiner sømu hafa sier ecke añars ad vænta enn allskonar Olucku og Oblessunar/ epter þui sem sialfur Drotteñ seiger j Devt. B. 28. Og nogleg dæme Heilagrar Ritningar Auglysa.

Ad sydustu seiger Herrañ Christur hier j Nidurlage Textañs. FYRer Þui skulu þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgundeigenum/þuiad Morgundaguriñ mun fyrer sialfum sier Vmhyggiu bera/ Nuorium deige næger syn Þiæning. Hier kañ einhuør ad spyria/ þui mun Herrañ Christur baña ad hafa Vmhyggiu fyrer Morgundeigenū? Fyrst giører hañ þad þess vegna/ ad hañ þar m3 minte oss a/huad fallvallter ad være vorer Lyfdagar/ Þui huør er sa sem hefur teked Brief þar fyrer/edur veit af þui/ huørt hann myne lifa til Morguns edur ecke? Sañarlega/ þar er eingeñ. Þar næst hefur Ahyggia vm epterkomande hlute/ øngvum vel Luckast. Dæme þar vppa høfum vier af Adam og Evu/ Huad feingu þau fyrer þad /ad þau huxudu ofmyked fram j Veigiñ/og Girndust meyra eñ Gud DRotteñ hafde heim gieked? Þad/ ad þau mistu og vrdu ad sia a Bak þeirrar Himnesku og Jardnesku Para

Þu Paradijsar Glede Gen. 3. Saul bar Vmhyggiu fyrer þui/Ad David mun de koma epter sig/og verda Kongur/ sem og fyrer ødru fleyra epterkomande. Eñ huad fiekk hañ j stadiñ? Þad/ad hañ fiell j Ovinættu Lifanda Guds/ 1. Sam. B. 28. Þegar Petur grenslaðest epter/ vid Herrañ Christum/huad fyrer Johañi skyllde liggia/þa straffade hañ hañ og sagde/Huad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier epter/Joh. 21. Þar fyrer skyllde eingiñ Onaudsynlega Ahyggiu bera fyrer epterkomande Hlutum/ helldur stunda alleinasta epter Guds Ryke/og hans Riettlæti. Huad ef vier j Anda & Sañleika giørum/þa muñum vier vm sijder ødlast þau Eilijfu og Oforgeingelegu Audæfeñ a Himnum vppe/Huar til oss Hialpe Gud Fader/fyrer Forþienustu sijns Sonar Jesu Christi/Huørium med Fødurnum og Heiløgum Anda/ sie Lof/Dyrd/Vegsemd og Æra/ fra Eilijfd/ til Eilijfdar/Amen.

# Sexanda Suñudag epter Trinitatis.

## Evangelium/Luc. 7. Cap.

VJ þañ Tijma. Og þad skiede so/ epter þad/ ad Jesus gieck til þeirrar Borgar/sm kallast Naim/og hans Lærisueinar geingu marger med honum/og mykell Fiølde añars Folks. Þa er hañ took ad nælgast Borgarhlided/Sia þu/þad Framlidiñ Madur varboriñ vt/Einka Sonur siñar Moodur/ og hun var Eckia/Og mykell Fiølde Borgarmaña gieck vt med heñe/Eñ þa er Drottiñ leit hana/ hrærdest hañ Myskunar yfer heñe/og sagde til heñar. Grææt þu eige/Og hañ gieck þar ad/og æhrærde Børurnar/ Eñ þeir sem bææru stoodu vid/og hañ sagde. Þu Vngmeñe/eg seige þier/rijs þu vpp/ Og sa reis vpp sem Framlidiñ var/og took til ad mæla/og hañ gaf hañ aptur siñe Moodur. Eñ aller vrdu Ottaslegner/Lofudu Gud og søgdu. Spamadr mykell er a medal vor Vppriseñ/OgGud hefr vitiad sijns Folks/ Og þesse Saga barst vt af honum/vm allt Gydinga Land/ og vm øll kringum liggiande Nierød.

## Exordium.

J Fyrre Book Kongaña/17. Cap. Lesum vier/vm þañ Dyrdlega Spamañ Eliam/ Ad hañ hafe vppvaked af Dauda/ Son þeirrar Fatæku Ekiu af Sarepta. Þetta var ad søñu eittstoort Furduverk/ad huørium Ekio hafa dædst/ aller þeir sem þar hafa nælæger vered. Eñ

Þusund

Þusundsinnum meira og stærra Dasemdarverk/ verdur oss hier fyrer Sioonerser/ j þessa Dags Gudspialle/ Þar sa Himnerske Elias/ vor Blessade Endurlausnare/og Naudhialpare/Christus Jesus/kiemur hier ad Borgarhlidenu j Naim/og uppvekur af Dauda eitt Vngmeñe/sem var Einka Sonur siñar Moodur/og þad sama riett j þeim Suipnum/sem hañ var wtborin til Grafareñar. Elias kallade til Drottins/ þa hañ uppreyste Eckiuñar Son af Sarepta/ og bad hañ/ad Saal þess Framlidna/ mætte koma til hans aptur/ Eñ þess þurfte Herrañ Christur ecke vid/ Þui so sem þad/ ad Faderiñ hefur Lyfed j sialfum sier/so hefur hañ giefed Synenum ad hafa Lyf j sier sialfum/Joh. 5. Og þar fyrer skipar hañ hier af Vallde/so talande/Þu Vngmeñe/Eg segie þier/ Rijs þu upp/ Audsynande þar med/miøg Krøptuglega/Ad hñ sie sa riette Lyfsins Hertoge/ Act. 3. Sem hefur Valld yfer Lyfe og Dauda/Rom. 14. Og vilium vier aan leingra Formaala/edur Jñgango/ vykia til Gudspiallsins/og taka oss wt af þui/þessa tuo Smaapuncta/ad skoda og yfervega.

Hiñ fyrre skal vera um þa Sorglegu Lykfylgd. Aññar um þad/ hui ersu Herrañ Christur kom Ofor varandis þangad/ sem Lyked var wtbored/ Audsynande siñ Almættis Krapt/med þui fleyra/ sem vier kuñum hid stuttlegasta/ af þessu huørutueggiu/ oss til Lærdoms/ Huggunar og Betrunar ad wtdraga. Nu/Sa Eilyfe Lyfsins Herra/vor Drottiñ Jesus Christus/ sem hefur Lykla Helvijtis og Daudans/Hañ sende oss sijna Naad/so vier mætum hier wt af nockud Nytsamlegt heyra/og læra/Amen.

# Fyrre Puncturiñ.

J Þañ Tijma(seiger Gudspiallamaduriñ)Og þad skiede so/epter þad ad Jesus gieck til þeirrar Borgar/ sem kallast Naim.

Hier eru oss nu j fyrra Greinarkornenu/fim Kringumstædur vel athugande Hin fyrsta er um Stadiñ/ edur Plaatzed/j huørin ad þesse Lykfør hafe skied/ sem var Borgiñ Naim/ Eñ Naim var eirn Lystugur Stadur/ sem laa midt j einum Grænum Grashaga/j millum þeirra tueggia Fialla/Tabor og Hermon/ huar af hañ hefur og so vissulega feinged sitt Nafn/ og kallast Naim/ Huad ad þydest uppa vort Maal/so sem fagre Dalur/edur fagre Bær. Nu þo Plaatz þetta være næsta fagurt og Lystelegt/ þa foor þo Dauðiñ ecke þar epter/ helldur kiemur hañ jñ þangad/Jaa/hañ hefur optsiñis giørt wr Naim/edur wr einu Glede og Lystehwse/ eitt Sorgar hwo/suo sem hier maa sia/Ad Christur mæter strax j Borgarhlidenu/eirnre Sorgarlegre Lykfylgd.

Hier af høfum vier þad ad Læra/ Ad þar er eckert Plaatz so fagurt/Suo Rambyggelegt og Prydelegt j allre Verølldu/ ad Daudiñ kome þar ecke jnn. Jaa/ Hañ kiemur so vel j þa Pracktugu Sale Konga og Keysara/so sem j eirn audvirdelegañ Kofa/eins Purfa Mans. Og verdum vier aller hier med Aminter/ad kañast vid Eymder vorar/z huørsu þad/ad vier sieū Daudañum undervorpner/z ad vier sieum hier ecke Heimameñ/helldur vonum epter ødru Lyfe


huørt

huørt Gud mun giefa þeim/ sem j Trwñe sier vid hañ fastlega hallda.

Þad añad sem oss er athugande/er vm þañ Framlidna/sem hier verdur wt borin/þui so stendur j Textanū. Og sia þu/ Framlidiñ Madur var bo rin̄ wt. Huadañ munde hañ þa wtborin̄ vera/ kañ einhuør ad spyria? Hañ var borin̄ Vt Af Hwse siñar Modr/z þo hñ være einsamall Erfinge allra fra Gotza/sem hans Fader hafde hønum epter lated/þa hlytur hñ samt þar vid ad skilia/og gietur ecke neitt med sier teked/ vtan einar fiorar Fialer/ og eitt lytiñ Lyndwk/vtañ vm Lykama siñ/med þetta ma hañ Vandra j burt til Grafareñar/eñ ecke meira. Hier vm ættum vier(myner Elskanleger)jduglega ad þeinkia/vppa þad/ vier festum ecke Hiarta vort/ vid þessa stundlega Hlute/ Psalm. 62. Helldur søfnum oss Fiesiood a Himnum/ sem alldrei forgeingur/ Matth. 6. Þui vier høfum eckert med oss jnnflutt j þeñañ Heim/ Af þui er þad Openbert/ad vier munum eckert j burt hafa/seiger Postuliñ/1. Pistle til Tim. 6. Cap.

J ødru læge/ er oss vel merkiande/huørt þesse Framlidne hafe borin̄ vered/ sem er/til syns Legstadar. Gydingar høfdu þañ Sidvana/ Ad þeir Groofu syna Framlidna vtan Borgar/j einu vissu Takmarke/edur Platze/so sem liooslega ma sia af Dæme Abrahams/ huør ed siñ Erfda Legstad hafde/ j þeim Tuøfallda Heller/sem hañ hafde Keypt af Heths Sonum/Gen. 23 Huad hid sama þeir Gømlu hafa ecke an Ordsaka giørt/Helldur hefur Tilgangr þeirra vered vissulega sa/Ad Meñ skylldu/þar med Aminter vera/ad þeir Framlidnu ættu ecke framar Heimile j þessare Verølldu/helldur/nær þeir være eitt siñ Gledelega burtsofnader/ j synum Endurlausnara Jesu Christo/ þa være þeir ordner Samborgarar//og Heimameñ Guds/og hans Vtvalldra/Eph. 2. Eins hefur þad og so syna Þyding/og Vtlegging/ Ad rorer Medbrædur og Systur/a þessum Døgum/ hafa Greftrarstad siñ/ jnnañ og vtan Kyrkiu/ sem er/j Kyrkium og Kyrkiugørdum/til ad avysa þar med/Ad þeir hiner Christnu/og Riettrwudu/verda ønguañeigin̄ fyrer Tymanlegañ Dauda/fraskilder fra Christelegum Søfnudi/og Christelegre Kyrkiu/Helldur heyra þeir Christo til/þui huørt vier lifum eda Deyum/þa erum vier Drottins. Rom. 14.

Þridia Atvik edur Kringumstæda/sem oss er athugande/ j þessare Lykfylgd/er vm þeñañ Vnga Mañ/sem Framlidiñ var wtborin̄. Huar af vier siaum og Lærum/ Ad Daudiñ fer ecke ad Mañvirdingum/ helldur kipper hañ j burtu/so vel þeim Vnga og Vppreñanda/ sem þeim Gamla og Grahærda. Þad synest þo Natturlegast ad vera/ ad þeir hinu Gømlu verde fyrre j burt hiedan kallader/eñ þeir Vngu. Þar fyrer er þad so sem fyrer eina Furdu vpp skrifad/ j Heilagre Ritningu/ ad Haran skyllde andast/ fyrr eñ hans Fader Tharah/so sem lesa ma/Gen. B. 11. Cap. Eñ Daudiñ spyr þar ecke epter/helldur vpphøggur hañ med synum huassa Lia/bæde smaa og stoora/ so jafn vel Barnaskiepnurnar/ sem j Moodur lyfe eru/ og ecke hafa eñ sied Liooséd/eru ecke frij fra hønum. Hier vm skylldu þeinkia aller Jngismeñ z Meyar/ suo

þau

þau mætte kaſtaſt vid ſig/og hafa mætalegt vid/ æ ſijnu Æſkuſkeide/þui alldrei veit nær Kalled kiemur.

Þad fiorda/ſem vier eigum ad adgiæta/vm Lyk̃førena þeſſa vnga Sueins æhrærer hña Sorgfullu Moodur/Gudſpiallamadurin̄ ſeiger hier/ad hun hafe vered Eckia. Sieaum til(Good Guds Børn)Gud hafde fyrer nockrum Tijma ædur/burt kallad heñar Eckta Mañ/nu kiemurheñe hier ofañ æ/ſu Hiartaſorg/ ad hun verdur ad fylgia og ſo ſijnum Einka Syne til Grafareñar/ huør hun ætlade fo næſt Gude/ad verda munde ſijn Glede z Elleſtod/z ſañaſt hier nu æ heñe/þad gamla Mælteke/ad ſialldañ ſie eitt Motlæte einſamallt. Æ/ huad margar Syſtur æ þeſſe Fætæka Eckia ſier eñ nu æ þeſſum Døgum? Huad margar froomar og goodar Dandis Kuiñur/verda ad drecka af þeim Beyſka Tæraña Bikar/med heñe/og ſiæ æ bak ſijnū Ecktamañe? Eñ þær ſiṁ fyrer ſoddañ Mootlæte og Hiartaſorg verda/ſkyllde gefa ſig til Frids/og ſetia alla ſijna Von/Trw og Trauſt vppa Lifanda Gud/ ſo mun hañ viſſulega ecke læta þær Huggunarlauſt fra ſier fara/helldur ganga þeim ſialfur j Mañs Stad/og elſka þær Þuſundſiñum meir og framar/ eñ eirn Ecktamadur kañ ad elſka ſitt Ecktahiarta/Þar fyrer ſeiger hañ ſo/hia Spæmañenum Eſa. 54. Ottaſt ecke/þui hañ/ſa ed þig hefur giørt/ hañ er þiñ Madur/Drottiñ Zebaoht er hñs Heite/Sie nu Gud ydar Madur/þier Angrædu/og Sorgfullu Eckiur? So Huggcd ydur þar vid/og giefed ydur til Frids/ þuiad j hønum hafe þier/allt huad ydar Hiarta kañ ad gyrnaſt/ Sieud þier ſtwrande/og bered Ahyggiu fyrer ydar Vpphellde/ þa otteſt ecke/hañ mun ſialfur huxa ydur fyrer Vpphellde/Braude og Næringu/ſo ſem hañ giørde Eckiuñe j Sarepta/og mørgum ødrum. Sie ſo ad ydar Viner og Næungar/ yfergiefe ydur/ og vilie ecke ſiña ydur/ſo ſem opt ſkiedur/ad þegar ſoddañ Fætækar Eckiur koma/ og leita ſier Styrks og Adſtodar hia þeim/ ad þeir vilia huørke heyra þær nie ſiæ/ þa ſkulu þier þo ſamt vera Hughrauſtar/ og ottaſt ecke/þui ſialfur Gud er ydar Fader/og Naudhialpare/þar fyrer ſkipar hañ ſo alvarlega j ſijnu heilaga Orde/ad Nleñ ſkule giøra Eckium z Fødurlauſum Børnū riett/Deut. 10. z Exo. B. 22. Cap. Seiger hañ/Þier ſkulud ecke Mein giøra Eckium/og Fødurlauſum Børnum/Ef þu giører þeim Mein/þa munu þau kalla til mijn/ og eg vil Bænheyra þeirra Kall/og mijn Grimd mun reidaſt/ ſo eg vil læta ydar Kuiñur verda Eckiur/og ydar Børn Fødurlaus.

Þad fimta z ſijdaſta/ſem vier høfū ad athuga/j Lykfylgd þeſſa Vnga Mañs/æhrærer Folked/ ſem Lykenu fylgde/ þui Gudſpiallamadurin̄ ſeiger hier/ Ad mykell Fiølde Borgar Maña/ hafe geinged vt med heñe.

Huar af vier høfum þad ad læra/ Ad lijka ſem þeſſe Sorgfulla Moodur med ſijnum Fylgiurum/fylgde æ epter þeim Framlidna til Grafareñar/ So fylgium vier aller/huør ødrum æ epter jafnañ/ſem vndañ oſſ eru komner/z hølldū þeſſa Proceſſiu/ allt þar til eirn kiemur epter añañ/ Huar fyrer vort Lyf er ecke añad ad reikna/eñ ſijfelld Reiſa/og Daudans vtfør/ſuo vier nu eigum med

 riettu

riettu syngia z seigia/Midt j Lyfe erum vier/umvafder med Dauda/et cet.

Þar næst lærum vier þad/af Loflegu Dæme Naims Borgarmanna/þad oss ber og hæfer eins og þeim/ad veita vorum Framlidnum/Soomasamlega Lykfør. Mitt Barn seiger Syrach/nær nockur andast/so græt þu hann og Harma/sem þier hafe myked a moote geinged/og Sueipa hans Lykama epter Tilbærelegum Hætte/z veit hønum Ærlega Greptran/38. Cap. Þessum Syrachs Raadum/eigum vier aller Kallar og Kuinnur/ epter ad fylgia/ og þad sama vegna þessara þriggia eperfylgiande Ordsaka.

Fyrst/ ad sialfur Gud hefur boded þad og skipad/Græted (seiger hann) med Grætendum/Rom. 12. Og so sem þad/ad sa er einginn/sem ecke villde oska/og fyrer sig kioosa/ad sem flester Froomer og Gudhrædder Menn fylgde Lykama synum til syns Legstadar/So eigum vier og ecke helldur ad synia vorum Brædrum og Systrum j Drottne/ þessarar sydustu Æru þienustu/hafande j Minne þad sem Christur seiger/hia Matth. 7. Cap. Allt huad þier vilied ad Mennerner giøre ydur/þad skulu þier og þeim giøra/ Þad er Løgmaaled og Spamennerner. Þar næst utheimter af oss þessa þienustusemi/ Broodurlegur Kiærleike/ og Elskusemi/sem vier erum huør ødrum um skylldugir. Og j þridia lage su Gagnsemi/ sem oss þar af stendur/ þui betra er oss ad ganga j Sorgarhws/helldur enn j Dryckiuhws/ J hinu er allra Manna Endalyckt/ og hiner Lifendu setia sier þad j Hiarta/ seiger Salomon/j sinnar Predikunar Bo. 7. C. Og er þad so einfalldlega sagt um þad fyrra Greinarkorned.

## Annar Puncturinn.

Epterfylger þad annad/ sem hlioodar um Tilkomuna Christi/ til þeirra sem Lyked bæru/og þui fylgdu/og huørninn hann hafe Høndlad vid þessa Fatæku Sorgfullu z Munadarlausu Eckiu/Og er þad þrent sem osser athugande.

Þad fyrsta er/ Ad hann hræzest Myskunar yfer henne/strax hann sier hana. Hier af høfum vier þad ad læra/ Ad lyka sem Herrann vor Jesus Christur liet sier til Hiarta ganga/Eymd og Sorg þessarar Eckiu. So skulum vier ecke helldur efa j nockurn Mata/ad hann mune kienna j Briooste um oss/synar Fatæku Barnakyndur/ þa hann sier vier þreingiunst og Piinnist under Krossinum og giefa Freistingunum þann enda/ ad vier gietum vel stadest/1. Cor. 10.

Þad annad/sem vier eigum hier ad Hugleida/Er su Kroftuga Huggun/ med hueirre hann Endurnærer þessa Harmþrungnu Eckiu/so seigiande/ GRaat þu Ecke. Huar af vier lærum/Ad vier eigum ad sønnu ad Græta/og syrgia vora Framlidna/Enn þo ecke so sem Heidingiar plaga ad giøra/huørier ed ønga von hafa/1. Tess. 4. Helldur so/ad vier latum oss aptur Huggada verda/ Syr. 38. Cap. Latum oss þar fyrer þessa Huggunar Raust vors allra sæta asta Endurlausnara/jafnann j Eyrum loda/Og nær sem hellst (minn Brooder z Syster) ad Motlætesins og Angistarennar Vatn/ geingur allt jnn ad þinne Salu/so þu sier ecke annad fyrer/enn þu muner søckva nidur j diupann Saur/þar ed einginn

eingiñ Botn er/ so sem David ad Orde kiemst/Psalm. 69. Þa Huggadu þig vid þesse Jesu Ord. GRaat þu ecke/ Og vit fyrer vyst/ad hañ er hia þier j Neydeñe/ Hañ vill þier þadañ wtryckia/ og þig Vegsamlegañ giøra/ Hañ vill sedia þig med laungum Lyfdøgum/og audsyna þier sitt Hialpræde/ Psal. 91. Sie so/ad Gude þocknest ad kalla j burtu fra þier/þyna Forelldra/þyna Ecta Ruiñu/Ecta Mañ/Børn edur adra þyna Hiartgroona Naunga/ÞA Græt þu ecke/ Þuiad Sæler Riettlætra eru j Hende Drottins/ og eingiñ Pyna snerter þær/ Spekeñar Bookar 3. Cap. Ligge þad fyrer / ad þu verder Endelega ad seigia Heime þessum goodar Nætur/ ÞA Græt þu ecke/ Þuiad Daudiñ gietur þier øngvañ skada giørt. Helldur opnar hañ þier ad eins Dyrnar til eilyfs Lyfs/þar eingiñ Daude mun framar vera/Eingiñ Sorg/Harmur edur Plaaga/Helldur mun eilyf Glede vera yfer vorum Høfdum/ Glede og Føgnud munum vier høndla/ Eñ Hrygd og Sorg mun hlioota burt ad vykia/ Esa. 35. Cap.

Þad þridia/sem oss er hier athugande/ Er vm þa Gledelegu Vppvakningu þessa Vnga Mans/ Og er oss hier aptur vppa nytt/tuent athugande. Þad fyrra er/med huørium Hætte Herrañ Christur hafe vppvaked þañ Dauda/ Gudspiallamadurinñ seiger/Ad hañ hafe GEinged AD Og Ahrært Børurnar. Huar med hañ villde audsyna/Ad Mañdoomuriñ/sem hañ hafde vppa sig teked/ være jafnañ Samverkande Guddoomenum. Hid sama giørde hañ og so/vid þañ Daufa/sem hñ Læknade/hñ lagde siñ Blessada Fyngur j hans Eyru/Hañ Ahrærde Tungu þess Mællausa/Yfer hina adra sem siuker voru/ lagde hñ syna Signudu Hendur/Eñ hier Ahrærer hañ Børurnar. Eins mun þad og so a sydasta Deige skie/ þa hañ kiemur j Skyum Himens/ þa mun hañ Ahræra Grafer vorar/og leida oss sitt Folk wt þadañ/Ezech. 37. Þui hñ er sa Herra/sem hefur Lykla Helvytis og Daudans/Openber. B. 1. Cap.

Þar næst seiger Gudspiallamadurinñ/ ad hañ hafe talad til hins Framlidna og sagt/ Þu Vngmeñe/eg seige þier/Rijs þu vpp. Hid sama mun hañ og so giøra/j siñe Tilkomu a sydasta Deige/ þui su Stund mun koma/ seiger hañ sialfur/ ad aller þeir sem j Grøfunum eru/munu heyra Raust Mañsins Sonar/og þa munu framkoma þeir sem gott hafa giørt/til Lyfsins Vpprisu/Enn þeir sem jllt hafa giørt til Domsins Vpprisu/Joh. 5. Cap. So kostar þad þa Christuñ/ecke vtañ alleinasta eitt Ord/ad vppvekia þa Framlidnu/ þui þar hañ mun seigia/komed aptur þier Mañaña Børn/ Psalm. 90. Sia/ þa mun þesse Raust jafnskiott/þreingia sier j giegnum allra Maña Grafer/og Jørdin og Siooriñ munu giefa fram þa Daudu/ sem j þeim eru/Openber. B. 20.

Nu viliū vier framvegis fa ad heyra/ huørniñ þessum Framlidna Jngismañe hafe ordid vid/ þa Christur Ahrærde Børurnar/ og skipade hønum/ ad Rysa vpp. Fyrst seiger Gudspiallamadurinñ/ AD Hiñ FRAmlidne HAfe Setst Vpp. Eins munum vier og so a synum Tyma vpprysa/ og ganga wr Grøfum vorum/ eñ ecke j soddañ Veykleika vors Holld/sem vier høfū haft

 j þessu

j þessu Lijfe/ helldur med eilijfum Prijdelegum og Forklarudum Lijkømum/
Liosmande eins og Sool j Rijke vors Fødurs/ Matth. 13. Cap. Og so sem
Stiørnur vm alla Eilijfd/ Dan. 12. Cap.

Pad er skrifad/ Ad j Fliootenu Euphrates vaxe eitt Trie/ sm̃ kallast Scor
pus/ Þetta Trie beyger sig allt fra Hꝛuølldꝛ Dags/ og jñ til nudrar Nætur/
ofan ad Vatnenu/ med øllum synum Greinum suo hvørke kuña Meñ ad sia þ
nie æ þui þreifa med Høndunum/ Eñ æ moote Morgne/ þa riettet þad sig
vpp aptur. Þetta Trie er ein merkeleg Figura vppa Vpprisu Framlidena/ þt
þegar Kuølld Lijfdaga vorra er komed oss ad Høndum/ og Gud vill ad vier
skulum vandra j burtu hiedañ/ sia/ þa hliootum vier endelega ad deyia/ og leg
giast nidur j Jørdena/ sem er Mooder vor allra/ Syr. 40. Eñ samt skulum
vier þo vita/ ad vier eigum þar ei æfenlega ad blyfa/ helldur/ þegar sa Glede
lege Morgun þess sydasta Dags/ mun frambriootast/ þa munum vier/ og eiñ
iñ vpp aptur rijsa/ eins og Vngmeñe þetta/ og af Grøfunum lifande fram ko
ma/ so þad/ vort hid minsta Bein skal þar ecke epter verda/ Psalm. 34.

Þar næst seiger Gudspiallamadurinñ/ Ad sa sem Framlidiñ var/ Hafe Teked
Til Ad Mæla. Eins munum vier ecke æ sydañ/ j Eilijfu Lijfe/ vera Mall
lauser/ eins og Skurgood/ Vm huør David seiger/ ad þau hafe Muñ og mæle
ecke/ Psalm. 115. Helldur munum vier hallda allra handa Gledelegt Samtal
vid Gud Fødur/ Son og heilagañ Anda/ Mootlijka og þa Moyses og Elias/
tøludu vid Herrañ Christum/ æ Fiallenu Tabor. Þar munum vier læra ad
skilia huørniñ þad/ ad j eirnre Guddoomlegre Veru/ eru þriar adskilianlegar
persónur/ og adra Þusund marga Leyndardooma/ sem vier j þessu Syndugu
og Daudlegu Hollde/ høfum ecke kuñad ad grijpa med vorum fim̃ Skilningarvit
tum/ þad munum vier þar allt fullkomlega skilia/ og lofa Gud þar fyrer/ vm
alla Eilijfd/ seigiande/ af Openber. B. 15. Mykel og Vndarleg eru þijn Verk
Drottiñ Gud Almattugur/ Riettvijser og Sañarleger eru þijner Veiger/ þu
Kongur Heilagra/ Halleluia/ Heilsa og Heidur/ Dyrd og Kraptur/ sie Gude vo
rum Drottne/ Openber. B. 19. Cap.

J þridia lage stendur hier j Textanum/ Ad Herrañ Christur hafe giefed
þeirre Sorgfullu Moodur siñ Son aptur. Eins mun þad og so skie/ æ sydast
sta Deige/ þa vier komum aller aptur til samans/ Þa mun vor Liufe Endurl
lausnare Jesus/ giefa sierhuørre Eckiu siñ Elskulegañ Ektamañ aptur/ og sier
huørre Moodur sijn Børn/ Jæ/ sierhuørium einum siñ Astvin og Naunga.

Pad er skrifad vm Strijdshøfdingia þess Romverska Keysara Augusti/ sm̃
hiet Quintilius Varus/ Ad hñ hafe j einu Slage/ tapad þeim mesta z besta Pa
rte af Keysarans Strijdsfoolke/ Huad þegar Keysariñ fieck ad heyra/ vard
hñ miøg Hryggur og ængradur þar yfer/ ad hñ vard ad sia æ Bak so margra
Herlegra Strijdsmaña/ og sem Keysariñ var eitt siñ sem optar/ ad þeinkia vm
þeñañ Mañskada/ sem hañ hafde feinged/ komu vpp fyrer hønum stundum sat
mañ/ wt af ofmykellre Hugan/ þesse Ord/ ad hañ sagde/ Quintili Vare/ Redde

mihi legiones/Pad er/O Høfudsmadur minn Qvintili Vare/skaffadu mier aptur mijna Soldata/Enn þ var þorgiefins/þui Varus kunne ecke med nockru mote ad giøra þa Lifande aptur/sem Dauder voru. Enn vor Herra Jesus/ hann er sa hinn same/ sem a sijdasta Deige/kann ad giefa huørium einu sinn Brodur og Astvin aptur/Og þar fyrer kallast hann Vpprisann og Lyfed/hia Joh. 11. Cap. Hier vid Huggade sig hinn heilage David/þegar hans Unge Sonur doo/þa sagde hann/Eg fer til hans/enn hann kiemur ecke til mijn aptur/ 2. Sam. B. 12. C. Huad Hiartanlega glød/ urdu þau Tobias og Anna/ þa þeirra Sonur kom med Lucku heim til þeirra aptur/huørn þau meintu þo Daudann ad vera/søkum sinnar lang varande Burtuveru? Þau hlupu wt a moote hønum/fiellu vm hans Hals/og kystu hann/og Grietu af Feigenleika/huar vm lesa maa/Tob. B. 11. C ap. Huad myklu meire og stærre Hiartans Føgnudur og Glede mun ve ra fyrer ydur/a sijdasta Deige/hier sem nu græted og þreiged epter ydar fram lidna/ þa Herrann Christur giefur ydur þa aptur/ skijnande/ Forklarada/ Liettfæra og Odaudlega? Sannarlega mun su Glede verda Owtskijranleg/huør ecke mun af oss vm alla Eilijfd tekenn verda. Nu/ til hennar ad komast/ og hana ad fa og ødlast/ þad veite oss Gud Fader/ Sonur og Heilagur Ande Suøre heilagre Guddoomsins Þrenningu/vier syngium Hiartans Lof z Packer/ nu hiedann j fra/ og ad Eilijfu/ A M E N.

# Seitianda Sunnudag epter Trinitatis

Evangelium. Luc. 14 Cap.



Þann Tijma. Og þad skiede suo/ad Jesus kom j Nockurs Phariseara Nofdingia a Þuottdeige Brauds ad neyta/ og þeir hefdu Vardhalld a hønum. Og sia þu/ ad Madur nockr Vatnssiukr var þar frame þ hm. Og Jesus Andsuarade z sagde til Logspekinganna z Phariseana so seigiande. Huert Leyfest nockud ed lækna a Þuottdøgum? Enn þeir þegdu vid. Og hann tok a hønum, Læknade hñ/og liet hñ j burtu fara/suarade z sagde til þeirra. Huere ydar Asne edur Naut sem fellur j Pytt/ er þad eige jafnsnart wtdreiged a Þuottdeige? Og þeir gaatu honum ongvu þar til suarad. Enn hann sagde þessa Eptirlijking/til þeirra sem bodner voru þa ed hann sa/huernin þeir mottoku epter hinum fremstu Sætum/seigiande so til þeirra. Nær ed þu vert Bodinn af einhuørium til Brudkaups/þa set þig ecke j Ædsta Sæte/kann skie þad annar Neidarlegre enn þu/ sie Bodinn af hønum/ og kome



sa sem

sa sem þier baud og hønum/og seige til þijn/Gief þessū Rum/ & hlioter þu þa med Kiñroda/ad hafa hid ydsta Sæte. Nelldur so/nær ed þu verdur bodiñ/þa far þu/og set þig j hiñ ydsta Sess/so ad þa/nær ed sa kiemur er þier baud/þa seige hñ til þijn/ Vinur/ þoka þier vpp betur. Þa mun þier Virding veitast/ hia þijnum Seßunautum. Þui huør sig sialfur vpphefur/hañ mun nidurlægiast/og huør sig Lytelæter/ hañ skal vpphafiñ verda.

# Exordium.

AMedal añara Merkelegra Nafna/ sem vorum Blessada Endurlausnara/Herranum Jesu Christo/ verda giefiñ j Heilagre Ritningu (Elskuleg Guds Børn) Þa er þetta ecke hid sijsta/ Ad hañ er kalladur Drottiñ vor Grædare/edur Lækniomeystare/ so sem lesa mæ/Exo. B. 15. Og Matth. 9. Cap. Eñ huad Riettelega þessum Himneska Lækner soome ad bera þetta Nafn/ þad kuñum vier gloggvast ad siaa þar af/ef vier beruñ hñ samañ vid alla adra Læknara. Fyrst er sa Munuriñ/Ad þar aller adrer Læknarar/kuña ad bregdast/þa bregdst þesse vor Lækner oss alldreige. Adra Læknara kañ ad hindra Laung Leid/þa kañ ad hindra Soott og Daude/so þeir kome þa sydst til hins Siuka/þa mest æliggur/ Eñ Jesum vorn Hindrar ecke Fiærlægd Vegarens/þui hañ er alltyd hia oss/ so sem David vottar vm hañ/ Psalm. 145. Nærre er Drottiñ øllum þeim sem hañ akalla/ øllum þeim sem hañ Akalla j Anda og Sañleika. Hañ hindrar ecke Sott nie Daude/þui hañ er eitt siñ Dæiñ/og deyr ecke optar/ Jæ/Daudiñ Drottnar nu ecke yfer hønum leingur.

Þar næst er sa Mismunur/æ mille Jesu/og allra añara Læknara/Ad þar þeir kuña ecke Boot/vrañ vid Lykamans Kuillum/& Krankdæmum ad eins/ og þo eru þar nockrar Sotter/sem þeir kuña einguñ Raad vid/þa kañ vor Lækner Jesus/ecke alleinasta ad Græda allar Lykamans Meinsemder/helldur og so Sælareñar/& Samviskuñar Sær/sem mest æliggur. So sem þ/ ad Sælareñar Velferd er Dyrmætare eñ Lykamans Velferd/ so er vor Lækner Christur/ølluñ ødrum Læknurum meire og betre.

Þridie Mismunur æ mille Læknisdooms Herrans Christi/og añara Læknara/ er sa/ Ad hans Læknisdoomur er so miøg langgiædur/ hñ varer ad Eilyfu/Þar hiña añara Lækningar eru skamviñar/so þo sa Siuke fatt siina Lykamans Heilbrygde aptr/þa varer þ/tuttugu/þriatyu/eda kañ skie mest fiorutyu aar/Sydañ kiemur Daudiñ/og suipter aptur j burt Heilsuñe/þa er so sem eina gillde/ huørt Madur hefur nockurn tyma Læknadur vered edur ei. Eñ þeir sem Jesus Læknar/ niota þess Læknisdooms ad Eilyfu/ þeir deya alldrei þeim Eilyfa Dauda. So sem þa ad Eilyf Lækningar Not eru betre

og ædre

og ædre eñ skyndleg/ So er vor Lækner øllum ødrum ædre og betre/ þetta mætte sañ þesse Aume Vatnsiuke Madur/ huøs hier verdur geted/ j þessū Daga Gudspialle/ sem og marger adrer fleyre/ sem Herrañ Christur Læknade/ ecke einungis vppa Lykamañ/ helldur og suo vppa Saalena. Og vilium vier æn leingra Jñgangs/ vykia til Textans/ z hm̄ j þriar Smægreiner sundurskipta.

Hin fyrsta skal vera vm þetta Phariseiska Giestabod/ sem Herrañ Christur var tilbodiñ.

Aññur vm þad mykla Dasemdarverk/ sem hñ giørde a þeim Vatnsiuka.

Þridia vm þa Merkelegu Giestabods Predikun eda Rædu/ sem hñ framsette.

Nu/ Sa ædste Læknir allra Meina/ vor Drottiñ Jesus Christus/ Virdest ad Hialpa oss/ og vera j Verke med oss/ so vier mættum hier wt af nockud gott læra/ og oss til Nytsemdar færa/ Amen.

## Fyrsta Greiniñ.

VM Absalon lesum vier/ j añare Book Samuelis/ 13. Cap. Ad hañ hafe vnder Vinættu Skine/ Boded synum Broodur Amon til Giesta/ Þar hañ hafde þo vondt Auga og Hugþerde til hans/ fyrer þad/ hañ hafde Kreinkt hans Syster Thamar/ og skipade þar fyrer synum Þienurum/ ad þeir skylldu slaa hañ j Hel/ þa hañ være Vyndruckiñ ordiñ. Soddañ Hræsnisfullt og Otrwtt Giestabod/ verdur oss og eirniñ fyrer Siooner sett/ j þeim fyrsta Parte Gudspiallsins/ sem j Dag verdur kient og wtlagt/ j Christelegre Kyrkiu. Og er þad sierdeilis tuent/ sem oss er hier athugande. Þad fyrra er vm Vertiñ/ eda Husherrañ/ sem hier byдur Herranum Christo til Giesta. Gudspiallamadurinn seiger/ Ad þad hafe ecke vered eirn Sliettur og Vmkomulitill madur/ Helldur eirn mykelshattar Høfdinge Phariseaña. Eñ Pharisei voru soddañ eitt Folk/ sem þottest Kostulegra og Heilagra eñ aller adrer/ giefande margar Aulmusur/ Matth. 6. Þeir baru sijda Kioola/ og breidañ Klædafald/ vppa huørn ad miøg Konstlega/ og Merkelega vorn Baldyrud edur Asaumud/ þau tyu Guds Bodord. Þeir høfdu og so Miñingar Blød sier j Hende/ Huad þo alltsamañ ecke var nema Eintomis Hræsne og Yferdrepskapur/ Matth. 23. Nu/ soddañ eirn Mykelshattar Madur/ var þesse sem Baud Herranum Christo til Giesta/ og þad sama a einum Sabbatsdeige/ Þui þad var Sidvenia Gydinga/ ad koma til samans/ ad endadre Guds Þionustugiørd/ og hallda Sidsamlegt Samtal/ huør vid añañ/ Nehem. B. 8. og Tob. 2. Cap.

Hier af høfum vier þad ad læra/ Ad Ærleg og Somasamleg Giestabod/ eru ecke Fyrerbodiñ ad hallda/ þui eirn Matarmilldañ Mañ lofar Alþydan/ Eñ af einum Briostkeysinge talar Stadurin jllt/ seiger Syrach. 32. Cap. Item/ Aminner Postuliñ Pall/ alla Riettchristna Meñ/ j Pistlenum til Heb. 13. Cap. seigiande/ Gleymed ecke Giestrisniñe/ þuiad fyrer hana hafa nockrer (þeim Ovitande) Einglunum Herberge veitt. Soddañ Giestabod hielldu þeir Heiløgu Guds Meñ adur fordum/ so sem ad var Abraham/ Gen. 21. C.

Jsaach baud Abimelech til Giesta/ Gen. 26. Joseph Brædrum synum/ Gen. 43. C. Og sa Goode Faderiñ/ þeim Fortapada Synenum/ Luc. 25. Eñ jafnframt þessu/ ber oss ad athuga vel og Vandlega þegar vier hølldum vorum Vinum & Naungum Giestabod/ ad vier giørum þad fyrst med sañarlegre Gudrækne/ so sem Tobias/ vm huørn skrifad stendur/ Tob. B 9. Ad þa þeir høfdu sagt Amen/ þa hafe þeir geingid til Bords/ Eñ Brullaups Veitsluna og Gledskapiñ hafe þeir hallded j Otta Guds. Þar næst eigum vier ad hallda vor Giestabod med Goodre skickan/ og Hoofseme. Þesse Phariseus/ sem hafde Herrañ Christum til Giesta/ var ad sønnu eirn Rykur/ og Myckelhættar Madur/ so sem vier heyrdum strax æmmnst/ samt mæ hier merkia/ Ad hñ hefur ecke haft neitt Ohoof/ j synu Giestabode/ þui j Gudspiallenu stendur/ Ad Christur hafe vered komiñ j hans Hws/ BRauds ad neyta. Sama ber oss ad giøra/ Vier skulum læta oss nægia/ þo vier høfum ecke marga Forkostulega Rietti æ voru Borde/ helldur taka til Þacka þ Gud giefur/ Eñ þ geingur so til æ þessu Døgñ/ ad þ þiker eingiñ good Veitsla/ edr Giestabod/ sem ecke er so framreidt Aul og Matur/ Ad Meñ verde Suyndruckner/ so þeir falle añad huørt vnder Borded/ edur minsta Koste/ sieu borner j burtu verr eñ Dauder/ Slykt Ohoof þocknast Gude ecke/ helldr styggest hñ myklu framar þar vid/ þa hñ sier ad synar Gæfur eru so suivirdelega Vanbrwkadar. Eñ þo Gooder Viner kome til samans/ jafnvel æ Suñudøgum/ og giøre sig Glada og Lystuga/ med einum goodum Dryck Vyns/ og Soomasamlegu Samtale/ sem Gude er ecke styggd ad/ og Meñ forsooma þar fyrer ecke/ þa Heiløgu Guds Þionustugiørd/ þa er þad øngvañeigiñ Lasta verdt.

Framveigis er oss athugande/: huør vered hafe Ordsøk þar til/ ad þesse Phariseus baud Herranum Christo til Giesta/ heim j sitt Hws. Munde hañ nockud giøra þad af Elsku og Kiærleika til Herrans/ eins og þa Vinur bydur Vin? Nei/ Laangt fiærre/ Helldur var Tilgangur hans sa/ Ad hañ villde bera sig ad komast fyrer hañ Blessadañ/ Þar fyrer stendur suo j Textanum. OG ÞEir Høfdu VArdhalld æ Hønum.. Þad er// Þeir gæfu vel giætur ad hñs Hegdan/ Ordñ & Giørdñ/ Meinande ad þeir munde nu geta (þar hañ sat Gladur j Giestabodenu) hendt eitt huad epter hønum/ Huar af audsied er/ Ad þesse Phariseare/ hefur mætt vera eirn sierdeilis Falskur og vndirførull Hundur/ og hefur læted epter sig/ marga syna Brædur sier lyka/ sem læta fagurt & Vingiarnlega vid siñ Naunga/ eñ j Hiartanu vmsitia þeir hñ/ Jerem. 9. Þesser hafa Jacobs Raust/ eñ Esau Hendur. Soddañ Falskur Skalkur var Saul Kongur/ hañ liest vera Davids beste Vinur hid ytra/ og gaf hønum til Ecta Doottur syna Michol/ sette hañ vid sitt eiged Bord/ suo sem siñ allra-kiærasta Doottur Mag/ og liest eckert jllt hafa j Siñe vid hañ/ samt leitade hañ Lags j tuær Reisur/ ad nysta hañ j giegnum vid Veggiñ/ med synu Spioote/ 1. Sam. B. 18. og 19. Cap. David sialfum foor ecke helldur stoors betur/ Þa hañ vm Kusllded liest vera goodur Vinur Vriæ/ og baud

hønum

hønum til Gieſta/Eñ vm Morguniñ epter fieck hañ hønum eitt Brief/og ſkip ade ad ſetia hañ j Stryded þar ſem þad være hardaſt/ ſo hañ yrde j Hel ſlegiñ/2. Sam. B. 11. Cap.

Ptholomæus Høfudsmadur j Jericho/ baud þeim Ædſta Preſte Simone Mage ſynum til Gieſta/og hans tueimur Sonum/Eñ yfer Bordum/ þa þeir voru Glader ordner/liet hñ Myrda þa/ſo ſem leſa mæ/1. B. Maccab. 16. C. Lætum oſſ þar fyrer flya og fordaſt þuilyk Odæde/Suik og Prette vid vorn Nauunga/ þui j Christo Jeſu/er eitt Riettelegt Athæfe/ Eph. 4. Eñ þeir Bloodgiørugu og Falsfullu munu ecke hælfna ſyna Lyfdaga/ ſeiger David/ Pſalm. 54.

Perſonañ ſem hier verdur til Bords bodiñ/Er vor allra Sætaſte Herra /z Endurlauſnare/Jeſus Chriſtus/ Og þo hañ viſſe vel/ad þeſſe Phariſeus ſem hønū jñbaud/hefde eckert gott j Siñe vid ſig/þa kiemur hañ þo ſamt til Gieſta bodſins/ecke til þeſſ einungis/ ad eta og drecka/ Helldur til þeſſ/ ad Kieña og Vppfræda Gieſterna j Guds Orde/Ef ſkie mætte/ þeir hefde kuñad ad Leidrietaſt/og komaſt a riettañ Sæluhialpareñar Veg. Hid ſama eigum vier ad giøra/Ef vier ſiaum vorn Broodur fara villt/einkanlega j ſynum Sæluhialpar Efnum/ þa eigum vier ad koſta Kapps a/ad hialpa hønum og vidrietta ſo myked ſem møgulegt er. Verde hønum ſnwed/fra Villu ſyns Vegar/ þa er gott/þui vier hefum þa frelſad eina Aund fra Daudanum/epter þui ſem Jacob Poſtule ſeiger/5. Cap. ſyns Piſtels/Og ſkal þetta ſo ſagt vm ꝥ fyrſta.

## Auñur Greiniñ.

EPterfylger þad añad Greinarkorned/ſem hiꝩodar vm þad mykla Dæſemdarverk Herrans Christi/ſem hañ giørde j Gieſtabods Veitſluñe/Og er oſſ hier fyrſt athugande Perſonañ/ſem Læknud var/Gudſpiallamaduriñ ſeiger/ ad þad hafe vered eirn Vatnsſiukur Madur. Eñ huørniñ ad þeſſe Veyke Madur/hafe komed jñ j Hwſed/þar Herrañ Chriſtur ſat til Bords/huørt hañ hafe þangad ſialffrafa fared/eda hafe hañ jñ þangad af ødrum Gudhræddum/ og Medaumkunarſømum Møñum leiddur vered/þeſſ verdur ecke gieted j Gudſpiallenu. Hieronymi Meining er ſu/ Ad med þui/ad Phariſearner ſettu ſig epter Herranum Chriſto/þa mune þeir af æſettu Rade/hafa ſo tilſett/ad þeſſe Vatnsſiuke Madur ſkyllde koma jñ vm Maltydartymañ/vppa þad/ ad hñ ſkyllde verda vorum Bleſſada Endurlauſnara ad einum Aſteitingar Steine/ ſuo hefde hañ ecke Læknad hañ/ þa þottuſt þeir hafa Ordſøk til ad æklaga hñ/añad huørt fyrer Myſkunar og Medaumkunarleyſe edur fyrer Vanmætt ad hañ giæte hañ ecke Læknad/ Eñ være ſo/ ad hañ Læknade hañ/ þoottuſt þeir hafa noga Ordſøk til ad ækiæra hañ/ fyrer Foracktan Sabbathsdagſins/ edur Helgedagabrot.

Hier af ſiaum vier( Elſkuleg Guds Børn )Huad fyrer eitt Gieſtabod þetta hefur vered/ſem Herrañ Chriſtur var tilbodiñ/og huørſu ſkadſamlegar Snørur og

ur/og Hꜳskasamleg Net/ ad þeir Ogudlegu Skꜳlkar høfdu lagt hier fyrer þ
Blessada Lambed Guds/til ad fꜳnga þad j/ So þeir hafa meint/ ad þad vꜳ
re Omøgulegt/ ad hañ kyñe nu hia sier ad sleppa/huad sem hañ vppa slæge/
edur til Bragds tæke. Eñ huad giører Herrañ Christur til?/Hañ so sem eirn
Alvitur Herra/ sier strax þeirra Aform/og huad þeim byr j Giede/talar þar
fyrer so/og seiger til þeirra. Nuort leifest nockud ad lækna ꜳ Þuottdøgū
Eñ þeir þogdu vid.

Hier af høfū vier þetta ad læra/Ad Sabbaths edur Hvyldardagurinñ Vañ
helgast ecke þar fyrer/ Þo Meñ fremie/og adhafest þad Naudsynlegt er. Til
Dæmis ad taka/Ef Elldur kiemur vpp/og ætlar ad giøra Skada/Heylum Hw
sum edur Bæum/Edur ef Strydsher Jñfellur ꜳ Helgum Deige/ Þa er Leife
legt/ad Meñ bæde biarge synum Hwsum/og so grype til Vopna/ ꜳ mote syn
um Ovinum/epter þui sem þeir Maccabæi samtooku/seigiande/Ef Oviner vo
rer yfer falla oss ꜳ Þuottdøgum/þa viliū vier oss veria/ 1. B. Maccab. 2.
Og þeir giørdu þad eirniñ/ suo sem lesa mꜳ j sømu Bookar 9. Cap. J sama
mꜳta/ef so kañ ad skie/ad lꜳngvaranlegt Votvidre og Regn hafe geinged/ ꜳ
kome þar sidañ vppa gott Hyrt Soolskins Vedur/ꜳ einum Helgum Deige/so
er Leifelegt/ad Meñ/ad endadre Guds Þionustugiørd/gange wt/og biarge sy
nu Heye/edur Matfaungum/so þad fordiarfest ecke/ edur verde ølldungis til
Onytis. So giørdu Lærisueinarner Christi/ þa hañ ꜳ Sabbathsdeige gieck
vm Kornsædid/og þa Hungrade/þa tyndu þeir Axen sier til Matar/ Huad
þegar Pharisei sꜳu/ fundu þeir þar ad/ Eñ Herrañ Christur forsuarade þꜳ
sialfur/so sem lesa mꜳ hiꜳ Matth. 12. Cap.

J añañ mꜳta skulum vier vita/Ad Sabbathsdagurinñ Vanhelgast ecke/þar
fyrer/ þo Meñ giøre Kiærleikans verk/ Til Dæmis/ ef ein Mañeskia ratade
Oforvarandis j Olucku/og være añadhuørt høggveñ/stiongiñ/edur j einhuørn
añañ mꜳta jlla wtleikiñ/ þa eru Meñ skyllduger ad taka hañ ad sier/ og giøra
til Gooda. Eda huør kañ ad fyrerbiooda Læknismeystaranum/ ad bwa til
Plꜳstur og leggia vid Sꜳr þess Særda? Eda Apotecaranum/ ad Blanda þe
im siuka þañ Dryck/ sem hønum kañ af ad Batna? Þui soddañ er ecke Helge
dags Brot/helldur wtheimter myklu framar Christelegur Kiærleike/ ad huør
og eirn skule giøra sitt hid besta/ huad ad er Løgmꜳlsins Vppfylling/suo sem
Postuliñ kieñer/ j Pist. til Rom. 13. Cap.

J þridia mꜳta skulum vier vita/Ad Sabbathsdagurinñ Vanhelgast ecke fy
rer þau Verk/ sem Guds Þionustu til heyra/ so sem er fyrer Ordsins Pre
dikun/Sacramentañā Handteringu/Framlidiñā Mañā Greftran/edur fyrer
Vitiun siukra/Eckna og Fødurlausra Barna/þui slykt er Oflecktud Guds Þi
onusta/ so sem Jacob Postule seiger/1. Cap. Þar fyrer skulum vier hier
Aminter vera/Ad hallda oss allemasta fra þeim Verkum/ ꜳ Heiløgum Drott
ins Døgum/sem Gude vorum meiga vera til styggdar/ þui añars kañ Drottiñ
ad snwa vorum Helgedøgum j Hrygd/ epter þui sem Spꜳmadurinñ Amos ad
Orde kiemst/8. C.

Framveigi

Framvegis skulum vier skoda hier og yfervega/huørsu Dasamlega ad Herrañ Christur fer ad Lækna þeñañ Vatnsiuka Mañ. Ecke bydur hañ epter Andsuare Phariseaña/helldur tekur hañ a hønum/ og Læknar hañ strax/an allra Orda. Hañ hefde vel kuñad ad Lækna hañ med einu Orde/so sem Þion Høfudsmañsins Matth. 8. Eda þañ Blinda hia Veigenum/Luc. 18. Eda þañ Icktsiuka/Matth. 9. Eñ þad vill hañ ecke giøra/helldur tekur hañ a hønum/med siñe Almættis Hende/viliande þar med audsyna/ ad sitt Holld være alleinasta þad sem Lyfga kyñe/ Joh. 6. Eñ sierdeilis er þad þo næsta Huggunarsamlegt/ Ad þo sa Vatnsiuke beidde vorn Liufa Endurlausnara ecke vm Hialp/þa er hañ samt þo suo Giæskurykur/ad hañ ølldungis Obediñ ahrærer hañ og Læknar. Huad mun hañ þa giøra oss/Myner Elskanleger) þa vier føllum til hans/og bidium af Hiarta? Æ/Hañ er længtum fwsare til ad giefa/eñ vier erum ad medtaka. Og þar fyrer verdur hañ kalladur Sool Riettlætesins/Malac. 4. Cap. Þui so sem þad/ad Sooliñ kañ alldrei ad vera an Byrtu/z Liooma/so kañ hñ og ecke añars/eñ ad Myskuna sig yfer oss/og giøra til Gooda/Jerem. 31. Cap.

Nu sem vor Blessade Endurlausare Jesus Christus formerker/ Ad syner Mootstødumeñ/sem þar satu til Bordsins med hønum/vilia lasta hañ þar fyrer/ ad hañ hefde Læknad þeñañ Vatnsiuka a Þuottdeige/þa forsuarar hañ sig/so seigiande. Huørs ydar Asne edur Naut sem fellur j Pytt/er þad ecke jafnsnart wtdreiged a Þuottdeige/et cet. Þad er sem villde hañ suo seigia/Ef ad Meñ draga Fienad siñ vpp wr Dyke edur Fene/a Sabbathsdeige/so hañ skule ecke kafna þar nidre j/Huad myklu framar ber þa/ad Hialpa eirnre Naudstaddre Mañeskiu/ Einkanlega þar Sabbathsdaguriñ er vegna Mañsins/eñ Maduriñ ecke vegna Sabbathsdagsins giørdur/Marc. 2.

Og strax sem þeir heyra/huørniñ Herrañ Christur forsuarar þeñañ siñ Giørning þa verda þeir so stamer og stader a sier/ad Gudspiallamaduriñ seiger/ Ad þeir hafe ongvu gietad hønum þar til suarad. Og kiemur þad hier fram sm Job seiger/5. C. Hañ Ongyter Raadagiørder þeirra Illkloofu/so ad þeirra Hønd fær þui ecke af Stad komed/Hañ høndlar hina vysu j þeirra Slægsmyunum/og vmvellter Raadum Rangferdugra.

## Þridia Greiniñ.

ÞAD þridia og sydasta Greinarkornid/sem eg lofade a ad miñast/Ahrærer þa Merkelegu Giestabods Predikun/ sem Herrañ Christur framsette/fyrer hina adra Bodsmeñena/sem til Bordsins satu. Eñ Ordsøkeñ/huar fyrer hñ hana framsette/var Drambseme og Metnadur þeirra Skriftlærdu/og Phariseaña/huørier ed Møttust epter hinum fremstu Sætum/ Og med þui ad vor Blessade Endurlausnare/var sialfur Hoogvær og af Hiarta Lytelatur/epter þui sem hañ vm sig vottar/hia Matth. 11. C. Þa kuñe hañ j øngvañ Mata

soddañ Andstyggelegañ Løst/ Ardfiñingarlaust ad lyda/ Talar þar fyrer suo og seiger til þeirra/sem med hønum til Bordsins satu. Nær þu verdur bodiñ af einhuørium til Brwdkaups/ þa set þig ecke j hid Ædsta Sæte/ kañskie þad añar Heidarlegre eñ þu/ sie bodiñ af hønum/og kome sa sem þier baud og hønum/og seige til þyn/gief þessum Rwm/og hlýoter þu þa med Kiñroda ad hafa hid ydsta Sæte/ Helldur/ nær ed þu verdur Bodeñ/þa far þu/og set þig j hiñ ydsta Sess/so ad þa nær ed sa kiemur er þier baud/þa seige hañ til þyn/Vinur/þoka þier opp betur/et cet.

Þriaar Merkelegar Giestabods Reglur giefur Herrañ Christur øllum oss/til þessare siñe Epterlykingu. Hin fyrsta er su/ Ad vier eigum ecke ad forsmaa/ þar Gooder Viner biooda oss heim til syn/ helldur med Þøckum þiggia þeirra Veiting/og þad þeir oss til Gooda giøra/hafande fyrer oss Dæme sialfs Herrans Christi/Huør ed/þa hañ var bodiñ til Brwdkaupsins j Cana/ þa kom hañ sialfur personulega þangad/ med synum Læresueinum/Joh. 2. Hañ var og eitt sinn til Giesta hia Mattheo/Matth. 9. Hia Zacheo/ Luc. 19. Hia Lazaro/epter þad hañ hafde oppvaked hañ af Dauda/Joh. 12. Og hia møgum ødrum.

Añur Giestabods Reglañ/ sem Herrañ Christur giefur oss/er su/ Ad vier Fordumst Ærugyrughet og Hofmood/þui so seiger hañ hier. NÆr ÞV VErdur BOdiñ Af Einhuørium Til BRwdkaups/Þa set Þig Ecke j Hid Ædsta SÆte/et cet. Fyrer þessum Andstygdar Leste eigum vier jafnañ ad taka oss Vara/þuiad eitt Drambsamt Hiarta er Andstygd fyrer Drottne/seiger Salomon/Ordsk. B. 16 Cap.

Þridia Giestabods Reglañ er/ Ad vier eigum ad vyrkia wr Sæte fyrer ødrum/sem meire Hattar eru eñ vær. Hier vm hlioodar so Textiñ. HELLdur nær þu verdur bodiñ/þa set þig j hiñ ydsta Sess/so ad/nær ed sa kiemur er þier baud/þa seige hañ til þyn/Vinur/þoka þier opp betur/ þa mun þier Virding veitast/hia þynum Sessunautum.

Gud er ei Gud Oskickunareñar/ helldur Fridarins/seiger Postuliñ/1 Cor. 14. Og so sem þad/ad Himentungliñ a Festingar Himnenum/hafa siñ vissañ Stad edur Plaz/ Sooliñ er so sem eirn Kongur/sem hefur sitt Hasæte/ midt a millu añara Planetaña/Tungled so sem ein Drottning. Og so sem Postuliñ Paall ad Orde kiemst/ 1. Cor. 15. Añañ Biartleika hefur Sooliñ/ eiñ añañ Tungled. Añañ Biartleika hafa z Stiørnurnar. Þuiad øñur Stiarnañ yfervinur adra j Biartleika. So hefur Gud giørt adskilaanlegañ Greiñarmun a millum Mañaña/og vill/ad huør og eirn gange epter þui sem hann hefur hañ til kallad. 1. Cor. 7. Og þeim sie Heidur veittur/sem Heidur heyrer/Rom. 13. Og Salomon seiger j Ordsk. B. 25. Cap. Vert ei Skrautsamur/ hia Kongenum/ og gack ecke j Reit þeirra stooru/þuiad betra er þier ad sagt sie til

sie til þijn/gack vpp hingad/helldur enn þu verder nidradur fyrer Høfdingiunū/ so ad þijn augu hlioote þad ad siaa.

Ad sydustu/i Nidurlæge þessa Heilaga Gudspialls/leggur Herrañ vor Jesus Christus Ordsøkena til/ huar fyrer vier eigum ad stunda Lijtelætesins besku Dygd/so seigiande/**Þuiad huør sig sialfur upphefur/hañ mun ñidurlægiast/og huør sig Lijtelæter/hañ skal upphafiñ verda.**

Tuent er oss j þessum Ordum athugande/Þad fyrra vid vijkur Straffe þui/ sem þeir hafa sier ad vænta/sem Drambseme og Hodmood stunda. Pharao Kongur var suo Hofmoodugur/ ad hañ dyrfdest ad læta af sier heyra/ þesse Ord/Huør er sa Drottiñ/huørs Raustu eg skule hlyda? Eige veit eg neitt af þeim Drottne/og ei læt eg Jsrael fara/Exo. 5. Eñ huørnenñ gieck þad hønum om syder? Eg meina hañ tæke sitt Straff wt j Hafenu rauda/ þa hann fyrerfoorst þar med Hestum og Vøgnū/ og øllu sijnu Lide/ Exo. 14. Eins gieck þad til fyrer Nabochodonosor Konge/ þa hañ sagde med sialfum sier/ Eg vil fara yfer þau hææu Skyeñ/ og lijkur verda þeim allra hædsta/ Eñ Gud snere þui suo/ ad hañ mætte fara til Helvytis/til grafarteñar sydu/ epter þui sem þar steudur j Esa. Spaadooms Bookar 14. Mootlijka verdur z so lesed vm þañ stollta Haman j Esthers Book. 7. Og soddañ Dæme fiñast allmørg j Heilagre Ritningu j huørium vier ættum oss ad speigla/ hafande j miñe þa ágiætu Reglu sem sa gamle Tobias fyrerskrifade sijnum Syne huør ed so er lættande/Drambseme lættu alldrei Drottna/huørke j þijnu hiarta/nie j þijnū Ordum/ þuiad hun er Vpphaf allrar Gløtunar/ Tob. B. 4. C.

Þad añad sem vier høfum hier ad athuga/ eru þau rijku Laun/ sem þeir aller faa/sem Audmyktareñar og Lijtelætesins Dygd stunda. Hier vm hlioдar suo Texteñ. Exxxi HVør Sig Lijtelæter/HAñ SKal VPPhafeñ verda. Hier vppa høfum vier mørg Dæme j Heilagre Ritningu/ bæde a Joseph j Egyptalande/ Ruth/ David/ Daniel/ og ødrum fleyrum/ Þar fyrer (minn Brooder og Syster) vilier þu komast til nockurs Goods hier j þessum Heime/ þa halltu þier fast vid Lijtelæted/ epter þui sem Postuliñ Petur Raadleggur þier/1. Pistle 5. Cap. So mun Gud a sydasta Deige giøra þig stooran og myckels Metiñ/Jaa/Vpphefia þig til Eilijfrar Dyrdar og Sooma. Huad ad ødlast/oss veite Gud Fader af siñe Naad/Huørium med Syne og Heiløgum Anda sie Lof/Dyrd/Vegsemd og Æra/nu hiedan j fra/z ad Eilijfu/Amen.

# A Michaelis Messu.

Evange. Matth. 18. C.

Um þañ Tijma. Geingu Lærefueinarner til Jesu/ og sǫgdu. Huør er mestur j Himnarijke? Jesus kallade eitt Barn til sijn/og sette þad midt j millum þeirra og sagde. Sañlega seige eg ydur/ nema þier vmsnuest og giørest suo sem sma Børn/ munud þier ecke jñganga j Rijke Himnaña. Huør sialfur sig læckar so sem Vngmeñe þetta/ sa er mestur j Rijke Himnaña. Og huør s̄ medtekur eitt þuilijkt Vngmeñe j mijnu nafne/ sa medtekur mig. Eñ huør hñ hneyxlar eirn af þessū Vesalingum sem a mig trwa/ þarfara være honum ad Mylnusteirn heyngdest vm hans Hals/ og være j Siafar diwp sockt ur. Vei sie Heimenum fyrer Hneyxlaner/ Þat hlioota þo ad koma Hneyxlaner. Enn Vei þeim Mañe/ fyrer huørn ad Hneyxle anneñ kiemur. Eñ ef þijn Hønd/ edur þiñ Footur hneyxlar þig/ snyd hañ af og snara honum fra þier. Betra er þier jñ ad ganga til Lijfsins halltur og handarvane/eñ þad þu hafer tuær Hendur/og tuo Fætur/ og verder j eilijfañ Elld kastadr. Og ef Auga þitt hneixlar þig/þa slijt þad vt & snara þui fra þier. Betra er þier eineygdū jñ ad ganga til Lijfsins eñ ꝥ þu hafer tuo Augu/& verder j Heluitskañ Elld kastadr. Siaed til ad þier forsmæed ecke eirn af þessū Vesalingū. Þuiad eg seige ydur/ ad þeirra Einglar a Himnū/sia jafnañ mijns Fødurs Auglit s̄ er a Himnū.

## Exordium.

J Lofkuæde Salomonis/ 3. Cap. Lesum vier/ Ad Kringum Sæng Salomonis hafe staded/ 60. Sterker Meñ/ af þeim Hraustustu j Jsrael/og þeir hafe aller haft Suerd/Verande Reidubwner/so sem til Bardaga/Og þeirra Suerd hieingu vid þeirra Sydu/ sakū Nætur ottans. Þetta hefur eina Andlega Þijding(nijner Elskanleger) Sierhuør Trwud Sæla/ma med riettu kallast ein Andleg Hwyla/ edur Sæng þess Himneska Salomonis/vors Drottins Jesu Christi/þui hñ byr j vorum Hiørtum fyrer Trwna/ so sem Postuliñ seiger til Eph. 3. Eñ fyrer þa øflugu & Sterku/sem standa j kringū þessa Sængina/ meiga vel skilliast Guds Heilager Einglar/þui þeir Fylkia sier j kringum þa sem ottast Drottiñ/Psal. 34. Og Vernda þa a moote Yfervallde Myrkraña/Col. 1. So þeir meige Sofa Vgglaust/Og hier fyrer kallast Einglarner øflugar Kiempur/af Spamañenum David/ Psalm. 103. Og med þui vier þiggium Otelianlega marga Velgiørninga/af þeim Goodu Heiløgu Einglum/ar epter ar/ þa hafa þeir goder Christneñar Formeñ/ so tilskickad/ad þesse Einglaña Hatijd skyllde halldin

halldin verda j Søfnudenum heiløg ærlega/ So vier hefdum Ordsøk til/ ad
Þacka Gude Almættugum af Hiarta/ huør ecke ad eins sialfur ber Vmhyggiu
fyrer oss/helldur hefur hañ og so/ þar ad auke/befalad sijnum Einglum/ ad þe
ir skule vernda oss/ ä øllum vorum Vegum og Stigum/alla vora Lijfdaga/ z.
Einkanlega ä vorre Andlaats Tijd/ þa vier eigum hier vid ad skilia.
Vær vilium æn leingra Jñgangs/taka oss þetta heilaga/og Hatijdlega Evan
gelium fyrer Hendur/og þad yfer fara/ j epterfylgiande tueimur Smægreinū.
J þeirre fyrre vilium vier athuga/ huørsu þad/ Ad Gud Drottiñ/ af siñe
Owtseigianlegre Godgyrnd z Myskun/sender sijna Blessudu H. Eingla wt/oss
til Verndar og Forsuars/ ä moote øllum vorum Ovinum/ einkanlega ä mote
Diøflenum/ z hans Aarum.
Eñ j þui sijdara Greinarkornenu/ vilium vier þad læra/ huørnñ vier eig
um ad Hegda oss/ so vier styggium ecke þa Heiløgu Eingla fra oss/ helldur ad
þeir meige ætijd hia oss nalæger vera. Nu/ Sa Eingell þess mykla Raa
ds/ vor Drottiñ Jesus Christus/ sende oss sijna Nad/ so vier mættum nockud
Gott hier wt af Læra/ og oss til Nytsemdar færa/ Amen.

# Fyrre Greiniñ.

AD vier mættum þessa Trwareñar Høfudgrein vm Einglana/ þess betur At
huga/ þa er oss fyrst vel adgiætande/ huør ad sie Art/ Nattura/ og Eigen
legleike þeirra Heiløgu Guds Eingla.
Fyrst skulum vier vita/ Ad þeir eru skapader Andar/ Þui fyrst þeir sia jaf
nañ Auglit Lifanda Guds/ þa fylger þad epter/ ad þeir sieu øngver Guder/
helldur skapadar Skiepnur/ Eñ þo samt eru Einglarner ecke soddañ Skiepn
ur/ sem vier Meñerner/ Helldur eru þeir Andleger/ huørs vegna þeir verda ei
nniñ kallader Andar/ Heb. x. Nu hefur Ande huørke Holld nie Bein/ Luc.
24. Eñ nær sem hellst þeir eiga ad wtrietta nockud hia oss Møñunum/ þa ta
ka þeir vppa sig Mañlega Asynd.
Þetta skal vera oss til Glede og Huggunar/ Ad med þui/ ad heilager Eing
lar eru Andar/ þa er eingiñ Stadur so fastur/ Eingiñ so kiællagur/ ad þeir
kuñe ecke til ad komast/ og vernda þa Froomu/ og Gudhræddu/ huar sem þeir
eru stadder/ So sem vier meigum Lioslega sia/ ä Dæme Postulans Peturs/
þa hañ laa j Myrkuastofuñe/ bundiñ med Fiøtrum/ edur tueimur Jarnhleckiū/
þar ad auk voru Dyrnar sterklega aftur læstar/ Eñ samt sem ædur/ kom Ei
ngell Drottins jñ þangad til hans/ og leidde hañ wt þadañ/ Act. 12.
J añañ maata/ er oss þad athugande/ vm þa Heiløgu Eingla Guds/ Ad þe
ir eru Sæler Andar/ þui suo stendur hier j Niðurlage Gudspiallsins/ ad þeir
siaae jafnañ Auglite Guds Fødurs/ huar af audrædet er/ ad þeir alla Reidu
eru ordner Hluttakarar þeirrar Eilijfu Sælu/ epter huørre vier bijdum/ Vid
huørria Sælu og Dyrd/ eckert kañ ad jafnast.
J þridia lage eru þeir Heiløgu Guds Einglar soddañ Andar/ sem stadfast

 er eru.

er ecki vordner j þui enu Gooda/ so Omøgulegt er/ad þeir kune hier epter fra Gude ad falla/ Huørs vegna þeir verda kallader Utvalder Andar/1. Tim. 5. Nu ef vier viliu[m] komast til þuilijkrar Dyrdar og Vegsemdar sijdar meir/og meiga fa ad siaa Gud/Auglite til Auglitis/So verdum vier ad hreinsa oss/af øllum Saurugleika Holldsins/ og Andans/ þuiad sæler eru Hreinhiartader/ þui þeir munu Gud siaa/ Matth. 5.

J fiorda mata eru Einglarner Begafader/ med Herlegu[m] qvalitetum/ og Eigenlegleikum/ so sem er/Fyrst med mykellre Visku/ huøria sialfur Gud Jnn plantade hia þeim/strax j Upphafe Skøpunare[n]nar/En[n] samt skulum vier vita/ ad Einglan[n]a Viska er ecke Jnfinita/edur Oendanleg/eins og Viska sialfs Gudds/þui ecke vita Einglarner allt/einkanlega þad jn[n]ra/sem j Hiartanu er hulid og duled/þad er øngre skapadre Skiepnu giefed ad vita. Drottin[n] Gud er sa eirn/sem Rannsakar Hiørtun/ȝ Nyrun/þar fyrer fara Papistar villt/þa þeir Tilbidia Einglana/so sem siaa maa af þeirre Litaniu/sem þeir syngia j sijnum Kyrkium/Audi nos Michael Angelorum summe/et cet. Pad er/ O Michael Hø fud Eingell/ heyr þu vora Bæn/ Þetta og an[n]ad þuilijkt/ er ein Gutvirdeleg Affgudadyrkun/þui Gud vill ecke giefa ødru[m] sijna Dyrd/ Einglarner girnast ȝ ecke helldur slijka Æru ad lata sier tilleggia/So sem liost Dæme er ad siaa/a þeim Eingle/sem byrtest Johan[n]i/sem lesa maa/ Opinb. B. 22. Cap. Þui þa Johan[n]es villde falla fram[m] a sijna Asionu/til Jardar og tilbidia han[n]/þa sagde Eingillen[n] til hans/siaa þu til þu giører þad ecke/þui eg er þin[n] Medþienare/ vilier þu bidia/ þa tilbid þu Gud.

Pad fiorda sem oss er athugande/um þa Heiløgu Guds Eingla/er þad/Ad þeir eru sterkar og Auflugar Kiempur/so sem David nefner þa/Psalm. 103. Þeir kallast og so Einglar Kraptarens/2. Tess. 1. Jtem/Tronar/Høfdingiadoomar/og Valldstietter. So lesum vier og so j Heilagre Ritningu/huørsu þad/ad eirn Eingell j Hel sloo/a eirnre Nootttu/alla Frumburde j Egypta lande/Exo. 13. J sama Mata j Hel sloo eirn Eingell j Herbudum Sen[n]acheribs Hundrad attatiju og fim[m] Þusunder Man[n]a/ a eirnre Nootttu/so sem lesa maa/2. B. Kong. 19. Cap. Og so vijdar j Bybliun[n]e verdur slijks gieted. Sie nu þar fyrer Diøfullin[n] og hans Brædur/ þad er su Ogudlega Verølld/ suo Sterk og Megtug sem hun vera kan[n]/þa Huggum oss samt þar vid/ad Einglar Guds eru Þusundsin[n]um sterkare/til ad vernda oss/ ȝ vardveita.

Framveigis skulum vier vita/ad Guds Einglar eru Skyrlyfer Andar/og þui kallar sialfur Herran[n] Christur þa Heilaga Eingla/Luc. 9. Vilier þu nu Christin[n] Madur/ ad Guds Einglar skule vera þier Nalæger/ þa mundu þig/ ad þu siert Skyrlyfur/og epterfylger Helgunen[n]e/ an huørrar eingin[n] kan[n] Gud ad siaa/Eb. 12.

Nu er oss hier en[n] framar vel athugande/huørt ad sie Embætte þeirra Heilógu Guds Eingla/en[n] vier skulum vita/ad þad er tuøfallt. Fyrst uppa Guds Sijdu/Og so þar næst uppa vora sijdu Man[n]an[n]a. Uppa Guds sijdu/þa

er þad fyrst þeirra Embætte/ad Lofa og prýsa Gud Oaflætanlega. Þessa Lofgiørd byriudu þeir strax j Upphafe Skøpunareñar/þa Gud skapade Himen og Jørd/og allar Skiepnur/ Og þeirre hiñe sømu Lofgiørd hallda þeir eñ nu æ Lopt/þar þeir standa frame fyrer Stoole Guds og Lambsins/seigiande/og syngiande/ Heilagur er Gud Fader/ Heilagur Guds Sonur/ Heilagur Gud Helgur Ande. Jæ/Heilagur er hñ j siñe Guddomlegre Veru/Heilagur j sýnum Guddoomlegum Vilia/og Heilagur j sýnum Verkum/Esa. 6.

Lærum oss og eirniñ taka vnder med þeim Heiløgu Aundum/og Lof syngia vorum Gude/þui þad er eirn Agiætur Hlutur seiger David/ad þakka Drottne/ og syngia þýnu Nafne Lof/ þu hiñ allra Hædste/ ad Morgne þyna Nád/ z ad Kuøllde þiñ Sañleika ad kuñgiøra/Psalm. 92. Eñ þesse vor Lofgiørd æ ecke alleinasta ad skie med Muñenum/Helldur eiga Muñur og Tunga/ Siñe og Sæl/ad fylgiast ad/og samhlioda z vid Gudlegt Mæl/þui so seiger Ande Guds/ fyrer Muñ Spamañsins Amos/ 5. Cap. Tak fra mier þitt Psalma bulldur/ þui eg giet ecke heyrt þitt Psalltaraspil. Huar fyrer? þui þad kom ecke af Hiartanu.

J añañ mæta/er þad Embættis skyllda Einglaña/ad standa frame fyrer Stoole Lifanda Guds/ verande ætýd Reidubwner hønum ad Þiona/ og reka hans Erende/Psalm. 103. Nu so sem þad/ ad Einglarner eru jafnañ Ferduger/til ad giøra Vilia Drottins Guds vors/ So eigum vier og ecke helldur/ ad vera treger og stamer/ til þess/ad giøra vora Embættis Skylldu.

J þridia mæta/er þad Embætte Einglaña/ad vera oss Møñunum til Goda/og vernda oss æ mote margfalldre æstrýdu/og Umsætrum Diøfulsins/og Vondra Maña/huar oss liggur stærsta Magt æ/Einkanlega nu æ þessum sýdustu Týmum/Þar Andskotiñ med sýnum Þienurum/vm kring geingur/so sem eitt Grenjande Leon/ og leitar ad þeim/ sem hañ og þeir meige vppsuelgia/ Þar fyrer liggur oss stoor Magt þar æ (seige eg eñ) ad vier bidiñ Gud af Hiarta/ med Læresueinunum Herrans Christi/ sem geingu til Emaus/ Vertu hia oss Herra/ þuiad Kuøllda tekur/ og æ Dagiñ lýdur/ Luc. 24. Cap. Eñ nær Gud er med oss/ huør kañ þa ad vera æ moote oss? Þa Megnar og orkar Diøfulliñ og hans Aarar/ei helldur hans Limer og Þienarar/ neitt æ moote oss/epter þui sem vier syngium/ j vorum Kyrkiu Psalme. Þo være af Diøflum Verølld full//og villde oss suelgia alla/veltækest þo vor Efniñ øll/eckert kañ oss þui hrella/et ct. Hier vm mætte margt fleyra framsetiast/Þui huad mykiñ Oroa Stiftar og framkuæmer Diøfulliñ j øllum Stiettum. Fyrst j þeirre Andlegu Stietteñe. Mun hñ ecke opt z osialldañ Nidursaa þar Illgrese sýnu j bland Hueitesins/ og hindra þa sem eiga ad Kieña og Predika Guds Ord. Huad opt burttekur hañ Ordid/wr Hiørtum Tilheyrendaña/so þeir skule ecke Trwa/og verda Hialpleger/Luc. 8. Huad skulum vier seigia vm þa Veralldlegu Stiettena/ O Herra Gud/Huilýkum Oroa/Strýde og Bloods. Vthellingu/ kiemur hañ þar af stad? huad ecke er ad Vndra/

 þui

þiñ hañ er eirn Mañdrapare og Mordinge j fra Vpphafe. Ecke sier hañ helldur j Fride Hwsstiornarstiettena/ þui huad oft kiemur hañ vpp Osamþykke/ Agge z Deilum/ a mille þeirra Persoña/ sem þar jñe lifa/ Þad er nu Þeignum lioosara/ og þarf ecke margt vm ad tala. Eñ huxrniñ sem øllu þessu er vared og hattad/ þa verum þo samt Hughrauster/ og Orfader/ þui vier eigum eirn goodañ og Giæskurijkañ Fødur a Himnum/ sa oss kañ ad Hialpa/ j allskyns Raunum og Mootlætingum/ Sia/ hañ sem vardveiter Jsrael sefur ecke/ og ecke syfiar hañ/ seiger hiñ Heilage David/ Psalm. 121. Og huønær hellst sem Diøfulliñ vill vekia nockurn Oroa/ þa er Gude audvellt þad ad hindra/ þui Diøfulliñ er so sem añar Hleckia Hundur/ og hefur ecke suo mykeñ Magt/ ad hañ af sialfs sijns eigiñ Ramleik/ kuñe ad giøra eina Kws/ Exo. 8. Auk helldur hañ mune kuña/ ad snerta eitt minsta Haar a voru Høfde/ an Guds Vilia/ Matt. 10. Þar fyrer syngur so Christeleg Kyrkia/ Einglum sijnum hañ sette Bod/ ad sia til þijn/ og leida/ a Vegum þijnum/ þier veita stod/ og venda øllu til Greida/ þeir bera þig hægt a Høndum sijn/ suo huørge nææ þu Fæte þijn/ a minsta Steine ad meida. J einu Orde ad seigia/ Þeir Heiløgu Guds Einglar eru vorer Fylgiarar/ a øllum vorum Vegum/ eins og Raphael Eingell fylgde þeim Vnga Tobiæ/ Tob. B. 12. Þeir vaka yfer oss/ so Diøfulliñ giete ecke med sijnum Pienurū/ giørt oss nockurt Mein edur Miska/ Huørs vegna þeir verda kallader Sancti Vigiles/ þad er/ Heilager Vaktarar/ Dan. 4. Nær vier Mañeskiurnar sofum/ þa vitum vier ecke neitt huad vm oss lijdur/ eñ þa eru þeir Heiløgu Einglar vakande/ yfer øllum Guds Børnum/ Jæ/ þeir setia sijna Skialldborg z Vigge j kryngū oss/ so sm Spamaduriñ Zacharias seiger/ Jeg vil setia eirn Elldlegañ Mwr j kryngum þa/ Cap. 2.

Þeir Heiløgu Guds Einglar eru og eirniñ Amiñingar Andar vorer/ sem vara oss vid adskilianlegre Ølucku/ og Fære/ sem oss kañ ad henda/ Eins og þeir giørdu vid Eliam Spamañ/ þa hñ svaf vnder Einerberia Trienu/ 1. Reg. 19. C. Og Joseph Fosturfødr Herrans Christi/ Matth. 2. Þeir H. Guds Einglar eru ecke ad eins hia oss/ a medañ vier lifum hier/ helldur og so j sialfum Daudanū/ z Andlaats stundeñe vorre/ og bera Saaler vorar j Abrahams Skaut/ eins og Saal Lazari/ Luc. 16. Jæ/ j einu Orde ad seigia/ þad ad vier kuñum heiler og Heilbrygder a huøriam Morgne vpp ad standa/ z þ vier a Næturnar kuñum Rosamlega ad sofa/ þad eigum vier allt Eilijfum Gude ad þackka/ sem lætur sijna Blessudu Eingla giæta vor/ bæde j Vøku og Svefne. Hier mætte eirn og sierhuør hroopa vpp/ og seigia/ Æ Drottiñ/ Huad er Mañeskiañ þess/ ad þu miñest hañar/ og Mañsins Barn/ ad þu so vitiar þess/ Psal. 8. Og skal þetta so sagt/ vm þ fyrra Greinarkorned/ m z fæstu z einfølldustu Ordū.

## Auñur Greiniñ.

EPterfylger þad añad/ j stuttu Maale/ sem er þar vm/ Huørniñ vier eigum ad haga oss og hegda/ so vier styggū ecke þa Heiløgu Guds Eingla fra oss.

Þad

Þad kunnum vier ad læra/ bæde af Upphafe/ sem og af Nidurlage þessa Heila
laga Gudspialls/ þui so seiger Herrañ vor Jesus Christus hier/ Nema so sie
ad þier umsnueist/ og verded so sem Smaborn/ þa munu þier ecke jnga
nga j Himnarijke. Item/ Siaed til/ ad þier Forsmaed ecke eirn af þes
sum Vesalingum. So er þad þa tuent sierdeilis/ sem Herrañ vor Je
sus Christur/ giefur oss hier til Lærdooms/ og Eptertektar/ Þad fyrra er/ þui
ørnin þad/ ad vier eigum ad hafa Smabørnin fyrer vora Skoolameystara.

Fyrst eigum vier sem Elldre eru/ þad af Børnunum ad læra/ ad vera Aud
miuker/ og Lytelatter/ þui þad siaum vier a þeim/ ad þau eru huørke Stollt
ne Hofmoodug/ jafnvel þo þau sieu af myklum og Ypparlegum Forelldrum
Gietin/ og Fædd/ So eigum vier eirnin/ ad varast alla Drambseme/ Hofmood &
Stergiæde/ Þui so stendur skrifad j Jobs B. 41. Cap. Ad Diøfullin sie Ko
ngur yfer øllum Dramblatum/ og huad hatt er hia Mønnunum/ þad er Sui
virdelegt hia Gude/ Luc. 16.

J añañ mata/ so sem þad/ ad j hia Børnunum finst ecke giarnañ Underfer
le/ Suik edur Pretter/ eins og hia sumumhuørium þeim/ sem Elldre eiga ad hel
ta/ So ætte og so huør Madur (sem vill lata sig af Helløgum Anda stioorn
adañ vera) ad varast Flærd og Underhyggiu/ og grafast ecke epter Embætte sij
ns Brooders og Naunga/ Heimuglega edur Openberlega/ so sem nu tekur til
þo ad verda miøg Almeñelegt/ a þessum Tymum/ ad eirn og añar vill grypa ep
ter añars Bestillingu/ og so sem añar Sollteñ Hrafn/ hripsa þad Sticke Bra
uds fra Muñenum a þeim/ sem Gud hefur einum til Uppheldis giefed.

J þridia lage er þad Art og Vysa Barnaña/ ad bera ecke stoora Umhygg
iu/ fyrer þui sem epter kañ ad koma. Þau leggia sig nidur a Koddañ/ til sij
ns Svefns/ og hyggia ecke neitt um þad/ huad ad Morgne kañ ad skie/ helldur
treysta sijnu Forelldrum/ ad þeir mune forsorga sig/ og lata sig ei bresta/ þad
þeim er Naudsynlegt/ til Lijfsins Næringar og Uppheldis. O huad sæler
værum vier þa/ ef vier giørdum slijkt hid sama/ og vørpudum allre vorre At
hyggiu/ uppa vorn Himneska Fødur/ Sañarlega munde hañ ecke lata oss þa
neitt vanta/ þad oss være Þarfsamlegt/ og Naudsynlegt/ til vorrar Lijfs
Næringar.

J fiorda mata er þad eitt Edle Barnakindaña/ ad þau eru stalldañ Idiu
laus/ so þau sieu ecke alltjafnt eitthuad ad Fitla/ & giøra sier til Skiemtunar.
So ætte huør og eirn/ ad vera Idiñ og ætstundunarsamur/ j sijnu Kalle & Em
bætte/ & taka jduglega Vara a þui sem hønum ber ad giøra/ epter þui sem Post
ulin aminner oss/ j Pist. til Rom. 12. seigiande/ Hafe nockur Embætte/ þa gie
te hañ þess Embættis.

J fimta mata er þad eitt Lofsverdt j Fare Barnaña/ Ad þegar nockur
bidur þau med Goodu/ ad giefa sier eitt edur añad/ sem þau hafa medferdis/
þa giøra þau þad strax/ og feintia ecke neitt þar um/ huørt hañ sem þau bid

 ur/

ur/er þess verdugur/ad þau giefe hønum þad/edur ecke. So er þad og so Christelegt og tilheyrelegt/ad vier svo sem Endurfædd Guds Børn/ komum þeim Voludu/Fatæku z Aumu til Hialpar/og giørum þeim til Gooda/j Guds Nafne/epter Efnum/so sem Ande Guds/bydur oss og skipar/Matth.6. Cap.

Siæum til( mijner Elskanleger )J slijkañ og añañ margfalldañ Mata/mega Smæbørniñ vera vorer Skoolameystarar/ og Hwsprestar/og þetta er nu þad hid sama/sem Herrañ Christur miñest hier a/og seiger j þessu Gudspialle/ Ad nema so sie/ad þier vmsnwest/og verded so sem Smæbørn/ þa kuñe þier ecke jñ ad ganga j Guds Rijke.

A sijdustu eigum vier ad fordast/ad giefa nockrum jll Epterdæme af oss/hvørt helldur þad er j Lærdoomenum/edur Lifnadenum. Prestarner og Kieñemeñerner eiga ecke ad vera eins og adrer Vindhanar/ eda vera j ymsum Hoopum/ og hallda stundum med Papistum/ stundum med Calvinistum/ stundum med þeim og þeim Villumøñum og Kietturum/ helldur blyfa fast vid þañ Rietta Lutheraniska Lærdoom. Nu/Vier vilium hier vid læta standa/j þetta siñ. Þeim Eina og Sañа Eilyfa og Almættuga Gude/ Fødur/ Syne og Heiløgum Anda/ sie Lof og Dyrd/ Heidur og Þackargiørd/Nu hiedan j fra/ og ad Eilijfu/Amen/Amen.

# Atianda Suñudag epter Trinitatis.

Evangelium/Matth. 22.Cap.

Þañ Tijma. Þa Pharisearner heyrdu þad/ ad hañ hafde nidur þaggad þa Saduceos/ samañsofnudust þeir j eitt. Og eirn Løgvitringur af þeim/spurde hañ ad/Freistade hans og sagde/ Meystare/ Hvort er hid hædsta Bodord j Løgmæleun? Eñ Jesus sagde til hans/Þad/Ad þu skalt Elska Drottiñ Gud þiñ/af øllu Hiarta þijnu/ og af allre Aundu þiñe/ og af øllu Hugskote þijnu/ þetta er hid fyrsta og stærsta Bodord. Eñ hitt añad er þessu lijkt. Þad/ ad elska skalltu Naunga þiñ so sem sialfañ þig. J þessum tveimur Bodordum/ er jñebunded allt Løgmaal og Spameñerner. Eñ þa Pharisearner voru so til samans komner/spurde Jesus þa ad/z sagde. Hvad virdest ydur vm Christ/hvørs Son hañ sie? Þeir søgdu hønum/Davids. Hañ sagde til þeirra. Hvorniñ kallar David hañ þa j Anda eirn Herra? Þar hañ seiger. Drottiñ sagde mijnum Drottne/ Sit þu mier til Hægre

Handar

Nandar/ þangad til ad eg legg Ovine þÿna til Skarar Fooka þinna. Nu ef David kallar hañ Herra/ huerneñ er hann þa hanns Sonur? Og eingeñ gat suarad hønum einu Orde. og eige dyrfdest nockur vpp fra þeim Deige hann framar ad spyria.

# Exordium.

VIEr lesum (Elskuleg Guds Børn) j Exodi Bookar 25. Cap. Ad Gud Drottiñ baud Moysi/ Ad giøra eitt Nadarstool af Skyra Gulle/ Og þar yfer tuo Cherubim/ Huørier syna Vænge skulu wtbreida ofan yfer/ so ad þeir hylie Nadarstooliñ med synum Vængium/ og huørs þeirra Andlit skal standa huørt j moote ødru/ og þeirra Andlit skulu horfa a Nadarstooliñ. Nu so sem þad/ þær Mosaisku Ceremonier voru allar so sem eitt Fyrermyndan/ vppa ꝥ Epterkomanda/ so er og eirniñ þesse. Þuiad Nadarstoolliñ merker Christum/ so sem Postuliñ Paall votter/ Rom/ 3. Og so sem þad/ Ad Gud talade vid Moysen og Israels Børn/ af Nadarstoolnum/ mille þeirra tueggia Cherubim. So hefur Gud Drottiñ/ fyrer þeñañ rietta Nadarstooliñ Christum/ talad vid oss/ og Openberad allt sitt Leyndar Raad/ vm vora Sæluhialp/ epter þui sem þar stendur/ Joh. 1. Gud hefur eingiñ nockurn Tyma Sied/ Sonuriñ sem er j Skaute Fødursins hefur openberad oss þad.

Þar næst stendur skrifad/ ad yfer Nadarstoolnum hafe vered tueir Cherubim sem hañ huldu. Huar fyrer ad merkia æ þau tuø Testamenta/ sem er þad Nya og Gamla/ j huørium Christur er huleñ/ þuiad allt huad oss er Naudsynlegt ad vita/ oss til Sæluhiapar/ ꝥ hlioottū vær ad læra af þui gamla z Nya Testamente. Ransaked Ritningarn^r seiger Herrañ Christr/ hia Joh: 5: Þui þier meined ydur j þeñe ad hafa eilyft Lyf/ Og hun er su/ huør af mier ber Vitne.

J þridia lage/ so sem þad/ Ad þesser tueir Cherubim/ horfdu huør æ moote ødrum/ So lytur og þad Gamla Testamentid til þess Nya/ og þad Nya til þess Gamla/ so ad/ huad hellst sem j þui Gamla Testamentenu er vanskiled/ þad er audskildara j þui Nya/ Og ꝥ sem j þui Nya Testamentenu er Openberad/ þad hefur ædur fyrre j þui Gamla Testamentenu vered fyrer sagt.

J fiorda mæta/ so sem þad/ ad þesser tueir Cherubim/ mattu ecke j burt takast/ wr Sættmaals ørkiñe/ suo leinge sem Nadarstoolliñ var þar jñe. Eins hliioota og so þesse tuø Testamenta ad ad fylgiast/ Kieñast og predikest j Ristelegre Kyrkiu/ suo leinge sem vier vilium behallda Herranum Christo/ þeim rietta Nadarstoolnū hia oss. Og med þui ad Herrañ Christur var sa sañe Læremeystariñ/ sem af Gude var kominñ/ ad kieña oss Guds Gøtu j Sañleika/ so sem þar stendur hia Matth. 22. Cap. So hefur hañ og viliad med synu Epterdæme/ giefa øllum Ordsins Þienurum/ wt j fra/ eirn Leidarvyser/ huørsu þad/ þier skylldu Kieña vel z trwlega/ bæde þad gamla og Nya Testamentid/ þad

X

id/þad er/Løgmæled og Evangelium/og þess vegna framsetur hañ fyrer oss/ j þessu Heilaga Gudspialle.

Fyrst/Huørnin̄ þad vier eigum ad elska Gud og vorn Naunga wt af Løgmælenu. Þar næst framsetur hañ Lærdoom/vm syna Personu og Embætte/ wt af Evangelio. Og vm þetta huørtueggia viliū vier stuttlega høndla/ ad þessu siñe. Gud giefe ad þesse vor Idia/ mætte verda hans Heilagasta Nafne til Lofs/Eñ oss til Sælargagns/j Jesu Nafne/Am̄.

# Vm þad fyrra.

IVpphafe þessa heilaga Evangelij hliodar so. Þa Pharisearner heyrdou þad/ ad hañ hafde nidur þaggad þa Saduceos/ samañsefnudust þeir j eitt/og eirn Logvitringur af þeim, spurde hañ ad/Freistade hans og sagde/Meystare/huørt er hid hædsta Bodord j Logmælenu.

Orsøk og Efne til þessa Spursmaals/sem Pharisearner framsettu hier/ fyrer vorn Endurlausnara Jesū Christū/var su/Ad hñ hafde nylega nidurþaggad þa Saduceos. Eñ þesser Saducei voru þeirrar Meiningar/ad þar munde eingiñ Vpprisa Framlideña til vera. Þessare siñe Vantrw til styrkingar/framsetia þeir fyrer Herrañ Christum eina Spurning/so seigiande. Moyses hefur sagt/þa nockur Andadest/ og hefde ei Børn epter/þa skyllde hans Brooder eiga hans Eigenkonu/og vppvekia synum Broodur Sæde. Eñ hia oss voru sio Brædur/Hiñ fyrste fastnade sier Konu/og hañ andadest/Og af þui hañ hafde eckert Sæd/liet hañ Broodur synum epter syna Eigen konu/Lyka ia añar/og hiñ þridie/allt til hins siøunda. Eñ sydast epter alla/þa Andadest z Konañ/ Huørs þra sio/verdur hun Eigenkona j Vpprisuñe/þui aller þeir hafa hana haft? Eñ Jesus suarade/og sagde til þeirra/þier villest/og vited ecke Ritningarnar/nie helldur Guds Krapt/Þuiad j Vpprisuñe munu þeir huørke Kvongast nie sig Kvonga lata/Helldur eru þeir sem Einglar Guds a Himne/Hafe þier ei lesed af Vpprisu Framlideña/huad af Gude er ydur sagt/er hañ seiger? Eg er Gud Abrahams/og Gud Isaachs/ og Gud Jacobs/ Eñ Gud er ecke Gud Daudra/ helldur Lifande Maña. Og er Folked heyrde þetta/ vndradest þad hans Kieñing/og þeir þøgdu/og geingu j burt. Þegar nu þetta Samtal Herrans Christi og Saduceaña kom fyrer Phariseos/þa þocknadest þeim j þelle nidre vel/ ad Christur hafde nidurþaggad þessa Rangsnuwna Villumeñ/enn samt sem adur/bio þeim þad j Giede/ad Christur skyllde hafa þad giørt/þui þeir voru hrædder/ad hañ munde faa þess meire Vñustu af Folkenu/sem hañ liete ecke pleyre soddañ Stycke epter sig liggia/ Þar fyrer koma þeir til samans/ og alyckta/ad eirn af þeim skule framsetia eina Disputatiu/ fyrer Herrañ Christum/allra þeirra vegna. Eñ huør munde þa Personañ vera/sem þeir wtvøldu/til ad Disputera a moote vorum Endurlausnara? Ecke tooku þeir þann Lakasta til þess/ Helldur seiger Gudspiallamadurin̄/ ad þad hafe vered eirn

Logvitringur

Løgvitringur/sem j Løgmálenu var vel forfarin̄/og þar til eirn mykell Mæ-
lsku madur. Huørt var þa Disputatiu Efned? Gudspiallamadurin̄ vottar/
ad þesse Løgvitringur hafe Freistad Herrans vors med þessare Spurningu/&
sagt/ MEYstare/HVørt Er Hid AEDsta BOdord J Løgmálenu.

Hier af høfum vier oss þad til Lærdooms ad taka/Huørsu þad/Diøfullin̄
hefur vered alla Tijma jden̄/og ástundunarsamur/til þess/ad Offsækia Christ-
um/og hans Lærdoom. Phariscarner høfdu fyrer stuttu sett fram̄ fyrer han̄
eina Vandasama Spurning þar um/huørt Leyfelegt være ad giefa/Keysaran-
um Skatt edur eige/Og sem Herran̄ Christur hafde þeim anægianlega þar til
suarad/Siá/þa framkoma strax Saducei/ og framsetia adra Spurning/ um
Vpprisu Framlidin̄a. Og j þridia sin̄/ þa han̄ hafde og suo þessa nidur
þaggad/þá kiemur Diøfullin̄ en̄ vppa nytt/Phariseiunum/til ad Freista hans/
med þeirre Spurningu/huørt ed være þad AEdsta Bodord j Løgmálenu/ suo
Herran̄ Lyfsins hefur valla haft Frid/ fyrer þessum Blygdunarlausum Sk-
álkum/so þeir hafe ecke ad hønum høggved/huar sem þeir hittu edur sau hn̄.
Lætum oss þar fyrer ecke þykia þad nein Vndur/þo en̄ nu at þessum Døgum
meige finast/jller og Ogudleger Men̄/ sem ecke spara ad ásækia a alla Vega/
Gudhrædda og Trwlynda Herrans Christi Þienara/ og setia fram̄ fyrer þa
Klooklegar Spurningar/so þeir giete um Koll kastad/þeim Heilsusamlega/&
san̄a Lærdoome/ En̄ hier fyrer skulu þeir þo ecke sin̄e Skylldu gleyma/hell-
dur vera þess jdnare/og Astundunarsamare j þui/ad framfylgia sijnu Kalle &
Embætte.

Nu viliu̅m vier framveigis þa ad heyra/huørniu Herran̄ vor Jesus Christ-
ur/suarar þessum Løgspekinge/vppa sijna Spurning. Ecke þeiger hn̄ Blessad-
ur/edur hufar sig um/huad hn̄ skule hier til suara/ Þuiad j hønum eru hulder
aller Fiesiooder Viskun̄ar/og Vidurkien̄ingarin̄ar/Col. 2. Cap. Helldur tekur
han̄ so til Orda/og seiger. Þu skallt elska Drotten̄ Gud þin̄/af ollu Hia-
rta þijnu /og af allre Aund þin̄e/og af ollu Hugskote þijnu. Þetta er
hid fyrsta og stærsta Bodord/ En̄ hitt an̄ad er þessu lijkt/Þad/ad elska
skalltu Náunga þin̄ so sem sialfan̄ þig.

Tuent er oss hier athugande. Þad fyrra áhrærer Elsku þa/sem vier eigum
ad hafa til Lifanda Guds/og huørnin̄ hen̄e á ad vera vared og hættad/ sem
er/Ad vier eigum ad elska han̄/ Fyrst af øllu Hiarta/ Þad er/Vier eigum ad
hafa han̄ kiæran̄/og elska han̄ yfer alla Hlute fram̄/so þar sie ungin̄ su Skie-
pna til/á Himne nie Jørdu/ ecke Kvin̄a/ecke Barn/ ecke Lijf/ Æra/Gots eda
Gardar/sem oss sie kiærara en̄ Gud Fader/ med sijnum Elskulega Syne/ Jesu
Christo/og þeim Verduga gooda Heilaga Anda/Þui so seiger han̄ sialfur/hia
Matth. 10. Huør han̄ elskar Fødur og Moodur meir en̄ mig/ sa er man̄ ecke
Verdugur/Og so sem þad/ad su rietta Mooduren̄ kun̄e þad ecke ad lijda/ad he-
n̄ar Barne være j sundurskift/ fyrer hen̄ar Augum/ J fyrre Kong. B. 3. C.


So

hugde ad drekia Israels Folke j Hafenu Rauda/eñ su Olucka kom nidur a hø num sialfum/Exo. 14. Haman liet giøra eirn Gaalga/ fimtyu Alna haañ/ handa Mardocheo/eñ so hoor/ ad hañ var sialfur j hønum heingdur/Esth. 7. Høfdingiar og Villdismeñ Kongsins Darij/ komu þui til Leidar/ ad Daniel skyllde verda kastad j Leonagrøfena/eñ Gud sa so til/ad hañ skadade þad ecke hellldur urdu þeir sialfer sundur rifner/ af þeim sømu Oarga Dyrum/ so sem lesa maa j Spaadooms Book Danielis 6. Cap.

Hier vid mega Hugga sig/ aller þeir/sem Ofsokner og Armaser lyda/af Skalkum og Vondum Mañum þessa Heims/ og vera Okuyduer/ þui þa Gud er med oss þa þurfum vier ecke ad ottast mørg Hundrud Þusund/þeirra sem legia sig allt vm kring a mote oss/seiger David/Psalm. 3. Þui hañ kañ þa Gud hrædu wr Freistinguñe ad frelsa/ ⁊ ad yferstadiñe Armædu þessa Heims/ ad giefa þeim Eilyfa Hugsld ⁊ Roo/j synu Dyrd'r Ryke/ huar þeir þurfa ecke fra mar ad kuyda/fyrer nockurskonar Ofsooknum/ helldur munu þeir bwa j Hwsū Fridarens/ og j Okuydeñe Roosemd/ so sem Spamaduriñ Esaias ad Orde kiemst/32. Cap. Huar til mier/ og øllum oss/ hialpe Gud Fader af siñe Naad/ Hußrium æsamt med synum Eingietna Syne/og Heiløgum Anda/sie Lof og Dyrd/nu og vm Allder Allda/Amen.

# Tuttugasta og fiorda Suñudag epter Trinit.

## Evangelium/Matth. 9. Cap.

J Þañ Tijma. Þa ed Jesus talade þetta hid sama til þeirra. Sia þu/ad Høfdinge nockur gieck ad/og tilbad hñ seigiande/Herra/Miin Dootter er nysalud/eñ þu kom/og legg þijna Hond yfer hana/og mun hun lifa. Og Jesus stod upp/ og fylgde hønum/og so hans Læresueinar/Og sia þu/ ad Kona/ huor ed hafft hafde Bloodfall j tolf Ar/ gieck a Bak til vid hañ/ og snerte Falld hans Klædnadar. Þui hun sagde med sialfre sier/Ef ad eg mætte ad eins snerta hans Klædnad/munde eg Heilbrygd verda. Eñ Jesus snerest vid/leit til heñar/og sagde. Vertu Hughraust Dootter/Þijn Trwa giørde þig Heilbrygda. Og a þeirre somu Stundu/vard Konañ Heilbrygd. Og þa ed Jesus kom jñ j Høfdingians Hws/og sa þar Lwdurþeitara/og Bulldran Folksins/ sagde hañ til þeirra/ Vikyed fra/ þuiad ecke er Stulkañ Daud/helldur Sefur hun/Og þeir Dærudu hañ. Eñ sem Folked var Vtdrifed/ gieck hañ þar jñ/og took j heñar Hond. Og

Stulkañ

Stulkañ stood vpp/ Og þetta Ryckte barst wt/vm allt þad sama Land.

# Exordium.

I Levitici Bookar 15. Cap. Lesum vier/ Ad Gud Drottiñ hafe gieff ed Israels Folke/ a medal añara/ þad Løgmaal/ Ad nær ein Kuiña hafde Bloodlaat/ a synum Lykama/ þa skyllde hun vera fyrer sig sialfa/ j siø Daga/ og huør hana snerte/ sa skyllde og so Ohreiñ vera allt til Kuølldz. Sama var og so vm þa Framlidnu/ Ad huør sem þa snerte/ sa ætte ad vera Ohreiñ j siø Daga/ so sem þar stendur/ Num. B. 19. Eñ Herrañ Christur fer ecke epter þessu/ þui bæde leyfer hañ og lydur/ ad su Bloodfallssiuka Konañ snerte sig/ Þar med lyka hrærer hañ sialfur med sinne Signudu Hende/ vid þa Framlidnu Jairi Dottur/ Huar med hañ villde Opinberlega hafa synt og beuysad/ þad hañ være einn Herra yfer Løgmaalenu/ sem ønguva Saurgan tæke/ helldur være hañ myklu framar komiñ hingad j þeñañ Heim/ til þess/ ad hañ hreinsade sier sialfum eitt Folk tll Eignar/ sem kostgiæfed være til goodra Verka/ Tit. 2.

Eñ lyka so sem þad/ Ad þær Bloodfallssiuku Kuiñurnar/ voru wtelucktar af Tialldbwdiñe/ j þui Gamla Testamentenu. Eins hefdum vier og so ordid wteluktet ad vera/ vegna vors Jñra og Andlega Saurugleika/ fra þeim Eilyfu og Himnesku Tialldbwdum/ hefde vor Blessade Endurlausnare Christur Jesus/ ecke hreinsad Saaler vorar/ af þessum Ohreinleikanum/ huar fyrer oss ber ad seigia hønum/ Eilyfar Hiartans Packer. Og vilium vier æ leingra Jñgangs/ taka oss fyrer Hendur/ ad skoda og yfervega/ þetta Heilaga Evangelium/ og þad j tueimur Smærgreinum Stuttlega yferfara.

Hin fyrre skal vera vm þad mykla Dasemdarverk Herrans Christi/ þar hañ vppvakte af Dauda/ þa Vngu Jairi Doottur.

Añur vm þa Bloodfallssiuku Kuiñuna/ Og huørsu þad/ Herrañ Christur gaf heñe syna Heilbrygde aptur/ med þui fleyra sem hier ad hnyggur/ og oss mæ til Lærdooms/ Huggunar/ og Betrunar koma.

Nu/ Sa Ædste Hialpare og Styrkur/ Drottiñ vor Jesus Christus/ sende oss syna Naad og Hialp/ so vier mættum nockud goott hier wt af Læra/ og oss til Nytsemdar færa/ Amen.

# Fyrre Greiniñ.

J Vpphafe Gudspiallsins stendur so. Og þa Jesus talade þetta hid sama til þeirra/ Sia þu/ Ad Høfdinge nockur gieck ad/ og tilbad hañ seigiande/ Herra/ Myn Dootter er Nyfalud/ eñ þu kom/ og legg þyna Hønd yfer hana/ og mun hun lifa.

Fyrst er oss hier athugande/ Vm huad Herrañ Christur hafe vered ad tala/ þa þesse Høfdinge Jairus kom til hans/ sem er/ Hañ var ad Andsuara Lære

 sueina

sueinum Johañis/vppa Spurning þa/sem þeir framsettu fyrer hañ/so sem les
oost er af sama Capitula/ sem þetta Heilaga Evangelium stendur j skrifad-
Huar af vier høfum þad ad Læra/Huørsu Astundunarsamur/ꝛ Kostgiæfiñ/
ad vor liufe Endurlausnare hafe vered alla tijma/j þui/ad Kieña/Predika ꝛ
Vppfræda j Guds Orde/sijna Tilheyrendur. Eñ þessa mille/sem hañ var þad
ecke ad giøra/Þa var hans Jdia ecke øñur eñ su/ad ganga vm kring/ giøra til
Gooda/og Græda alla þa sem af Diøflenum voru vnderþryckter/ Postulaña
Giørn. 10. O Gud giæfe/ad vorer Prestar og Kieñemeñ/villdu j sama mæ
ta/æstunda og kostgiæfa/af allre Alwd/ad wtbreida Guds Ord/og kieña þad
sem flestum/so Guds Ryke mætte Vppbyggiast/eñ Diøfulsins Ryke nidurbri
otast. Jæ/ Gud giæfe og suo/ad þeir sem Herrañ hefur lænad Aud og Ryke
dæme/Gots ꝛ peninga þessa Heims/þeir villdu hafa Gud fyrer Augum sier/
og aptur lwka ecke sitt Hiarta/fyrer þeim Aumu og Voludu/ fyrer þeim siu
ku og Særu/ helldur giøra þeim gott/ þui øngvañ liet Christur syniande fra
sier fara/af þeim sem til hans komu/ so hñ añadhuørt kiende þeim ecke Guds
Ord/þeim til Sæluhialpar/edur Læknade þa/og giørde þeim til Gooda/ept
er þui sem hañ Blessadur sæ/ ad huør hafde Þørf og Naudsyn fyrer/suo sem
Lioosleg a mæ siæ/bæde af þessu Heilaga Evangelio/sem ꝛ vijdar añarstadar.

Þad añad/sem vier høfum ad athuga/ wt af þessu Heilaga Gudspialle/ er
þad/ Huør og huilijkur ad vered hafe þesse Madur/sem kom til Herrans Chr
istum/og bad hañ ad giøra sijna Doottur aptur Lifande. J Textanum stend
ur/ad þad hafe vered Høfdinge nockur. Eñ ecke var þad Veralldlegrar Stie
ettar Madur/ edur Strijds Høfdinge/helldur Skoolaherra/ edur Samkundu
Hwsins Høfdinge/sem Luc. vottar/8. Cap. Nafn hans seiger same Gud
spiallamadur Lucas/ad vered hafe Jairus/Huørt Nafn ad þijdest so myked
sem Opplystur/Huad hønum Soomde vel/og hæfde ad bera/þar Gud hafde so
Vpplyst hañ/ad hañ hafde feinged saña Þecking a Endurlausnara Heimsins/
Herranum Jesu Christo.

Hier verdur oss nu framveigis kient/ Huørtar Dygder og Mañkoste/einum
Skoolameystara/ edur Kieñemañe/ bere ad hafa/ Sem er fyrst/ Ad þeim by
riar ad vera vel vpplystum/ ecke alleinasta j Lærdoomenum/ helldur og suo j
Lifnadenum/og Goodu Framferde/ so þeir giete þess betur Kient og vnder
vijsad/sijnum Skoolapilltum og Sooknarbørnum.

Þar næst eiga þeir/af Dæme þessa Høfdingia Jairi/ad læra/Ad vera Gud
hrædder/ og hallda sig til Jesu/ og giefa synum Tilheyrendum og Skoola
børnum/þar med gott Epterdæme af sier/vppa þad/þeir nidurbrioote þad ec
ke med añare Hendeñe/sem þeir Vppbyggia med añare.

J þridia lage byriar/ ad þeir sem j Kyrkium ꝛ Skoolum eiga ad þiena/Br
eyte epter Jairo/j þui/ad vera Lijtelater/eñ ecke Hofmooduger/vppblæsner/
og Hrokafuller. Jairo þotte þad einginñ Lægíng/þo hañ Audmykte sig fyr
er sijnum Ædsta Preste/og Sælusorgara Jesu Christo/og þeckte hañ fyrer siñ

Yfer herra

Yferherra/ſo Soomer þad z ſo vel/og hæfer/ad þeir ſem j Lægre Trøppu eru
veite þeim Tilbærelegañ Heidur/Æru z Virding/ſem yfer þa eru ſetter og ad
ra Embættis eru eñ þeir.

Nu vilium vier eñ framar yfervega/ Supplicatiu þeſſa Samkundu Hwꝰ
ſins Høfdingia Jairi/ſem oz eirniñ þad/ hwørniñ Herrañ vor Jeſus Chriſtus
þeñe giegnt hafe. Gudſpiallamaduriñ Marcus vottar/ ad hañ hafe falled fr
am fyrer Jeſum/Huar af merkia ma/Ad hañ hefur med Audmiuku og ſund-
urknoſudu Hiarta/jñelega beded hañ/ad hialpa ſier og ſiñe Doottur/ og giefa
ſier hana Lifande a Fætur aptur. Eñ hwørniñ verdur Jeſus þa vid þeſſare
hans Boon? Æ/ vel vard hønum Bleſſudum epter vana/ Þui hier ſtendur j
Textanum/ad hañ hafe ſtrax/STaded Vpp/ Fylgt Hønum/ Og Suo HAns
Læreſueinar. Þar nu Herrañ Chriſtur er ſo fws og Reidubwiñ ſtrax til
ad ganga med þeſſum Skoola Herra Jairo/ j hans Hws/ Þa verdur oſs
þar med ſyndt/Hwørſu þad/Ad ſu Andlega Stiettiñ/ og þeir þar jñe þiena/
eru Gude þacknæmeleger/og af hønum elſkader/ huar vid ad ſig meiga Hiart-
anlega Hugga/aller þeir ſem j Kyrkium og Skoolum eru kallader/til ad þio-
na Gude/og hans Søfnude/z vita þad fyrer vijſt/ad Herrañ Chriſtur er alla
Tijma Reidubwiñ/ad nalægia ſig til þeirra/z ganga med þeim/j þeirra Hws/
Bleſſa þa og giøra til Gooda/ Eñ j Eilijfu Lijfe munu þeir fullkomlega þar
Laun ſyns Erfidis/þui þar munu þeir ſkijna/ſem Himenſins Geyſlar/og lij-
ka ſem Stiørnur/vm Alldur og ad Eilijfu/ ſo ſem þar ſtendur/ j Spaadoms
Book Danielis/12. Cap.

Hier hafa ſier og eirniñ allar Fatækar og Naudſtaddar Mañeſkiur/ þad
til Huggunar ad taka/Ad Jeſus er jafnañ viliugur/til ad koma þeim til Hi-
alpar/þa þær ſier hia hønum Myſkunar og Hialpar leita/ j Riettre og ſañre
Trw. Þegar þeſſe Høfdinge Jairus kom til hans/þa var hañ Bleſſadur yfer
Maaltijd/j Hwſe Matthei Tollheimtumans/og hefur aan Efa haft yfer Bor-
de/marge Naudſynlegt ad tala/og fram̃ſetia/fyrer hina adra Bordſitiendurn-
ar/Eñ ſamt ſem ædur lætur hañ ſig þad ecke hindra/ helldur ſeiger Gudſpial-
lamaduriñ/ad hañ hafe ſtrax Staded Vpp/ Og Fylgt hønum.

Audruvijſe er þui hættad fyrer oſſ Møñunum/vær vilium ecke giarnañ la-
ta hindra oſſ edur kalla j burt fra Maaltyd vorre/ þa vier erum til Bords
ſeſter/Eñ ecke giører þad Jeſus Endurlauſnare vor/hañ tefur ecke vid/þa vi-
er kuſkum og køllum til hans/med eirnre heitre og Alvarlegre Bæn.

Þegar nu Herrañ Chriſtur var kominñ jñ j Hwſed med Jairo/þar ſem Lijk-
ed laa/þa var alla Reidu komed fram̃ vnder þad/ ad Lijkamiñ ætte ad beraſt
wt til Grafariñar/ þui Gudſpiallamaduriñ ſeiger/ ad þar hafe vered komner
Lvdur Þ Pitarar/edur þeir ſem Blieſu j Sorgarpijpur/ſo ſem Vijſa var/þa
nockurn Framlidiñ ætte ad Jarda/ Þar hafa og ſo vered komner til ſamans
Frændur og Viner/þeirrar Framlidnu Stulku/og heñar Forelldra/ ſem Lijk-
enu hafa ætt ad fylgia/til ſyns Legſtadar/ ſo allt hefur vered ſo ſem Sorg-

 ande

ande/og skwrande. En Herrañ Christur vmsnyr þessare Hrygd j sæla Glede/ a stuttum Tyma/Þuiad Forelldrana Huggar hañ/ og bañar þeim ad Grata/ & bera sig jlla/eñ hinū ødrū skipar hñ ad ryfia fra/& fara heim aptur til sijns Heimilis/þui þar mune ecke verda af neirne Lyfsylgd ad þui siñe/ ÞVJAD Stulkañ sie ecke Daud/ helldur sofe hun/og sem Folked var wtdrifed/ þa seiger Gudspiallamadurin/Ad hañ hafe geinged jñ/og teked vm heñar Hønd/og Stulkañ hafe staded vpp. Marcus og Lucas skrifa/ ad Herrañ hafe talad nockrum Ordum til heñar/og sagt/ Stulká/ eg seige þier/ Rijs þu vpp/og strax hafe hun setst vpp. Hier af meigum vier Liooslega sia og merkia/Huad mykell Kraptur ad Guds Orde fylger/so þad sannast hier/sem hiñ heilage David seiger/j Psalm.33. So sem Drottiñ seiger/ so skiedur þad/so sem hañ befalar/suo stendur þad. Fyrer Ordeð hefur Gud skapad bæde Himen og Jørd/Gen.B.1. Fyrer Ordeð helldur hañ vid mage øllum skøpudum Skiepnum/Heb.1. Fyrer Ordeð hefur Christur Læknad þa hina veyku/Læted þa Hølltu ganga/þa Mallausu tala/þa Daufu heyra/þa Daudu vpprijsa. Fyrer Ordeð hefur hañ Diøflana wtreked. Fyrer Ordeð mun hñ a sijdasta Deige/kalla alla fram fi sig. Fyrer Ordeð giefur hañ oss og eirniñ/Eilijft Lijf og Saluhialp. Lætum oss þar fyrer/trwá hans Ordum/ so sem ad giørde þesse Høfdinge Jairus/En ecke giøra Gys ad þeim/eins & Folked/ vm huørt skrifad stendur/j þessu Gudspialle/AD þad Hafe dærad hñ.

Oss verdur hier og so til Lærdooms/ og Vppvakningar syndt/ og fyrer Siooner sett/ Ad Herrañ Christur er sa riette Meystare til ad hialpa/ bæde j Lijfe og Dauda/ þar hønum verdur hier ecke meira/helldur myklu miña fyrer/ ad vppvekia þessa Framlidnu Jairi Dootter af Dauda/ En oss/ad vekia eirn af synum Natturlegum Suefne/ Þar fyrer seiger hiñ Heilage David suo/ Psalm.68. Vier høfum eirn Gud/sa er Hialpar/ og þañ Drottiñ/ Drottiñ/ sem af Daudanum frelsar. Eirniñ syngium vier med Christelegre Kyrkiu/ j vorum Paaska Lofsaung so/og seigium/Synd Dauda/Diøful/ Lijf og Nad/ lagde Gud allt a hans Rad/hñ frelsar alla þa/sem hñ akalla/Kyrieeleison.

Þar fyrer/miñ Brooder og Syster/Sie Kross þiñ/ sem þu hlijtur ad bera stoor/þa skalltu vita/ad þiñ Hialpare Jesus/ er lángtū stærre/og hans Krap:z er sterkare/Þo þyn Piming synest þier ad vera so mykel/ad hun nær allt vpp j Himeniñ/ þa er þiñ Frelsare þo hærre/ eñ aller Himnar. Þike þier hun Diwpare eñ Siooriñ/þa Huggadu þig þar vid/Ad Nad Guds Fødurs/og hans Sonar Jesu Christi/ er Diwpare eñ Hafed/ og Afgruñ Helvytis. Og þo þar meige ad koma/ad allar Skiepnur/ so sem yfergiefe þig/og jafnvel hialpe þyns Hiarta/epter þui sm̄ David ad Orde kiemst/Þa hughreystu þig samt þar vid/ad þiñ Endurlausnare yfergiefur þig alldrei.

J þridia lage/ høfum vier oss þa Naaðuæma Huggun ad taka/ af Ordum Herrans Christi/þar hañ seiger/ Ad Ecke Sie Stulkañ Daud/ Helldur Sofe

Hun

HVn. Huar med hañ samlyker Dauda Riettrwadra Guds Barna/ vid eitt Sætañ Suefn/ þui so sem þad/ ad nær Meñ vilia leggia sig til Suefns/ þa pleiga þeir ad Afklædast/ synum huørs Dags Fötū/ & taka ecke neitt j Sæng med sier/ vtañ alleinasta eina litla Hwu a Høfudid/ & Skyrtu vtañ vm Lykamañ. Eins geingur þad til/ þa Daudiñ kiemur oss ad Høndum/ Vier afleggium þa þetta vort Jardneska Hreise/ og yfergiefum Gots og Garda/ Eigner og Odul/ og høfum øngva Vmhyggiu þar fyrer framar/ Eins og sa sem vært sefur/ man ecke neitt til þess/ sem hañ hefur geymt og epterskiled/ j synu Hwse og Hyrdslu. Þar næst/ so sem þad/ ad þeir sem leggia sig ad Sofa/ vona epter þui/ ad þeir mune ad Morgne Dags Heilbrygder vpp aptur standa/ Eins ha fa øll Riettrwud Guds Børn sier ad vænta/ eirnrar Gledelegrar Vpprisu/ a sydasta Deige. J þridia lage/ lyka sem þad/ Ad eingiñ veit fyrer vyst/ j huørre Sæng hañ mune ad Kuøllde Dags/ nidur leggiast til ad Sofa/ edur hu ad seint edur snema/ hañ mune ad Morgne vpp aptur vakna/ Helldur hlytur Gud og Nátturañ þar fyrer ad Rada. So kañ og eingiñ helldur ad vita huad nælægt eda fiarlægt hans Dauda Dægur sie/ þui Daudiñ er oss vyss/ eñ Daudastundiñ ovyss/ Þar f ættū vier & & alla tyma/ ad breyta epter þm forsialu Jomfrwnū/ vera vakande & til reidu/ huønær sem Kalled kiemur/ ad ganga a moote vorum Saalar Brwdguma/ Herranum Jesu Christo/ suo ad hañ jnleide oss med sier/ j hañ Himneska Gledeñar Sal. J fiorda mata/ lyka so sem þ/ ad þeir sem Sofa/ giøra eckert jllt af sier/ þeir syndga þa ecke/ eins & þa þeir eru Vakande a ferle/ helldur sofa þeir marga þa Ogiæfu af sier/ sem þeir hefdu añars kuñad j ad falla. Eins er þui vared fyrer þeim Framlidnu/ sem liggia og Sofa j synum Grøfum/ þeir syndga ecke meir/ þeir fiña þa ecke framar til nockurs Kuilla edur Krankdæmis/ þeir vita ecke par af margskonar Olucku/ sem yfer þa Vondu Verølld geingur/ Þeir kuyda ecke fyrer neinū Jllrædis mønum/ Tyrkium eda Tyrøñum/ Pioofum edur Ræningium/ Stryde/ eda Bloods wthellingu/ Hungre edur Drepsoott/ Þeim þyker ecke længt/ eins og þeim sem Andrøkur hafa/ þeir klaga ecke yfer leingd Tymans/ eins og vier pleigū ad kuarta/ vm leingd Næturiñar/ þa vier giettū ecke vel sofed/ þui þeim finst sa tyme/ sem þeir j Grøfunum Sofa/ ecke leingre eñ eitt Augnablik/ og so sem þad/ ad sa Nátturlege Suefniñ/ er sætare eñ Sikur og Hunang/ so mun & so Huyld su/ sem vier j Grøfunum byggium/ verda oss so Rixrkomiñ og Sætt smackande/ ad vier mundum ecke vilia (þo Kost a ættum) fyrer þusund Verallder vera komner aptur/ og velkiast vpp a nytt j þessum Heime.

J fimta mata/ lyka so sem þ/ ad þeir sem Erfidad hafa allañ Dagiñ/ fra Morgne til Kuøllds/ og miøg þiæder og þreitter eru ordner/ girnast Hiartanlega/ ad þeir meige þa ad Huyla sig sem fyrst. So ættum vier og suo/ sem Kross og Motgang høfum lided j þessum Heime/ & sadder erum ordner af Lyfdøgum vorum/ ad læta oss Hiartanlega længa epter þeirre Eilyfu Huyld og Rosemd/ yfervegande med oss þesse Syrachs Ord/ þar hañ seiger/ siñar Book

 ar 41. C

ar 41. Cap. O þu Daude/ huad vel giører þu vid Naudſtaddañ/ þañ ſem ad
er veykur og gamall/og veþſt j allre Sorg/og ecke hefur neitt betra til ad von
na/og epter ad bijda.

Ad ſijduſtu verd: Dauda/edur Afgange eins Chriſtens mans/Lijkt vid eirn
Sætañ Suefn/vegna þeirrar Eilyfu Sambwdar/z Vmgeingne/ſem vier mil
num hafa/epter þetta Lijf/ med øllum wtvøldum/þui ſuo ſem þad/ ad epter
þad vier høfum wtſofed vorn Natturlegañ Suefn/þa førum vier a Fætur/
og giörū oſſ glada og Lyſtuga aptur/med vorum Stallbrædrum/høfum good
ar og Vinſamlegar Samrædur vid þa/ Eins mun þad og ſo ſkie/ epter Vpp
riſu vora/a ſijdaſta Deige/þa munu þeir Vtvølldu vera til ſamans/j eirne Ei
lijflegre og Owtſkijranlegre Glede og Føgnude/ epter þui ſem ſialfur Drottiñ
talar og ſeiger/fyrer Muñ Spamañſins Eſaiæ 32. Cap. Mitt Folk mun bwa
j Hwſum Fridarens/j øruggre Byggingu/og j Ökiijdiñe Roſemd/Og ſkal þad
ſo ſagt vera vm þad fyrra Greinarkorned.

# Auñur Greiniñ.

Epterfylger med fæſtum Ordum/ ad miñaſt a þad ſeirna Greinarkorned/
vm þa Bloodfalls ſiuku Kuiñuna.

Þrent er oſſ j þeſſum ſydara Parte Gudſpiallſins vel athugande/ Þad fyr
ſta ahrærer Kranktdæme þeſſarar Kuiñu/ Gudſpiallamaduriñ Marcus/ gief
ur þui eitt ſierlegt Nafn/og kallar þad Suipu edur Refſe/Huart Hrijs Gud
hafde Kueñkynenu vppa lagt til Straffs/vegna vorrar fyrſtu Modur Evu.
Mattheus kallar þad Bloodfall/ Eirniñ Greiner hañ og ſuo liooſlega/ Hu
ad leinge ad þeſſe Konuſkiepna hafe af þeſſum Kuilla/ þiad og Þuijngud
vered/ſem er/ecke epter venjulegu Kueñmans Edle/einuſiñe j huørium Mand
de/helldur ſijfelldlega j Heil tolf ar. Gudſpialls Hiſtoriu Skrifariñ Lucas/
leggur þad hier og eirniñ til/ad hun hafe wtſooad/og Spanderad/allre ſiñe
Aleigu/vppa Lækniſ Meyſtara/vonande þeir munde gieta ſied eitthuørt gott
Raad til/ſo hun kyñe ad verda frij fra þeſſare ſiñe þungu Veyke/Eñ þad Hial
lpade ecke neitt/helldur var þad æ midur og midur/fyrer heñe.

Huar af vier meigum ſia og merkia/ad allur Lijkamlegur Læknisdomur/
og wtvortis Medøl/eru forgiefins/og til Onijtis/utañ ſo ſie/ad ſialfur Gud
legge þar ſijna Bleſſan til/Samt ber oſſ ecke ad foraktra þa/ſemGud hefur til
ſett og ſkickad/ad leita Mañeſkiuñe Lækninga/ þ Natturleg/z Leifeleg Med
øl/helldur ſkulum vier epterfylgia Raadleggingu þeſſ Vijſa Mans Syrachs/
og bidia Drottiñ fyrſt og fremſt vm Hialp/Laata af vorum Syndum/og giøt
ra Hendur vorar Oſtraffanleg^r/af allre Miſgiørd/ſijdañ bidia Læknismeyſt
arañ til vor ad koma/ og ſleppa hønum ecke j burt fra oſſ/a medañ vier þurf
um hans vid/Syrach 38. Og ſie þad Guds Vilie/ad vier ſkulum komaſt a Fæ
tur aptur/þa mun hañ Bleſſadur/ſialfur leggia ſiñ Krapt/til þeirra wtvortis
Medalaña/ſo þau verde oſſ Gagnleg/eñ ſie añars/þa þeinkiū med oſſ/ad vor
ſtund

stund mune fyrer Hende/og so sem Okomiñ ad eins/og seigum med hinum Sæl-
la Simeone/Nu lætu Drottiñ Þioon þiñ j Fride fara/epter Orde þijnu/þui
ad mijn Augu hafa sied þitt Hialpræd/et ct.

Vier høfum off og so hier wt af Huggun ad taka/sem er þesse/Ad þo Siuk-
doomur og Veykleike/sa sem Gud Drottiñ leggur einum og ødrum vppa/mei-
ge vera Lanngiædur/og ecke so fliootr fra vykia/sem vier añare giarnañ vill-
dum/þa giefum off þo samt til Frids/og Hugleidum/ad Guds Børn hafa slij-
kt hid sama orded ad Reina/ øngru sijdur eñ vier. O huad marger eru þeir
sem langvaranlega hafa mætt sitia/og Sultna/j Ofne ymeslegra Eymda/og
Harmkuæla. Tobias var Blindur/nær þui j fiøgur ar/Tob B. 2. Sa aume
Madur/sem sat vid Dyked Bethesda/ hafde leiged j Rør/ 38. Ar/ Joh. 5.
Eins lyka sa/sem sat vid Jerusalems Musteris Dyr/ og Hallcur hafde vered
j fra Moodur lijfe/sem lesa mæ/Post. Giørn. 3. Cap. Eñ allt vm þad/ øllū
þessum gaf Gud aptur vm sijder sijna Heilbrygde/þar þ skulum vier ecke efast/
þa Drotteñ leggur off Soott og Krankdæme vppa/ helldur kalla til hañs og
bidia hñ ad hialpa off/z þo hñ dragie Hialp sijna vndañ nockra stund/þa mun
hañ þo vm sijder/ heyra vort Kuein/ og koma off til Hialpar j hentugañ tijma
epter þui sem hann seiger sialfur/ J þægelegañ tijma Bænheyrda eg þig/ og a
Deige Hialpræðesins hialpade eg þier.

Þad añad/ sem oss er athugande j þessu ødru Greinarkornenu/ er þad/ huo
Trenenn þesse Konuskiepna/ hafe Hagad sier j þessum synum Krosse og þungū
Veykleika? Ecke gieta/ Gudspiallameñerner þess/ ad hun hafe leitad sier Olei-
þelegra Medala/añad huørt hia Diøflenum/edur hans Verkfærum/so sem ad
eru Tøfra og Fiølkyngis Meñ/helldur flyr hun til þess Ædsta Lækners allra
Meina/Herrans vors Jesu Christi/ og þ giører hun j eirne sterkre og øfluge
Trw/þui hun þeinker med sialfre sier/ ad kuñe hun ad eins snerta FAlld HA-
ns Klædnadar/Þa Munde Hun Heilbrygd Verda. Hier af vilia Papistar
Bevijsa þad/ad Klæde og Bein Heilagra Maña/ hafe eirn sierdeilis Krapt/z
Verkan med sier/til ad Lækna ymisleg Krankdæme/Eñ Herrañ Christur eign-
ar hier ecke sijnum Klædum þad/ þott su Bloodfalls siuka Konañ feinge sijna
Heilbrygde aptur/ helldur Krapte þeim sem wt af hønum gieck/ suo sem lioft
er af hans sialfs Ordum/ hia Lucam 8. Þar fyrer er þad ecke añad eñ Heim-
ska z Hieruilluskapur/sm Papistar lætast hier vm bullta.

Huad æ þa ad skiliast fyrer Klædafalldiñ Herrans Christi? Eda huørniñ þat
um vier hñ snert? Fyrer Klædafalld Herrans Christi/æ ad skiliast hans Gud-
doomlega Ord/og Nadar Fyrerheit/sem hañ off þar jñe giefur/Sem og eirn-
iñ þau Hæverdugu Sacramenta/þetta eru þau Riettu Klædiñ Herrans Chri-
sti/ huørium hañ er Vmskrijddur/ þar mættu( miñ Brooder og Syster )epter
hønum leita/þar mættu hañ fiña/med allre siñe Verdskulldan z Forþienustu.
Þar þ/þegar Synder þijnar þreingia ad þier/z su Bloodskulldiñ/ sem þu hef-
ur giørt z yfer þig felle/med þijnum Afbrotum/Angrar z særlar Sæl þijna
 og Samvitsku

og Samvisku/þa fiædu til/ad þu giører so sem þesse Blodfalls siuka Kuiña giørde/hun geck æ bak til vid Jesum/ og snerte Falld hans Klædnadar/ med siñe Likamlegre Hende/Eñ med Trwarhendiñe snerte hun hans Giæskurdka/ꝛ Fødurlega Hiarta. So ßæum vier og suo Christum snert/ og bræet vid hans Klædafalld/þa vier heyrum Rækelega Guds Heilaga Ord/Brwkum þau Hall verdugu Sacramenta Riettelega/ og hølldum oss suo fast vid hañ/med eirnre sterkre og øßlugre Trw/seigiande med Forþødurnum Jacob/Jeg sleppe þier eck ke Herra/þyer eñ þu heßur Blessad mig.

J þridia og sidasta mata/ er oss hier athugande/ huørniñ Herrañ Christur haße orded vid þessare Konuskiepnu/hier vm talar so Gudspiallamaduriñ/ og seiger/Eñ Jesus snerest vid/ leit til heñar og sagde/ vertu Nughraust Dootter/þyn Trwa gierde þig Heilbrygda.

Prent er oss j þessum Ordum athugande/ Pad fyrra er þad/ad Herrañ Christur virder hana so mykels/ad hañ ecke ad eins Hughreyster hana/ med liußum Ordum/helldur og eirniñ kallar hana syna Doottur. Par næst hroosar hañ heñe/ þyrer syna stødugu Trw/ þui æn heñar er Omøgulegt ad vier kun um Gude ad þocknast/Heb. 11.

Ad sydustu stendur hier j Gudspiallenu/ Ad þesse Kuiña haße orded æ þet tre sømu Stundu Heillbrygd. Hingad til haßde eingiñ Læfner gietad vñ ed Boot æ heñar Meine/eñ Herrañ Christur giører þad allt gott/med einu sy nu Orde/þui hans Ord er Krøptugt/og Almættugt/epter þui sem David vit nar/Psalm. 33. Og so sem þad/hañ kom þessare Konuskiepnu til Hialpar/ og gaf heñe aptur syna Heilbrygde/Eins mun hañ og so frelsa alla þa( sem hann æ kalla)Fra øllum Eymdum/og Harmkuælum/ sem þeir hlioota ad lyda/j þess um Eymdardal/og jñleida þa vm syder/j þañ Himneska Gledeñar Sal/Pang ad ad komast/og þar ad vera/med Gude/og øllum vtvølldum/vm Eilyfar All der/ Pad veite oss Gud Fader af siñe Næd/ Huørium med synum Eingieτna Syne ꝛ H. Anda/sie Lof/Dyrd ꝛ Packargiørd/ vm allar Allder Allda/ Amē.

# Tuttugasta og fimta Suñudag epter Trinit.

Evangelium/Matth. 24. Cap.



Pañ tyma. Jesus sagde til siña Lærersueina. Nær ed þier sieed Suiwirding Foreydslunar/ af huørre sagt er/ fyrer Spamañiñ Daniel/standande j Helgu stad. Nu ør sem þad les/hañ hygge þar ad. Nuotier þa eru æ Gydinga Lande/flyie þeir æ Fiøll/ Og huør hañ er æ Riafre/fare hañ ei ofan/nockud ad taka vr syñu Hwse/Og huør sem er æ Akre/snwe hñ ei aptur/ad taka vpp Kyrtel siñ

tet siñ/ Eñ vei Þungudum og Brioostmylkingum á þeim Dogum. Af þui bidied/ ad ydar Flootte verde ecke um Vetur/ og ei á Þuottdeige/ Þuiad þa mun verda so stoor Hørmung/þuilijk ad eige var/j fra Upphafe Veralldariñar/allt til þessarar Stundar/og ei helldur mun verda. Og nema ad þesser Dagar verde styttir/verdur eckert Holld Holped/Eñ þ Utvaldra saker/ þa skulu þesser Dagar styttast. Eñ ef nockr seiger þa til ydar/siáed/hier er Christr/eda þar/þa skulu þier ecke þui trwa/Þuiad þar munu upprijsa Falschristar/og Fals Spámeñ/og þeir munu giøra stor Tákn ⁊ Undur/so ad j Villu munu leidast/ef skie mætte/eirniñ Utvalder. Siáed/eg sagda ydur þ þ/Nu ef þeir seigia til ydar/siá/hañ er á Eydemørku/þa ganged ecke ut. Siáed/hñ er j Laumkofum/þa trwed eige/Þuiad lijka sem Ellding utgeingur af Uppgaungu/ og skijn allt til Nidurgaungu/ lijka so mun ⁊ vera Tilkoma Mañsins Sonar. Þuiad huar hellst ad Hræ er/ þangad munu og Ernerner safnast.

## Exordium.

J Skøpunar Bookariñar 9. Cap. Lesum vier um þañ Riettlætesins Predikara Noa/Ad hañ hafe epter Floodet/ teked til ad Planta Vijngarda/Og sem hañ Drack af Vijnenu/hafe hañ Druckiñ ordid/og legged Nakiñ j siñe Tialldbwd. Eñ sem hans yngste Son Cham/sá sijns Føddurs Blygdunar Lim/Spottade hañ hañ/Hvers vegna þa Noe vaknade aptur af Vijnenu/og fieck ad vita/huad hans Sonur hafde sier giørt/Þa Formællte hñ hønum/og sagde/Bølvadur verde Canaan/og hañ skal vera Þræll allra Þræla/á medal siña Brædra. Þetta má vel skiliast og Heimfærast/uppa Andlega Vijsu. Gud Drottiñ hafde sialfur Plantad sier eirn Kostulegañ Vijngard/j Friosømu Takmarke/ þañ sama hafde hañ Umgyrdt med Grioote/og Rootsett þar jñe kostulega Vijnkuiste/ so sem Spámaduriñ Esaias vottar 5. Cap. Fyrer þeñañ Vijngardiñ Drottins á ad merkiast og skiliast Søfnudur Guds/edur Christeleg Kyrkia/ huøria hañ hafde j þui Gamla Testamentenu stiptad/alleinasta hia Gydingum/sem voru af Abrahams Sæde/epter Holldenu/huørs vegna hiñ hellage David seiger so/Psalm. 80. Drottiñ/ Vijnvid hefur þu af Gydingalande burt flutt/ og fra Heidnu utreked/ og Jñplantad þañ hiñ sama/fyrer hønum hefur þu Veigiñ giørt/og læted hañ Groodursettast/so hañ hefur Landed uppfyllt. Eñ j þui Nya Testamentenu/er Christeleg Kyrkia ecke framar meir bundiñ/vid vist Foolk/helldur eru Gude vel þocknanleger/aller þeir sem hañ ottast/og giøra Riettvijsena/sem þar stendur/ j Postulaña Giørn. 10. Þetta er nu sa Andlege Vijngarduriñ/sem Gud Fader hefur Plantad/ med siñe Hægre Hende/ og Endurkeyptur er/med hans Sonar



Dijrmæt.

Dyrmætu Blode. J þeñan Vyngardiñ ſiñ/hefur Gud ſendt/z ſender eñ nu j Dag/Trwlynda Verkmeñ ſem þar jñe ſkulu þiena z Erfida/Ja/hñ hef: eina Hiartgrona z breñande Elſku til hans/vmlydur hñ z vonar ær epter ær/ad hñ mune ſæt Vynber af ſier giefa/eñ huad ſkiedur? Hañ giefur ecke añad eñ ſwr Ber af ſier/ eñ þar ꝥ lætur Gud þo ecke ſtrax þeñan Vyngardiñ ſiñ Vpprætt añ verda/helldur leitar Lags vid/huørniñ hñ meige Friooffgaſt og Blomgaſt/ ſeigiande/Huad ſkal eg þa giøra vid miñ Vyngard/ꝥ eg hefe ecke giørt? Eſ. 5.

Eñ med þui/ad þeſſe Vgglauſa Verølld/ſkeyter ecke neitt vm Guds Laang lundargied/og Þolenmæde/ helldur Vanbrwkar hana myklu meir og framar/ til ad hallda æfram j Syndum/ og allskonar Vondſku. Siaa/þa er ſem hann Bleſſadur vakne af Suefne/til ad Formæla ſoddañ Spotturum/og Yfertrod ſlumøñum/og Afmæ þa/ſo ſem lioos Dæme mæ ſiaa/a þeim Jeruſalems Jñ byggiurum/huøria Gud hafde þo ſierdeilis wtvaled/framar ødrum/ſier til Ei gnar og Eigendooms og giørt ſo margt og myked til Gooda/ So þad mætte vel ſeigiaſt vm þa/ſem Moyſes ſagde fordum til Jſraels Lyds/ Huar er ſo Dyrlegt Folk/huøriu Guderner hafa ſo nalæger vered/ ſuo ſem Drottiñ Gud vor/ſo opt ſem vier ækøllum hañ/ Deut. 4. Eñ med þui þeir j Jeruſalem/ gæfu eingiñ Sæt edur Good Vynber af ſier/helldur ſwr Ber/þar þeir høgudu ſier Suyvirdelega/bæde j Riettinguñe/Lifnadenum/og Framferdenu/ſem þeir kuñu alldrei ad forſuara/ þa kuñe Gud þad ecke leingur ad lyda/ helldur gaf hañ þeñan Vyngardiñ ſiñ/j Valld þeim Ølmu Villugølltum/og Grimu Refum huørier hønum hafa ſo Hryggelega Vmturnad/ſpillt og Fordiarfad/ bæde hid jñra og ytra/ad þar er ecke Steirn yfer Steine ſtandande epter kiliñ/ſo ſm ad Herrañ Chriſtur hafde þeim optlega fyrer ſagt/eñ þo ſierdeilis og einkanlega j þeſſu voru H. Evangelio/ Huørt vier vilium an leingra Jñgangs/ ſtuttlega ſkoda og yfervega/j tueimur eperfylgiande Smægreinum.

Og ſkal hin fyrre vera/vm Eydelegging Borgariñar Jeruſalem.

Añur vm Ending þeſſa Heims/med þui fleyra/ ſem vier kuñum oſſ hier wt af til Lærdooms/ Huggunar og Amiñingar ad taka. Gud ſende oſſ ſyna Naad/ſo vier mættum ſetta yfervega/hans Heilagaſta Nafne til Lofs og Dyrdar/eñ oſſ øllum til Saalargagns j Jeſu Nafne/Amen.

# Fyrre Greiniñ.

EJrn Obrygdanlegur Vottur/og Bevyſing Guds Fødurs Naadar og Myſk unar/vid oſſ Meñena/er þad/ad hañ lætur ecke alleinaſta vara oſſ vid þui/ ſem oſſ kañ ad ſkada vppa Saal og Lyf/helldur og eirniñ ſyner oſſ Veg og Mi del/huørniñ vier kuñu ad vmflyia yferhaangande Straff z Olucku/Amos. 3.

Dæme hier vppa høfum vier/ j þeſſu Heilaga Gudſpialle/ j huøriu Herrañ Chriſtur ſeiger fyrer/Nidurbrot Borgariñar Jeruſalem/eirniñ giører hañ þe im Jeruſalems Borgarmøñum hier/ſem allvyda añarſtadar/eiña ſkarpa Amiñ ing/og Vidværun/ad þeir take ſig vel j vackt/ſo ecke falle yfer þa/þad hræde

lega

lega Hefndar ſtrafp/ſem øllum Ogudlegum/og Ofyrerlaatſømum er fyrerbwed/ef þeir læta ecke af ſynum Syndum/og Gudlauſu Athæfe/ Og þar fyrer talar hañ ſo/og ſeiger/j Upphafe þeſſa Hellaga Evangely. Nær ed þier ſiaed Suyvirding Foreydſlunar/ af huørre ſagt er/fyrer Spamañiñ Daniel/ſtandande j Helgum Stad. Huad ad ſkiliaſt edur merkiaſt eige/fyrer þeſſa Suyvirding Foreydſluñar/ Þar vm hafa þeir Lærdu haft ymiſlegar Meiningar/Eñ tuær eru þær ſierleguſtu/ſem hellſt eru eptertakanlegar/& næſt komaſt þeſſu Efne.

Fyrſt er þad Meining Lærefedraña/ Ad hier fyrer eige ad ſkiliaſt Mynd/ edur Bylæte Keyſarans Tibery/huørt Pilatus liet jñſetia j Muſterid/jñ j þad Allra helgaſta/epter Pynu og Dauda vors Herra Jeſu Chriſti/til Spotts & Mynkunar vid Lagariett Gydinga/ſo ſem Joſephus Sagnameyſtare þar vm ſkrifar. Lærefaderiñ Auguſtinus Meinar og helldur/ Ad fyrer Suyvirding Foreydſluñar eige ad merkiaſt & ſkiliaſt/Strydsher þeirra Romverſku/ ſem ſo Aumkunarlega Brende og Bralde/allañ þeñañ Stad. Nabochodonoſor/Kónguriñ af Babilon/hafde ad ſönnu adur fordiarfad/og Eydelagt þeñañ Stad/eñ þo ecke ſo/ad Gud liete hañ ei aptur Uppbygdañ verda. Eñ ſu ſydare Foreydſlañ ſem Titus Veſpatianus giørde/ var længtum ſtærre og Vidbloodſlegre/huar fyrer hun mætte med riettu kallaſt Andſtygd og Suyvirding/hia þre fyrre/ þuiþadañ j fra/ var huørke Jeruſalems ſtadur nie Muſterid aptur Uppbygdt. Eñ Ecke olle þeim Jeruſalems Jñbyggiurum þad/ad Gud Drottiñ/liete ecke nooglega vid vara þa/vid þeſſu Hrune/og Eydeleggingu/Hañ ſende þeim ſyna Propheta/og Spameñ/ Jaa/ Hañ liet ſiñ Eingietiñ Hiartans Son/ſialfañ Perſonulega vmgangaſt med þeim/ og predika þeim Jdran og Yferboot. Sydañ þa þad hafde ecke ad ſeigia/ Advarade hañ þa med ymiſlegum Teiknum/ſem voru þeſſe/ Fyrſt ſau þeir a Himnenum/eina ſtoora og Ovenıulega Halaſtiørnu. Eirniñ Stryds Fylkingar j Loptenu/J Muſterenu ſialfu heyrdeſt ein Rauſt/ſem hroopade og ſagde/Lætum Oſſ Flya Burt Hiedañ/Lætum Oſſ Flya Burt Hiedañ/Su ſtoora Koparhurd Muſtereſins/Lauk ſier ſialfkrafa vpp nockrum ſiñum. Borgararner jñſt Stadar/vrdu Uppvægder/og Oſamþycker ſyn a mille/ ſo þeir ſneruſt eirn j moot ødrum/og giørdu eitt hrædelegt Mord/Dræp og Bloodbad/ſo Strætin voru full af Daudra Maña Bwkum. Þar a ofañ kom þeim vppa/ ſuo Megnt Hallære/og Hungurs Neyd/ ad þeir vrdu ad leggia ſier til Muns og Fædis/ſiñ eigiñ Preck/Dwfna Drit/Skoobætur/og añad þuilykt/ſo ſem Joſephus med mørgū Ordum þar vm ſkrifar/ j ſiñar 16. Bookar. 21. Cap. Huad vydara hier vm ſkrifad ſtendur/og hrædelegt er a ad miñaſt/mæ leſa j Bokum Theodoreti/Zozomenis/Nicephori/ſem & vydar añarſtadar. Þui þo Julianus Trwar Nydingur/leifde Gydinga Folke/ad Uppbyggia aptur ad nyu Muſterid til Jeruſalem/þa Gagnadeſt þeim þad ecke/þuiad/jafnoott og þeir ſietu



byggia

byggia nockud/Hrinde þad aptur af Jardskialftum/ þat ad auke kom Elldur wr Jørduñe vpp/ sem þui Foreydde/ Og þegar Byggmeystararner villdu ecke lata af synu vpptecknu Erfide/ þa skrifa þeir/ ad þar hafe falled Elldur af Himne/sem vppbrent hafe bæde þa/og so Byggingena/sem þeir høfdu vpp byriad.

Hier siaum vier nu/Guds Elskuleg Børn/ Huad Hrædelega/og Ognarlega Gud Drottiñ straffar Synder og Yfertrodslur Mañana/ þa þeir blyfa ecke j þeirre Hlydne/Audmykt og Vndergiefne/sem þeim ber hønum ad syna.

Nu vikium vier aptur huerfa til Textans/ og Siaa til/huørt ad Suyvirding Foreydstuñar/ meige ecke og so finnast hia oss/ aa þessum Døgum/ eins og hia Jerusalems Borgarmøñum. Vort Hiarta ætte med riettu/ad heita og kallast Mustere þeirrar Heiløgu Guddomsins Preñingar/ epter þui sem Postuliñ Paall seiger/j fyrra Sendebrefe til Cor. 3. Cap. Vite þier ecke seiger hañ/ad þier erud Guds Mustere/ & Heilagur Ande bygger j ydr? Eñ huad hrædelega Suyvirding Foreydstuñar hefur sa jlle Ande/verkad og framkuæmt/j þessu Heilags Anda Mustere/hia flest øllum Safnadarins Limum/nu aa þessum sydustu Tymum? Þui þar finst Suivirding Gudløstunareñar/ og margskonar Afgudadyrkunar/ sem Ogudleger Galldra og Fiølkyngis meñ fremia/ Gude Eilyfum til Stygdar/ Naunganum til Fordiarfs/ eñ sialfum sier til Saalartøpunar/og eilyfrar Fyrerdæmingar. Þar styngur sier nidur/ Suyvirding Foreydstuñar/hia allmørgū/j þui/ Ad þeir ackta lyted Guds Heilaga Ord og þau Haaverdugu Sacramenta. Børniñ forsmaa Forelldrana/og villia ecke hlyda þeim. Tilheyrendurner syna Saalusorgara. Þienararner syna Herra & Hwsbændur. Jaa/Gud Naade/ Diøfulliñ kiemur þui suo til Leidar/ad þar finnast eñ nu allvyda j þessu Lande/Suivirding Hoordooma/Bloodskama/Saurlyfis/og añara þuilykra Andstyggelegra Lasta. Suivirding Haturs/ og Oeiningar/Suivirding Mords og Mañdraps/ Suivirding Bølvunar og Formælingar Orda.

Og so vier meigum vita/ad allar þessar nu vpptaldar Synder/med Þusund mørgum ødrum Fleyrum/sem drygdar eru aa moote Gude og Samviskuñe/ sie riettkalladar Suivirding Foreydstuñar/ þa talar so Ande Guds/ j Ordskviida Book. 11. Cap. Drottiñ hefur Andstygd aa Raangsnwnum Hiørtum/og aa goodū hefur hañ Þocknan. Huad mun hier þa fylgia aa epter? Eda eigum vier ad þeinkia/ad Gud mune ecke straa þessar Suivirdelegar Synder? Nei øngvañeigiñ/helldur mun þad koma aa epter/sem þar stendur skrifad/hia Spamañenum Hos. 4. Cap. Ad med þui/Ad þar er eingiñ Trw/Eingiñ Kiærleike/ Eckert Guds Ord j Landenu/ Helldur Gudlastaner/ Lygar/ Mord/ Þiofnadur og Hoordoomur/hafa Yfferraad feingid/og ein Bloodskulld kiemur epter adra/ þa skal Landid standa Aumlega/og þess Iñbyggiurum skal øllum jlla vegna.

Þetta eru nu þær sømu Suivirdingar/vegna huørra/ad Gud Drottiñ straffade Þa fyrstu Verølld med Vatnsfloodenu/Gen. 6. Cap. Og Sodoma og

Gomorra

Gomorra/med Ellde og Breñeſteine/Gen. 19. Þetta eru nu þær Suijvirdingar/ſ huøriar Gud hefur og eirniñ ſtraffad Land vort og Lyde/med Hungre ꝛ Hallære/med Morde og Raane Maña/Nu ecke alls fyrer laungu/ſem var/þegar þad Illþyde/Tyrkiarner komu hingad/Año 1627. Og giørdu hier ſtooran̄ Skada og Mañtion.

Lætum oſſ nu hier fyrer Aminta vera/Ad vier j øllū Stiettum/ burtſkufum fra oſſ ſoddañ Andſtygdar Suivirdingum/ ſem oſſ kuña vm ſyder ad fordiarfa og Eydeleggia/og þad ſama fyrer ſaña og Alvarlega Idran/ ꝛ Afblæt Syndaña/ſo mun Gud viſſulega taka oſſ aptur til Nadar/þui ſo ſeiger Drottiñ/fyrer Muñ Spamañſins Jerem. 18. Cap. Skindelega tala eg æ mote eine Þiood/ og Kongsryke/ þad eg vilie vppræta/ſundurbriota/ og fordiarfa þad/Eñ ef þad ſnyr ſier j burt fra ſiñe Vondſku/æ moote huørre eg tala/ þa ſkal mig eirniñ angra þa Ogiæfu/ſem eg hugde ad giøra þeim.

Hier næſt er oſſ athugande/þad Herrañ Chriſtur ſeiger/eñ framveigis/j þeſſu Heilaga Evangelio/huørniñ til mune ganga vm Nidurbrot Borgariñr Jeruſalem/ſem er/Ad þar mune verda/ So ſtoor Hørmung/huilijk ad ei hafe vered j fra Upphafe Veralldareñar/ſo øngvū mune frijdt vera/huørke vte nie jñe/huørke æ Riafre nie æ Akre. Huar af vier meigum ſiæ og merkia/huad hrædelegt þad ſie/ad falla j Reide Hendur Drottins.

Tøkum oſſ þetta/þar fyrer/til Vidvørunar/og þeinkum til þeſſ/ſem Poſtuliñ Pall ſeiger/j Piſt. til Rom. 11. Cap. Ad hafe Gud ecke þyrmt Natturlegum Kuiſtum/ verda meige ad hañ þyrme þier ecke helldur/ et ct.

J þridia lage ſpaer Herrañ Chriſtur hier ſoleidis/fyrer Nidurbrote Borgariñar Jeruſalem/ ad hañ ſeiger/ þar mune øngrum þyrmt edur vægt verda/ huørke Þungudum Kviñum/nie helldur Vngbørnunum/þui ſo ſtendur j Gudſpiallenu/Ad Vei Skule Vera Þungudum ꝛ Brioſtmylkingum/æ þeim Døgum. Þetta ſeiger nu Herrañ Chriſtur/ vnder þa Grein/ ad þær mune huørge geta haft ſig vndañ/ſaker ſyns Veikleika/ꝛ Oſtyrkleika/helldur Aumkunarlega Myrtar/ og j Hel ſlegnar verde/ med ſynum Smæbørnum/ Og ſkal þad ſo ſagt vera vm þad fyrra Greinarkorned.

# Añur Greiniñ.

Vier vilium nu vijkia til þeſſ ſeirna Greinarkornſins/ſem hlioodar vm Ending þeſſarar Aumu Veralldar/ Fyrer huørre Herrañ Chriſtur Spaer/ecke ſydur j þeſſu heilaga Gudſpialle/eñ fyrer nidurbrote ꝛ Foreydſlu/ Borgariñar Jeruſalem. Hier kañ einhuør ad ſpyria/Huar af kañ eg þad ad vita/ad ſa ſijdaſte Dagur ſie fyrer Hende/ og ſo ſem Okomiñ ad eins? Herrann Chriſtur ſeiger hier j Gudſpiallenu/Ad þad ſie Teikn ſydaſta Dags/ Ad þar mune Vpprijſa æ mote Heimſins Enda/Falschriſtar/og Fals Spameñ/og þeir mune giora ſtoor Tákn ꝛ Undur/ſuo ad j Villu mynu leidaſt/Ef

ſkie mætte eirniñ utvalder. O huad marger Villumeñ og Rïettarar/ giøraſt nu a þeſſum Tijmum/ſem draga med ſier margar Saler til Gløtunar og Fordiørfunar? ſo ſem ad er Paviñ j Rom/med ſijnum Selſkap/ Eirniñ Calviniſtar/Anabaptiſtar/edur Endurſkyrarar/og adrer Mijmarger/huøria hier er oflangt vpp ad telia. Þar fyrer framſetur Herrañ Chriſtur hier j Gudſpiallenu/nockrar Nytſamlegar Reglur/epter huørium vier eigum ad breyta/ſuo vier verdum ecke af þeſſum og þuilijkum Villu øndum Afvega leidder.

Hin fyrſta Reglan er ſu/ Ad vier høfum Jduglega Guds Ord vm Hønd/ leſum þad/og leggium vppa Hiartad/ epter þui ſem hañ ſialfur Amiñer hier/ þar hañ ſeiger/Huør Þad Les/Hañ Hygge Þar Ad. Su Heilaga Ritning er ſo ſem eitt Sendebrief/ſem Drottiñ hefur ſendt og tilſkrifad Mañkyneñu/ j huøriu hañ byrter oſſ/og j Lioose lætur allañ ſiñ Vilia/vm vora Velferd & Saluhialp. Jæ/hun er ſu Fæda/ſem oſſ nærer og Endurlijfgar/Hun er þad Lioos ſem oſſ vpplijſer/Hun er ſa Plaſtur ſem oſſ Græder/ Hun er ſa Fieſioodur/ſem Koſtulegre er/ helldur eñ mørg Þuſund Stycke Gulls og Sylfurs/ ſo ſem David vottar/Pſalm. 119. Þar fyrer er þad tilheyrelegt og ſkylldugt/ ad huør ſem þeſſa Book Les/Hañ Hygge vel og vandlega ad/ huad j heñe ſtendur ſkrifad. Eñ med þui ad Natturlegur Madur/ ſkyntar eckert af Guds Anda/af þui/þad er hønum Heimſka/og hañ fær þad ecke þeckt/epter þui ſem Poſtuliñ ſeiger/ 1. Piſt. til Cor. 2. Þa lætum oſſ bidia Gud/ ad hañ vilie vpplu̇ka vorum Skilnings og Hugſkots Augum/eins og hañ opnade Augu þeirra tueggia/ſem til Emaus geingu/ Luc. 24. Vppa þad/vier mættũ ſiæ Daaſemder Drottins/j hñs Løgmaale/Pſalm. 119. Vier ſkulũ & ſo vita/Ad Herrañ Chriſtus Amiñer hier ecke ad eins þa Andlegu/ Ad þeir leſe vel & Roſtgiæfelega Heilaga Ritning/helldur og eirniñ alla adra wti fra/huørs helſt Embættis ſem þeir eru/Þui ecke hafa þeir Heiløgu Guds Meñ/Poſtularner/ ſkrifad ſijn Sendebref og Piſtla/ einungis Preſtum/ edur Andlegrar Stiettar Møñum til/ helldur og eirneigiñ þeim Verallolegu/ſuo ſem Rada mæ af 1. Piſt. Joh. 2. Cap. Þar hañ ſeigeſt tilſkrifa Forelldrunum/Børnunum/ & Vngisfoolkenu/ſo aller meige þad jafnt leſa/Þui huør hañ hefur ſijna Lyſting j Løgmaale Drottins og talar vm þad bæde Nætur og Daga/ ſa hiñ ſame er lijka ſem Vidar Trie/ſem Rootſett er hia Vatnslækiũ/huørt ed ber ſiñ Avøxt/a ſynum Tijma/og hans Laufbløđ munu ecke viſna/og allt huad hañ giører/þad mun luckaſt vel/epter þui ſem David kieñer/Pſalm. 1.

Añur Reglan/edur Radleggingiñ/ſem Herrañ Chriſtur giefur oſſ hier/ er þeſſe/Ad hañ ſeiger/vier ſkulum Flyia/Huørt þa/kañ einhuør ad ſeigia? Vier eigum ad flyia til Fiallaña/ Eñ fyrer þeñañ Floottaæ ecke ad ſkiliaſt/ nockur Lijkamlegr Flotte/helldr ſkulũ vier vita/ þar er tueggia Handa Flootte til/ ſa eine Andlegr/edr Salareñar Flootte/añar Lijkamlegr. Sa Lijkamlege ſtodar oſſ ecke neitt/fyrer þeim ſijdaſta Deige/helldr Salareñar Flootte/huør falin er j riettre og ſañre Jdran/ og Afplaate Syndaña/ Vm þeñañ Floottañ talar

hiñ

þiñ heilage David/Psalm. 121. seigiande. Myn Augu hef eg vpp til Fiallaña/ huadañ mier kiemur Hialpiñ/myn Hialp kiemur af Drottne/sem skapad hefur Himen og Jørd.

J Heilagre Ritningu verdur giered sierdeilislega/ þriggia Nafnfrægra Fialla/til huørra vier eigum ad flyia/so framt sem vier vilium verda fryer fra Diøflenum/og øllum vorum Sælar og Lyfs Ovinum/ og Erfa vm syder Eilyfft Lyf/og Sæluhialp/Sem er/ fyrst Fialled Sinai/Aññad Fialled Zion/ Og þridia Fialled Tabor. Til Sinai Fialls eigum vier ad flya med Moyse/ og læra þar/ad þeckia og kañast vid vorar Synder/og Vidurkieña þær/þui huør sem dregur dulur a synar Yfertrodslur/ þeim mun þad ecke Luckast/ eñ huør þær medkieñer/og lætur af þeim/sa same mun Myskun ødlast/ seiger sa Vyse/ j Ordsk. B. 28. Eñ vier skulum varast/ad stadnæmast ecke leinge a þessu Fiallenu/eins og Cain/sem ørvænte sier Guds Nadar. Gen. 4. Eda sem Judas er heingde sialfañ sig/Matth. 27. Helldur strax sem vier erum komner til sañar Þeckingar/ og Vidurkieñingar vorra Synda/þa skulum vier taka oss adra Reisu fyrer Hendur/og ferdast til Fiallsins Zion/ af huøriu wt er geingiñ Predikun heilags Evangely/vm allañ Heimiñ/ Esa. 2. Þar fiñum vier Huggun Sælu vorum/ so vier kuñum ad seigia med Postulanum Pale/ Huar hellst sin Syndiñ yfergnæfer/þar yfergnæfer Nadiñ myklu framar/Rom. 5. Þa vier nu so giørum/og hølldum oss med Trwñe fast/ vid vorn Herra Jesum Christū þa munum vier vm syder/færder verda fra Zions Fialle/vppa Fialled Tabor/ huar vier munum lyker verda/ Jesu Forklarudum Lykama/ og skyna sem Sooliñ/j Ryke vors Fødurs a Himnum/ Matth. 13.

Þridia Reglan/edur Vidvøruniñ/sem Herrañ Christur giefur oss hier/er jñe faliñ j þessum Ordum/þar hañ seiger/ Huor hañ er a Riaffre/fare hañ ei ofañ/nockud ad taka wr synu Huse/og huør sem er a Akre/snwe hañ ei aptur ad taka vpp Kyrtel siñ. Hier tekur nu Drottiñ vor Jesus Christus/ øllum oss/sem lifū a þessū sydustu Hæskasamlegu Tymum/sterkañ Vara fyrer/ad festa ecke Hiarta vort ofmyked vid þad Stundlega/ og fallvallta Gots þessarar Veralldar/þui alldrei veit nær/eñ þad Heimuriñ med øllu þui sem þar jñe er mune forganga/þar fyrer seiger Herrañ Christur so/hia Luc. Gudspiallamañe/21. Cap. Siaed til/ad ydar Hiørtu þyngest ecke/af Ofæte/og Ofdryckiu/edur Vmhyggiu þessarar Næringar. Hugleidum huad Kuiñu Loths vard/ af þui hun leit til baka a siñ Listegard/ þa vard hun ad Salltsteine/suo sem lesamañ/Gen. 19. Cap.

Þad fiorda/sem Herrañ Christur tekur oss hier Vara fyrer/ vidvykur þeim Falschristum/ og Fals Spamøñum/ sem hañ seiger vpp mune rysa/ fyrer þañ sydasta Dag/so sem vier heyrdum strax æminst/ huørra Følskum Rieñingum og Lærdoome/hañ bañar oss ad trwa/so seigiande/Eñ ef nockur seiger til ydar/siaed/hier er Christur/þa skulu þier þui ecke trwa/Item/Ef þeir

ſeigia/ſiæd/hañ er a Eydemørku/þa ganged ecke vel/ ſiæd/hañ er j Lavnkofum/Þa trwed ecke.

Fimta Reglañ edur Aminningiñ/ Herrans Chriſti/ ſem hañ framſetur fyrer oſſ/j þeſſu Heilaga Gudſpialle/er þeſſe/ad hañ ſeiger/ vier Skulum Bidia. Vm huad eigum vier þa hellſt ad bidia? kañ einhuør ad ſeigia/ Vier eigum ad bidia vm þad/ Ad vor Flootte Verde Ecke Vm Vetur/ Og Eige A Þuottdeige. Huad þad ſie/ad flya vm Vetur/Þad wtleggur ſa Hælærde Doctor/Reinhardus Bakius miøg merkelega j ſiñe Poſtillu/a þeñañ Hatt/ſem er/þad eige ad ſkiliaſt vm þa/ ſem vndandraga Jdran ſyna/ þangad til þeir eru añadhuørt ſiuker ordner/eda komner ad Andlatenu/þui ſo mykell miſmunur/ſem þar er a millum Sumars og Veturs/ ſo ſtoor miſmunur er og ſo/a millum Heilſu og Vanheilſu/A millum Vngdooms og Alldurdooms/þar fyrer/ þegar Vetrleikiñ edur Alldurdoomuriñ færeſt a eirn/þa mæ þad ſeigiaſt/ad þar ſie komiñ Vetur/hia þeim ſama/þa minkar Skilninguriñ/Miñed Dofnar/ Malfærid tregaſt/ Ja/aller Naññſins Lider og Limer/ verda ſtamer og ſtyrder. Þar fyrer ætte huør og eirn/ ad miñaſt a ſiñ Skapara/ j ſynum Vngdoome/ adur eñ þeir Vondu Dagarner koma/ epter þui ſem Salomon Rædleggur/ j ſiñar Predikunar Bookar 12. Cap. Og vndan draga ecke ſyna Jdran fra einum Deige til añars/edur þar til Sott og Daude kiemur ad Høndum/Syr. 5. Enn a Sabbaths Deige ad flyia/ſeiger ſame Doctor/ ad ſkiliaſt eige fyrer þa/ ſem geyma ſier Jdran ſyna/til þeſſ j ødru Lyfe/þui þa vill verda ofſeint ad jdraſt.

Su ſiøtta og ſydaſta Reglañ/ ſem Herrañ Chriſtur framſetur hier/ oſſ til Lærdooms og Eptertektar/ er jñe faliñ j þeſſum ſyduſtu Ordum Gudſpiallis ſins/þar hañ ſeiger. Þui huar hellſt ſem Hræed er/þangad munu og Ernerner ſafnaſt. J þeſſum Ordum ſamlyker Herrañ Chriſtur ſier/hier vid eitt Hræ/eñ oſſ vid Ernurnar/ Eñ ecke vnder þa Grein/ad hañs Helgaſte Lykame/hafe ſo ſem añad Hræ/ j Grøfiñe Rotnan ſied/ ſo ſem ſumer Villumeñ hafa halldid/þuert a moote klaru Guds Orde/þar ſo ſtendur/Pſalm. 16. Þu munt ni͡yna Aund eige yfergiefa j Helvyte/ og ei leifa ad þiñ Heilage Rotne/ Helldur a þetta j Andlegañ mata ad ſkiliaſt/ſem er/vm hans beyſku Kuøl z Pynu/þar hønum var ſo ſem Meinlauſu Lambe ſlatrad/fyrer allar Verallldarenñar Synder/a Kroſſens Alltare. Þar fyrer/ſuo ſem þad/ad eitt Daudt Hræ/er Arnareñar beſta Fæda/og þær flickiaſt hellſt þangad ſem þad liggur/ Eins eigum vier ad lata þad vera vora ſtærſtu Epterlaangan/ ad hallaſt ad vorum Endurlauſnara/ Jeſu Chriſto/ſem vorra vegna er daiñ. Þar næſt er þad Natturra Arnariñar/ad hun gietur med Opnum Augum horft j Soolena/þegar hun er ſem biørtuſt/ So eigum vier ad horfa med Truar Augum vorum/a þa ſkiæru Riettlætiſins Sool/ vorn Drottiñ Jeſum Chriſtum. J þridia lage/ſo ſem þad/ad Aurniñ hefur ſyfellt Stryd vid Drekañ/So meigum vier ſem a Jeſum trwum/hyaſt vid ſyfelldre Oruſtu/a moote þeim Hellvyſka

þyska Dreka Diøflenum/huørium oss ber ørugglega Mootstødu ad veita/ j Truñe. J fiorda mäta er þad skrifad vm Aurnena/ Ad þegar hun er ordiñ gømul/ þa eige hun ad breña af sier Fydred/ Bada sig sydañ þrisvarsiñum j einu hreinum Vatns Bruñe/ og verda þar med vng ꝛ Frysk vppa nytt/ huar æ David miñest/ Psalm. 103. Þessa Arnariñar Art ættum vier ad læra/ j þañ mäta ad afleggia þañ gamla Mañiñ/ sem sig fordiarfar j Girndum Villudomsins/ eñ Jklædast aptur þeim nya Mañe/ sem epter Gude er Skapadur/ j sañarlegu Riettlæte og Heilagleika/ epter þui sem Postuliñ talar j Pist. til Eph. 4.

J fimta og sydasta lage/ so sem þad/ ad Aurniñ tekur sig vpp fra Jørduñe j Lopted/ og flygur allra Fugla hædst/ So eigum vier j sama mäta/ ad yfergefa þetta Jardneska/ og stunda epter þui Himneska/ sem þar er vppe. Þar fyrer/ huør hañ vill hafa Hlutdeilld med Herranum Christo/ hañ stunde epter þessum Dygdum/ so hañ meige vera ein andleg Aurn.

Nu viliu̅m vier taka oss Lærdom/ og Huggun hier wt af. Fyrst verdur oss synt og fyrer Siooner sett/ huørsu nakuæmlega ad vor liufe Lausnare elskar oss Meñena/ og vill huørke sia nie vita vora Tøpun/ edur Fordiørfun/ þar hañ giefur oss/ ꝛ fyrersetur so margar merkelegar Lyfs Reglur/ epter huørium vier eigum ad haga oss og breyta/ so vier mættum gieta vmflwed Tymanlega ꝛ Eilyfa Olucku/ sem yfer oss hanger/ vegna Syndañа. Vier pløgum ad seigia j Almeñelegu Maltæke/ ad sa sie Vinur sem til Vams seiger/ Eñ þad er þo Vinastycked laangtum meira/ þegar eirn varar añañ vid/ leggur hønu̅ holl Raad huørniñ hañ meige komast fra þeirre Olucku/ sem hañ æ fyrer Hende. Huørtveggia þetta hefur vor Blessade Hirder/ Herrañ Jesus Christus audsynt oss/ þar fyrer meigum vier vissilega hallda hañ fyrer vorn besta og trwasta Vin/ ꝛ seigia hm̄ til allra vorra Naudsynia. Þar næst er þad yfer mäta Huggunarsamlegt/ fyrer øll Guds Børn/ sem Krosse og Motgange eru vnderokud hier j Heime. Ad hañ seiger ad þeirra Hørmunga/ ꝛ Hrygdar Dagar Skule styttast/ og hañ vilie ecke einum eda ødrum meire Pijnning vppa leggia/ eñ sierhuør kuñe ad bera. Nu þessu̅ voru̅ Himneska Hiartans Fødur/ sem audsyner sig Naaduglegan/ og Myskunsamañ/ vid oss synar Faatækar Barna skiepnur/ seigu̅ vier Lof/ Dyrd/ Heidur ꝛ Þackargiørd/ nu hiedañ j fra/ ꝛ ad Eilyfu Amen.

# Tuttugasta og siøtta Suñudag epter Trinit.

## Evangelium/ Matth. 25. Cap.

A Þeim Døgum. Eñ þa Mañsins Son mun koma j sijnu Tignarvellde/ og aller helger Einglar med honum/ Hañ mun þa sitia a Sæte sijns Velldis/ og allar Þiooder munu saman safnast f. hm̄. Og hañ mun þa sundurskilia huoria fra ødru̅/ so s. Hirder sundurgreiner Saude fra Kidu̅/ og Saudena mun hañ

 skicka

# Einfolld og ſtutt Predikun/ A Marteins Meſſu/

Sem jnfellur Arlega þañ II. Novembris/ Huør ad er miñ Fædingar Dagur/Gude Eilijfū til Þackłætis Offursgiørdar/fyrer alla þa Naad/ Myſkun og Gixſku/ſem hañ mier Overdugum veitt hefur/ j. fra Moodur Lijfe/og allt til þeſſa Dags.

## Textañ Skrifar S. Matth. 25. ⁊ Luc. 19. Cap.

LIjka ſem ſa Madur/er Ferdadeſt vtan Lands/ kallade ſijna Þioona/ og fieck þeim ſitt Gotz. Og einum fieck hañ fim̄ Pund/ eñ ødrum tuo/hinum Þridia eitt/ Huorium einum epter ſijnum Mætte/og Ferdadeſt ſtrax af ſtad. Þa gieck ſa til ſem fim̄ Pund hafde medteked/⁊ Kaupſlagade m; þeim ſømu/⁊ vañ þar med øñur fim̄ Pund. Lijka eirniñ ſa ſem tuø Pund hafde medteked/ vañ ⁊ æ tuø øñur. Eñ ſa er eitt Pund hafde medteked/for burt/Grof j Jørdu/og falde þar ſijns Herra Fie. Eñ epter læangañ Tijma lidiñ/kom Herrañ þeſſara Þioona/og hiellt Reikningſkap vid þa. Þa gieck ſa til ſem fim̄ Pund hafde medteked/og lagde øñur fim̄ Pund þar til/og ſagde/Herra/Fim̄ Pund fieckſtu mier/Siæ/øñur fim̄ hef eg æuñed/Hans Herra ſagde hm̄/Eia þu Goode og Trwlynde Þion/Þu hefur vered træwr yfer litlu/ Eg vil ſetia þig yfer myked/gack þu jñ j þijns Herra Føgnud. Þa gieck og ſa ad/ſem tuø Pund hafde medteked/og ſagde/Herra/Tuo Pund fieckſtu mier/ Siæ/øñur tuø Pund hefe eg med þeim ævñed/Hans Herra ſagde til hans/Eia þu hiñ Goode Þioon/og Trwlinde/Þu varſt trwr yfer litlu/Eg vil ſetia þig yfer myked/gack jñ j þijns Herra Føgnud. Þa gieck ſa ad ſem eitt Pund hafde medteked/og ſagde/Herra/Eg veit ad þu ert hardur Mañ/þu Vppſkier huar þu Saader eige/og ſamanſafnar huar þu Dreifder eige/Og Ottaſleigiñ foor eg burt/og falde þitt Pund j Jørdu/Siæ/þar hefur þu huad þitt er. Eñ hans Herra ſuarade/og ſagde til hans/Þu vondur Þioon/og latur/ Viſſir þu ad eg ſkier vpp huar eg Saade ei/ ⁊ ſamañſafna þar eg dreifde eige? Þui byriade þier ad fa miñ Pening Veſlunarmøñum/og nær eg kæme/ hefde eg huad mitt er/til mijn teked med Okre/ Fyrer þui takid af hønū

þad

þad Pund/og gefed hinum sem tÿu Pund hefur/þuiad huør hañ hefur hønum mun gefed verda/ og Nægd hafa/eñ huør eige hefur/ fra þeim mun teked verda og þad hañ hefur.. Og þeim Onýta Þion kaste þier j hin ytstu Myrkur/þar vera mun Oop og Tañagnýstran.

# Exordium.

HIñ Heilage David/Madur epter Guds Hiarta/talar so j Psalm. 112. og seiger. Miñing þess Riettlæta varer Eilýflega/Jæ/sañarlega varer hun/z forgeingr ecke/þuiad Nøfn Utvaldra Guds Barna eru Jñskrifud a Lýfs Bookena/Openb. B.17.C. Huadañ þau verda ecke wtskafiñ/ edur vm alla Eilýfd afmæd. A medal þessara Guds Astvina/var hiñ heilage Byskup Martinus/Huørs Miñing halldiñ hefur vered/ædur fordum j Christniñe/Ecke j þa Meining/ad nockur skyllde vera so Dærlegur/ad veita hønum þa Lotning/sem einum og sønum Gude ber/ þuiad myna Dyrd vil eg ecke ødrum gefa/Esa. 42. Item seiger Endurlausnariñ vor Jesus Christus so/hia Matth. 4. Drottiñ Gud þiñ skalltu tilbidia/og hønum einum þiona. Helldur hefur þesse Marteins Messu Hætyd/vered Tydkud og H. halldiñ/ in Ecclesia primitiva/ edur Søfnudeñi ædur fordum/ vppa þad/ad Meñ skylldu af hans Dæme læra/ad vera Gudrækner/Kostgiæfner og astundunarsamer/til Goodra Verka. Og vilium vier æn leingra Jñgangs/yfer vega og athuga þetta H. Gudspiall/ og þ j þremur Smægreiñum.

Skal hin fyrsta hlioda þar vm/ huør vered hafe þesse Herrañ/ sem fieck synum Þienurum sitt Gots til Veslunar.

Añur vm þad/Huørsu þesser Þionar hafe fared med syns Herra tiltrwad Gots. Og su þridia vm Reikningskapiñ/sem þeir vrdu vm syder ad standa. Gud Eilyfur Fader/gefe oss syna Nad/ so vier mættum hier wtaf/nockud gott læra/og oss til Nytsemdar færa/þad Bænheyre Drottiñ/j Nafne syns Sonar Jesu Christi/Amen.

## Fyrsta Greineñ.

STrax j Vpphafe þessa Heilaga Evangelÿ/ fraskýrer Gudspiallamaduriñ Lucas/Huør vered hafe sa Edla Herra/sem syna Þienara wtsende/ til ad Vesla synu Gotae/sem er/ad þad var eingiñ añar/eñ vor liufe Lausnare Jesus Christus/Huør ad er øllum Herrum og Potentatum ædre/ og Ypparlegre.

Fyrst so myked sem hans Personu ahrærer/ þuiad hañ er sialfs Guds Almættugs Eingietiñ Sonur/epter þui sem vier syngium j vorum Kyrkiu Psalme/Jesus Guds Son Eingietiñ/Eilýfur Herra vor/af hans Hiarta wtgeingiñ/eins og þad skrifad er/et et. Og hier fyrer verdur hañ kalladur Liome Fødursins Dyrdar/og Jmynd hans Veru/Heb. 1.

Þar næst er þesse Sendefarar Herra/Ædre ødrum Herrum. Vegna Skøpunarverksins/ þuiad so vottar Johañes Gudspiallamadur/ vm hañ 1. Cap.

 Ad

Ad aller Hluter sieu fyrer hñ giørder/ ⁊ án hans sie eckert giørt/ huad giørt er.

J þridia lage er hañ øllum Ædrum Ædre og Ypparlegre/ vegna syns mykla Rykedæmis/ þuiad Jørdiñ er hans/ ⁊ allt huad þar er jñe/ Ja/ Hañ Drottnar fra einu Siafarhafenu til añars/ so sem hañ sialfur vottar/ seigiande/ Mier er giefiñ øll Magt/ bæde á Himne og Jørdu/ Matth. 28. Cap.

J fiørda máta hefur þesse Herrañ Yfirburde/ yfer alla adra Herra/ vegna syns Frydleika/ og Dægelegleika/ Huar vm David ber hønum Vitne/ seigiande/ Þu ert hiñ Frydaste/ á medal Mañaña Sona/ Astwdlegar eru þynar Varer/ Psalm. 45. Absalon fieck myked Lof fyrer siñ Frydleika og Adgiørfe/ sem hñ hafde yfer adra/ þui vm hañ er skrifad/ ad fra Huirfle og allt til Ilia/ hafe ecke fundest Lyte á hans Lykama. Eñ Fegurd og Frydleike án Guds Otta Duger eckert. Eñ vor Herra Jesus Christur/ hefur allt þetta til ad bera/ suo þar vantar eckert á. J fimta máta kallast þesse Herrañ/ sa hiñ Edlaste vegna syns Majestatis Velldis. Þui so vottar Postuliñ vm hñ/ Ad Gud hafe giefed hønum Nafn/ þad yfer øllum Nøfnum er/ Og j þessu Nafnenu skule øll Knie sig beiga/ bæde á Himne/ Jørdu/ ⁊ vnder Jørduñe/ Phil. 2.

Ad syoustu kallast hañ sa Edlaste/ Respectu suæ Bonitatis/ Þad er/ vegna syns Giæskurykis/ Huar vm David so syngur/ Psalm. 103. Myskunsamur og Lyknarfullur er Drottiñ/ Þolenmoodur/ og harla Goodgiarn. Og hia Hose. Spamañe stendur/ Huad skal eg giøra af þier Ephraim? Skal eg vernda þig Jsrael? Skal eg ecke med riettu giøra eina Adama af þier? Og wtleika þig sem Zeboim og Soar? Eñ mitt Hiarta er ødruvyse Siñad/ Ose. 11. Cap. Þesse Ord Lifanda Guds eru so sem eirn skiær Speigell/ Guds Ovmrædelegrar Nædar og Myskunar. Eg vil ad spyria/ Kallast nu ecke Herrañ Christur hier fyrer Riettelega sa allra Edlaste? Ja/ sañarlega/ Ordsøkiñ er su/ þui adrer Meñ j Heimenum fáa þeñañ Æru Titil/ ad heita Edla/ añad huørt vegna siñar Hreyste/ eda Trwskapar ⁊ Mañlegra Adburda j Strijde. Eñ Herrañ Christur verdur hier kalladur Hæedlaste/ bæde á Himne og Jørdu/ vegna þess ad allt verdur ad standa epter hans Skipun og Skickun/ Þar fyrer seiger David so vm hañ/ Psam. 147. Magnus Dominus/ et Laudabilis nimis/ Þad er/ Vor Gud er mykell/ og harla Dásamlegur/ þuiad Gud hefur hønum vnder Fætur lagt/ Naut og Saude/ Dyr og Fugla/ allt til samans/ og skal þetta suo sagt vera/ vm Personu þessa Herrans.

Nu viliū vier framar heyra nockud talad vm Reisuna hans. Gudspiallamaduriñ seiger/ Ad þesse Edalborne hafe ferdast j fiarlægt Land/ ad Afla sier Rykis/ et cet. Drottiñ hafde so fyrerhugad og ásett/ jRáde þeirrar Heiløgu Guddoomsins Þreñingar/ ádur eñ þad Himen og Jørd Skøpud voru/ Ad þa Mañeskiañ være falliñ/ þa skyllde hañ j Tymans Uppfyllingu/ senda siñ Eingetiñ Son j Hollded/ til ad framkuæma þad mykla Verk vorrar Endurlausnar/ Gal. 4. Þegar nu Drottiñ vor Jesus Christus hafde Framkuæmt allt/ þad sem hañ átte ad giøra/ og voru Endurlausnarverke vidverk/ þa foor

hann

hann aptur vpp til Himens til syns Fødurs/ suo sem hañ sialfur seiger hia Joh. 16. Cap. Nu fer eg til Hans sem mig Sende. Item Seiger hann suo j ødrum stad/ Eg er af Fødurnum Vtgeingeñ og Komeñ j þeñan Heim/ Eg fyrerlæt og aptur þeñan Heim/ & fer til Fødursins. Eins er & vared Reisu vorre/ til þess Himneska Fødurlandsins/ Vier hliotū ad lyda Margslags Eymder/ ædur eñ vier kuñum þangad ad Komast/ Þui so Seiger Postul. Ad fyrer margar Mootlætingar verdum vier jñ ad ganga j Himnaryke/ Act. 14. Þui sa Vegur er mioor/ & þad Port er þraungt sm̄ liggur til Lyfsins/ Matth. 7.

Lærum oss nu eñ Framveigis/ Athuga og yferskoda/ Huad þesse Herrañ hafe giørt/ ædur eñ hñ Reyste af Stad. J Gudspiallenu stendur/ Ad HAñ HAfe KAllad Syna Þioona FYrer Sig. Fyrer þessa Þioona æ ad Skiliast/allt Mañlegt Kin/ J huørre hellst Stiett/ eirn edur añar vera kañ. Nu sem þesser Þioonar eru komner til samans/ epter syns Herra Befalningu/ Huad giører hañ þa? Hañ Vtbyter þeirra æ mille synu Gotze/ og fær sumum myked j Hendur/sumum lited/Einum fær hañ fim̄ Pund/ødrum tuø/þeim þridia eitt/Eñ huad æ þa ad skiliast fyrer þesse Pund/ sem Herrañ fær j Hendur synum Þienurum? Hier fyrer skiliast þær Merkelegu Gafur/med huørsum Gud pryder eirn og sierhuørn/j synu Kalle og Embætte. Med þessar Gafurnar eiga Meñ vel og Forsiallega ad fara/ þuiad sumum hefur hañ giefed Malsnille/ ødrū hefur hañ tillagt þa Gafu/ad kuña ad wtleggia marghattad Tungumal/Þeim þridia/ad skilia riett Guds Ord/og Ritninguna/1 Cor. Þeim sem j Verralldlegu Embætte þiona/ hefur Gud meddeillt og eirniñ sitt Pund/ sem ad er Vysdoomur/ Skilningur/ gott/ Malfære/ margslønar Hagleikur/ og añad þuilykt. Hwsfedrum og Hwsmædrum j sama mata/ hefur hañ giefed Forsialleika/ til ad fara vel med syna Eigu/ og wtsooa hefie ecke Onaudsynlega/ helldur ad veita gooda Forsiæ synu Hwse og Heimilisfolke. Ad sydustu fraskyrer Gudspiallamadurin/ huør ad vered hafe Causa Finalis/edur Endanleg Ordsøk/ þessarar Herrans Reisu/ sem er þesse/ AD AFla Sier Rykis/ Þetta Ryked hefur Sonur Guds/vor Blessade Endurlausnare Jesus Christus suo eignast/ Ad Gud Himneskur Fader/ hefur ecke ad eins giefed Synenum alla Magt/bæde a Himne og Jørdu/suo sem hañ sialfur vottar/Matth. 28. Helldur og eirniñ sett hañ til siñar Hægre Handar/epter þad hañ var bwiñ ad viña Sigur/a Synd/Dauda/Diøfle og Helvyte/Og skal þetta so sagt vera/wt af þui fyrsta Greinarkornenu.

## Añur Greiniñ

EPterfylger þad añad/Huørsu vel og Dyggelega/ad þesser Þionar hafe fared med syns Herra Gots/Hier vm hlioodar so Gudspialls Textiñ/Ad hañ sem Fim̄ Pund hafde medteked/Vañ A Þeim øñur Fim̄. J sama mata/sa sm̄ tuø Pund hafde til medferdar/ Abatade siñ Herra vm øñur tuø. Eñ sa þridie/sem hafde ad eins medteked eitt Pund med ad høndla/Huad giører hañ? Hñ geingur strax wt med þad/og giører eina Grifiu ofan j Jørdena/og kastar þar

vþañ j syns Herra Gotz/ edur Tiltrwudu Punde. J þessum ødrum Parte Gudspiallsins/ verda oss fyrer Siooner settar/ Tueggiahandaslags Mañeskiur sem þiñast meiga j allskonar Embættum. Fyrst eru þeir sm eru Kostgiæfni er j synu Kalle og Embætte/ og høndla vel og Trwlega med sitt Pund/og hafa af þui stooran Auiñing. Hiner adrer eru Later og Neñingarlauser Þionar/ sem liggia og soffa giarnañ/ og hyxa lijted edur eckert vm sitt Pund/ helldur Orgfa sig (kañ skie) med einar og adrar Saker/ sem þeim koma þo eckert vid/ Eius modi homines tractant parerga et negligunt Erga. Vm huøria Jeremias talar suo/ og seiger/ Ad Bølvadur skule vera sa/ sem giører Verk Drottins Suiksamlega/ Jerem. 48. Cap.

Hier wt af vilium vier oss þetta til Lærdooms taka. Fyrst/ Ad vier lærum ad kañast vid/ ad vier erum ecke Fædder hingad j þeñan Heim af Moodurlijfe til þess/ ad leggiast j Lete og Omensku/ helldur erum vier skapader til Erfidis eins og Fuglen til Flugsins/ Job. 5. J Sueita þyns Andlitis skalltu þyns Brauds neita/ sagde Gud Drottiñ vid Adam og Evu fordum/ og þad Guds ord stendur eñ so/ og nær til allra þeirra Nidia/ og Epterkomenda/ allt til Veralldareñar Enda/ þessu samhlioda og so Davids Ord/ j Psalm. 128.
Eñ Jdiuleyse giefur Mañe Ordsok til ymeslegra Lasta/ þui kallast þad af þeim Lærdu/ Pulvinar Sathanæ/ þad er/ Hæginde edur Suæfell Diøfulsins.

Þar næst lærum vier hier af Dæme þessara tueggia Þienara/ sem Herrañ hafde trwad til syns Gotz/ Huørnin vier eigum Riettelega ad Høndla med þær Gafur sem Gud hefur oss meddeillt/ og j Hendur feinged/ So þad meige þocknast vorum Herra og Skapara/ og skie hønum til Lofs og Dyrdar/ sem er/ Ad vier eigum ad giøra þeim Aumu og Voludu til Gooda/ og ad giefa ødrum Gott Epterdæme af oss/ j Lifnade og Framferde.

Hier a moot skulum vier þ lære/ af Dæme þess Otrwa og late Þienara/ sem Grofe sitt Pund j Jørdu/ og nente ecke ad hallda þui wt til Abata/ Huør ad sie Nattura og Eigenlegleike allra Hræsnara/ og Letingia/ sem er/ Ad þeir giefa sig/ edur Riettara ad seigia/ troda sier jñ j Hoop og Selskap þeirra frooma/ Nioorlijka z þegar samblandast Agner vid Hueite. Þar næst eru þeir later og Neñingarlauser/ til ad Þiona og Erfida/ z vilia helldur fara a Hwsgang/ eñ ad viña eitt Dagsverk hia ødrum/ þeir Foracta/ Smana og Hæda einnin hia sier hina adra/ sem nockud gott vilia viña/ fyrst þeir vilia ecke lijkiast þeim j þeirra Athøfnum/ Og er þad nu vm þad añad Greinarkorned/ j styttsta Mata sagt.

## Þridia Greinin.

NV vilium vier koma til þess þridia Greinarkornsins/ sem hlioodar þar vm Huørsu fad/ ad þesse Audugc Herrañ heimte Reikningskapiñ/ af synum Þienurum/ þa hañ Heim aptur kom/ og huøria Pøk edur Laun/ ad sierhuør þeirra fieck. Hier vm talar so Gudspiallamadurin Matth. z seiger/ Ad Epter Langan Tyma Lidiñ/ Þa hafe Herra og Hwsbonde þessara Þienara/ heim

aptur

aptur komid/Og Hallded Reikningskap vid þa. Hier er oss fyrst vel athu-
gande Tyminn/ a huørium Herrann kom heim aptur/sem er/ Post multum tem-
poris/edur ad laungum Tyma lidnum/Ja/þad ma vel kallast laungur Tyme
Respectu nostri/þad er so myked sem oss vidvijkur/þuiad þusund Ar eru fyr
er Gude so sem eirn Dagur/edur so sem ein Næturvaka. En vier skulum vi-
ta Ad fyrer þennan langa Tyma/ma riettelega skiliast/ Eymd og Armæda su
sem vier verdum ad lijda j þessu Lyfe/so vier meigum opt ⁊ ofialldann Andvarpa
med hinum Heilaga David/ af Psalm. 13. og seigia/ Drottinn/ huørsu leinge
þa villtu hylia þitt Andlit fyrer mier/ Huørsu leinge skal eg vera Sorgande
j minne Sælu/ Huørsu leinge skal minn Ovinur hefia sig yfer mig? Sia þu þar
til/og Bænheyr mig minn Gud og Drottinn.

Þar næst og j annann Mata/er oss athugande/huar fyrer/edur huørrar Ordz
sakar vegna/ad þesse Herrann hafe aptur komed/sem er til þess/ad hallda Reik
ningskap vid þessa sijna Þienara/ Huad ad er eirn Obrygdanlegur Vitnisburdur
vppa hans Hingadkomu aptur til Domsins/þa er sa mykle Reikningskapurinn
mun halldinn verda. Ad þessu giøra ecke annad enn Skøll og Adhlatur/ þeir
Gudlausu Spottarar/og Hædgiarnu Narrar/so seigiande/Huar er Fyrerheit
ed hans Tilkomu? 2. Pet. 3. J þridia lage er þ vel athuga verdt/ad Herrann lof
ar hier Trwskap og Dygd þessara Tueggia sinna Þienara/og heiter þeim aptur
ad hann vilte þeim þad Rijkuglega Endurgiallda/þar hann seiger/ Eia þu tr-
we og frome Þion/j litlu varstu trwr/yfer myked vil eg þig setia/ gack
nu inn j Fognud þijns Herra. Nu sem sa þridie kiemur fram/ og hef-
ur ecker aflad med sijnu Punde/þa þeinker hann med sier/ad hann skule Diarflega
afsaka sig/og tekur þui so til Mals/⁊ seiger/HErra/J Eg visse ad ÞV VA-
rst Eirn HArddrægur Madur/ct ct. Þar fyrer gieck eg j burtu/ Og GRoof
þitt Pund j Jørd. Þar med þa vmsnere hans Herra strax Bladenu/og sa-
gde/ÞV Vonde Þion/Med þui þu þottest vita/ad eg være eirn HArdwdugur
Madur/Sonnde þier þa ecke myklu helldur/ vel og Forsiælega ad fara med þ
Pund/sem eg hafde þier tiltrwad. Hier kiemur nu a ofann Straffed/ sem sa
goode Huusherrann leggur a þann Otrwa Þion/ epter þad hann var buinn ad A-
vijta hann/huært ad er tuefalldlegt. Þad fyrra er/ad hann tekur fra hønum sitt
Pund/og giefur ødrum til Medhøndlunar/sem fer betur þar med/þui so seig-
er hann/Huør Hann hefur Hønum Skal Giefast/En Sa Ecker hefur/fra hønum
skal þad litla/sem hann meinar sig ad hafa/takast/ Luc. 8. C. Þad annad
Straffed/sem Otrwer Þienarar hafa sier ad vænta/ þa er Eilijf Fordiørfun/
og Fyrerdæming/þui so seiger Herrann Kasted þeim Onijta og Suikula
Þræl/j hin ytstu Myrkur/ huar ed vera mun Op og Tannagnijstran.
Hier af høfum vier oss þad til Aminningar og Vidvørunar ad taka/ad vier al-
la Tyma/ og a huørre Stundu/ suo myked sem møgulegt er/ kostum Kapps
þar a/Ad vier kunnum ad giøra vorum Himneska Herra goodann Reikningskap



og ecke

og ecke vndandraga vora Jdran/og Jyrerboot/so munum vier vm synder/þad ad heyra þa gledelegu Raust/og þau Fagnadarsamlegu Ord til vor tølud/ aþ vorum Hiartans Endurlausnara Jesu Christo/ Eia þu goode og trwe Pion/ aþ þui þu varst trwr j þui litla/ þa vil eg setia þig yþer mykid. Gack þu jñ j Fognud þijns Herra. Huar til oss øllum Hialpe sa sañe Eilyþe og Odaudlege Gud/ j Nafne syns Blessada Sonar Jesu Christi/Hvørium med synum Himneska Fødur/ og Heiløgum Anda vier seigum Æru og Loþ/ Dyrd og Packargiørd/Nu og Æþenlega/Amen.

# Ein Bænadags Predikun. Textiñ stendur skriþ adur j Manassis Bæn/og hliodar so.

Drottiñ/Eg heþe Syndgast/Ja/ Jeg heþe Syndgast/Og eg medkieñe mijnar Misgiørder/ Eg bid og Grætbæne þig/ Fyrergieþ þu mier/O Drottiñ þyrergieþ þu mier þad/ Lat mig ecke þyrerþarast j mijnum Syndum/og lat Straffed ecke Eilijþlega liggia a mier/ helldur Hialpa mier Overdugū/epter þiñe myklre Myskunseme/ þa vil eg Vegsama þig alla mijna Lijþdaga.

## Exordium.

Jer lesum hia Gudspiallamañenum S. Luca. 15. Cap. vm þañ Fortapada Son/ Ad epter þad hañ haþde allre siñe Fødurleiþd Fortært og wtsooad/med Eydslusamlegri Liþnade/. Huørs vegna hann þiell j so stooran Armood og Fatækt/ Ad hañ girntest ad Sedia sig aþ Suijnadraþenu/ hefþde hañ ad eins kuñad þad ad þaa. Pa vppa þad sydsta komst hañ vid med sialþum sier/ og medkiende Lostuglega/ ad hañ hefþde jlla og Otiettelega giørt/seigiande/ Fader/Eg heþe Syndgad j Himeniñ/og þ þier/ þui er eg ei þramar meir verdugur/ad kallast þiñ Sonur/ giør mig sem eirn aþ þijnū Daglauamøñū. Pesse Fortapade Son/kañ riettelega ad samlijkiast. 1. Vid Gydingana Almeñelega/Puiad þeir voru so Guds Elskulegur Sonur/og Dotur/ sem hañ haþde þraskiled øllu ødru Folke/ og þ o red so sem j siñe Kiølltu og Skaute. Hañ þædde þa med Himnabraudenu/ og gaþ þeim Vagtelurnar ad eta/j Eydemørkuñe/Hañ klædde þa eirniñ/og þramt kuæmde þad þyrer siñ Guddomlegañ Krapt og Almætte/ad þeirra Klæde sem þeir hefdu med sier wr Egyptalande/snodnudu ecke/og þeirra Skoor slitnudu ecke/ þau þiorutyger Ar/sem þeir þerdudust vm kring j Eydemørkiñe/Deut. 29. Hañ Leidtogade þa lijka sem Æskuna/ Hañ leidde þa j hia Vatnslækiunum/a þeim slietta Veigenum/so ad þeir steitte sig ecke/Jerem. 31. Hañ sparade þa

so sem eiñ Madur sparar siñ Son/Mal.3. Hañ skickade til þeirra tijmanlega sijnaSendeboda/sem þa skyllde vara Trwlega vid Oluꝛkuñe/2.Paral.36. Hñ gaf þeim og so sitt Løgmaal og Riettinde/epter huørium þeir skylldu lifa/ og sitt Eigenlegt Folk vera. So giørde hañ ecke nockre Piood/ Psalm.147. Þar fyrer seiger hañ so sialfur/Jerem.31. Jeg er Jsraels Fader/og Ephraim miñ Frumgietiñ Son/Og strax þar epter/Er ecke Ephraim miñ Dyrmætur sonur/og mitt Elskulegt Barn? Þuiad eg miñest eñ nu vel a þ/ huad eg sagda til hans/þar fyrer sundurbrotnar mitt Hiarta til hans/so eg hlyt hønum Myskunsamur ad vera. Skodū nu/ mijner Elskanleger/so hætt hafde Gud Drottiñ vpphafed Gydinga Folked/so møg hafde hñ þ Begæfad med allra Handa Audlegum og Lijkamlegum Velgiørningum/Eñ þeir giørdu eins og sa Fortapade Sonur/tilbeiddu Añarlega Gude/ eñ þañ Eina ꝛ saña Lifanda Gud/ sem þa hafde wtleidt af Egyptalande/og þeim hafde allt gott Audsynt/ yfer gæfu þeir/so sem hañ sialfur(þar fyrer)klagar yfer þeim/so seigiande/Esa.1. Heyre þeir Himnar/seiger hañ/og þu Jørd hlusta med Eyrunū/þuiad Drottiñ hañ talar/Eg hefe Børn vppfostrad/og vpphafed/og þau eru falliñ fra mier Nauted þecker siñ Herra/og Asneñ Jøtu sijns Herra/Eñ Jsrael þecker þad ecke/og mitt Folk skyniar þad ecke. O vei þui Synduga Folke/þui Folke mykell ra Misgiørd a/ þui Jllskufulla Sæde/ þeim skadlegu Børnum/ sem yfergiefa Drottiñ/ og lasta þañ heilaga j Jsrael. Vm þessa þeirra Jllsku/ꝛ Ogudlegt Athæfe/ vandade Guds Madur Moyses vid þa/seigiande/ Þackar þu þañeñ Drottne þijnum Gude/ þu Galiñ og Heimskufullur Lydur? Er hañ ecke þinn Fader/og þiñ Drottiñ? Er hñ ecke alleinasta sa þig skapade og tilbioo? Deut. 32.C. Þar fyrer liet Drottiñ vm sijder/sijna Reide ganga yfer þa/og stoo þa med Strijde/Drepsoott ꝛ Dyrtijd/æn allrar Vægdar/ so þeir sialfer hlutu ad medkieña/og seigia/Mijnar þungar Synder eru vppvaknadar fyrer hans Refsing/og eru j Hoopum geingnar yfer miñ Hals/Harmag Jer.1.

2. Mæ þesse Fortapade Sonur riettelega lijkiast vid Manasse Juda Kong eigenlega/sem var eirn Ogudlegur Madur/og giørde þad sem Drottne jlla lijkade/sette Lijkneskie og Afgude jñ j Guds Hws/Villte Juda og þa j Jerusalem/so hñ giørde verr eñ Heidingiar/so sem þar vm mæ nooglega lesa/2.Par. 34.C. Og þa Drottiñ liet sijna Spæmeñ tala vid hañ/þa gaf hañ øngvar gicktur ad þui. Þess vegna liet Drottiñ Hershøfdingia Kongsins af Babilon/ yfer falla hñ/setia j Fiøtur med Jarnbolltum/ og med Vidium Binda/ꝛ Flytia sijdan til Babilon/Þa loksins kom hønum til Hugar ad Jdrast/so hañ Grætbænde Drottiñ/ og Audmykte sig fyrer hønum/ giørande þar sijn Skriftamal/og audmiuka Jatning siña Synda/ Huar til Drottiñ leit Nadarsamlega/ ꝛ veitte hønum Myskun/ og færde hñ aptur til Jerusalem j sitt Kongs Rijke. Þa med þui/ ad vier erum aller til samans Aumer Syndarar/øngvu sijdur eñ þeir Jsraels Syner edur Manasses/ og erum lang Afvega geingner fra. Veige Guds Bodorda/þa læ tum oss hafa þad med hønum sameigenlegt/

 ad jdrast

ad Jdraſt & ſnwa oſſ til Drottins/med hitum Jdrunar Tarum/j fente criſt Vilium vier þui þeſſe vppleſen̄ Textans Ord framar Athuga/huad ſkie ſkal j fremur Smærgreinum. Af huørium. 1. Su fyrſta ſkal þar vm hlioda/Huørſu Manaſſes medkienner ſig Stoorbrota Man̄/og Auman̄ Syndara fyrer Gude. 2. Su aun̄ur/Huørſu han̄ bidur audmiuklega vm ſin̄a Synda Fyrergiefning. 3. Vm hans Heitſtreinging/ ad han̄ ſkule Lofa Gud alla ſyna Lyfdaga. Drottin̄ fra huørium øll Hialp kiemr/ſem ſkeidr a Jørdun̄e/hn̄ Hialpe mier Overdugum/epter ſin̄e ſtooru Miſkunſeme/og opne ydar Hiørtu/ og Eyru med ſynum Fijngre/ſo ad vier hier vt af nockud Nytſamlegt bæde heyra og Læra mættum/ Amen.

## Fyrſta Greinin̄.

SA Vijſe Salomon/ſeiger ſo/Prov. 28. Huør ſa ſem medkienner Synder ſinar/og forlætur þær/han̄ mun Miſkun ødlaſt/ Af huørium Ordum lioſt & audſynelegt er/ad þad er ecke noog/ad medkien̄a Syndernar med Mun̄enum/ Helldur hlijtur eirn og ſerhuør/ſa ſem Myſkunſemena ødlaſt vill/ad Jdraſt ſin̄a Synda af Hiarta/og þ ſama med Verkunum ad audſyna/ Ja/ Hønum ber ſo ad forlæta Syndena/ad hun Drottne ecke framar j hans Daudlegum Lijkama/ ſo ad han̄ hlijde hen̄e j hen̄ar Gyrndum/ og liae ei ſijna Lime Syndin̄e til Rangłætis Herklæda/helldur liae ſig ſialfan̄ Gude/lijka ſem af Dauda vpplifnadan̄/og ſijna Lime Gude til Riettlætis Herropna/Rom. 6. Han̄ ſkal ſo forlata Synder og Yfertrodſlur/ad hn̄ afneite Ogudlegu Athæfe/og Veralldlegu̇ Gyrndum/ en̄ life ſkijrlega Riettferduglega og Gudlega/ j þeſſum Heime/Tit. 2. Þetta hid ſama hefur Gaumgiæfelega athugad Kongurin̄ Manaſſes/ſem ſiaa maa af hans Bænarordum/& þeſſum Heilaga Texta/og ſo hlioda/Æ DRottin̄ Eg Hefe Syndgad/ Ja/ Jeg hefe Syndgad/og eg medkien̄e mijnar Miſgiørder. Fyrſt er oſſ hier athugande/Ad þetta er ein ſkijr/openber/& Yferdrepſkaparlaus Jaatning/& Skriptarmaal/ſem ſiaaſt maa af eigenlegre Meiningu hans Orda/ Og hefur han̄ þeſſa ſijna Jaatning ecke einungis med ſin̄e Hiartans Andvarpan fyrer Gude/heimuglega auglyſt/ helldur hefur hefur han̄ og ſo giørt Openberlega Jaatning/med ſijnum Mun̄e/og þad fyrer ſijnum Skriptar Fødur/ſo ſem en̄ nu a þeſſum Døgum tijdkanlegt er/ ad eirn og ſierhuør Sañchriſtin̄ Madur/kiemur friſvar edur fiorum ſin̄um a are/til ſijns Skriptarfødurs/j Skriptarſtoolin̄/& medkien̄er þar ecke alleinaſta ſijnar Synder og Avirdingar/helldur og eirnin̄ verdur þar af Kien̄eman̄enum kuitt adur og Afleyſtur/af øllum ſijnum Syndum/j Nafne Guds Fødurs & Guds Sonar/og Guds Heilags Anda/Og þetta ſkiedur ſo og framfer/epter ſkickan Guds/ Þuiad lijka ſo ſem ſa Ypparſte Kien̄emadur/a Døgum Gamla Teſtamentesins/þegar han̄ Arlega jn̄gieck j þad allra Helgaſta/ atte a medal an̄ars epter Guds Befalningu/ ad taka tuo Hafra/ og leggia Hlute a þa/ Þar epter atte hn̄ ad taka þan̄ Hafurin̄/yfer huørn̄ Hluturin̄ fiell/ & Offra hønū til Synda Offurs/En̄ yfer Høfud þeſſ an̄ars Hafursins/ atte han̄ ad leggia ſijnar

ſkïnar bædar Hendur/ z játa þar yfer allar Synder Jſraels Barna/ ſydan ætte han̄ ad ſleppa þeim ſama lauſum wt a Villeaudn/ ſo han̄ bære allra Jſraels Barna Synder og Miſgiørder/ wt a Eydemørku/ og þ. irra yrde alldrei fram ar minſt fyrer Gude ad Eilyfu/ Levit. 16. So hefur og ſuo Drotten̄ Jeſus Christus/ fullkomlega Magt og Myndugleika/ gefed ſyn̄ Trwlyndum Pienurum/ Kien̄emøn̄unum/ þeim Forhertu og Jdrunarlauſu Synder aptur ad halida/ z øllum Jdrande trwndum Man̄eſkium Synder ad fyrergiefa/ Huad hid ſama er ſo Myndugt/ Gillldt og Krøptugt/ ſuo ſem þad være giørt af ſialfum Gude/ Þuad ſan̄lega ſeige og ydur/ ſeiger Endurlauſnaren̄ vor/ huad hellſt þier bended a Jørdu/ Skal a Himnum bunded vera/ og huad hellſt þier leyſed a Jørdu ſkal leiſt vera a Himne/ Matth. 18. Item/ Joh. 20. Huørium þier fyrergiefed Syndernar/ þeim eru þær Fyrergiefnar/ og huørium hellſt þier apturhallded þær/ þeim eru þær apturhalldnar.

Lærum þad þui af Dæme þeſſa Jdrande Kongs Manaſſis/ ad draga ecke vndan̄/ ad giøra vora audmiuka Synda Jatning/ med vorum Mun̄e/ og gaungum ſkioortlega fram̄/ Miſgiørder vorar ad medkien̄a/ og þad med ſoddan̄ audmykt og Lytelæte/ ſo ſem vier villdum giøra þad fyrer ſialfs Guds Auglite/ ſa ed Hiartad ælytur/ þ huørs Augū eckert kan̄ huled ad vera þui þau eru ſkiærara en̄ Soolin̄/ Syr. 23. Eitt ſtort mein edr Graftarkyle giører ſtora Pynu mz Verkium j Man̄ſins Lykama/ a medan̄ þad er ecke opnad edur wtkomed/ S. Gregorius. So er z ſo Syndin̄ eirn Jllaluktande Proce og Boolga/ Eſa. 1. Og ef ad hun er ecke opnud med audmiukre Vidurkien̄ingu/ þa ſærer hun og kuelur ſo Man̄ſins Hiarta/ ad hn̄ hefur alldeilis ønguan̄ Frid nie Roo huørke Nott nie Dag/ Pa eg villde hafa þagad/ vrdu myn Bein Mattlaus/ af min̄e Daglegre Veinan/ ſeiger David/ Pſalm. 32. Og jafnvel er Man̄eſkiun̄e þa hætt vid Efaſeme/ og ørvæntingu/ ſem Dæme Cains z Judæ Jſkarioths bevyſa. En̄ þegar a þeſſu Jllsku Raune og Prota Syndan̄a er ſtunged/ med Sverde Løgmalſins/ ſuo ad Saurendin̄ meige wtren̄a/ og Man̄eſkian̄ giefur ſig vnen̄/ kiedt.en̄er ſig ſekan̄ fyrer Gude/ þa finnur han̄ og eirn æſkelegan̄ Lietter/ z Lækning ſynu Hiarta/ ſuo øll Samviſkun̄ar Saar horfa þa til Bata/ þui ef vier ſeigium ad vier høfum øngva Synd/ þa tælum vier ſialfa oſſ/ og San̄leikurin̄ er þa ecke j oſſ. En̄ ef vier medkien̄um vorar Synder/ þa er han̄ trwr z Riettlatur/ ſo ad han̄ fyrergiefur oſſ Syndernar/ og hreinſar oſſ af øllu Ranglæte/ 1. Joh. 1. Cap.

2. Par næſt er oſſ hier athugande/ ad þeſſe Kongur Manaſſes auglyſer ecke einaſta ſyna Jdran/ med Ordunum og Mun̄enum talande | Helldur og eirnin̄ med Hiartanu/ edur heitre Hiartans Andvarpan/ ſm̄ af þeſſū hans Bænar ordum audſkiled er/ þar han̄ ſeiger/ Ach/ Ach Drottin̄/ Eg hefe Syndgad/ Pad ſama eigum vier og ſo ad giøra/ og þar ad Gaum giefa/ fyrer huørium vier ſtøndū/ þa vier afleggiū vor Skriptarmals Synda Jatning/ ſem er þ Drottne/ huør ed reiner og proofar Hiørtun/ og Nyrun/ Jerem. 17. Og veit alla vora

 Vegu

Vegu/huar/edur huørniñ vier høfum Syndgad/ sitiande edur standande/ og
þo vier seigiũ/ Myrkred mæ hylia oss/ þa hlytur eirniñ Myrkred Lios ad ve-
ra/ Psalm. 139. Þar fyrer byrr oss/ ad læta vora Jdran af Hiartans Alvøru
framkoma/ og Synder vorar vera oss af Hiarta leidar/ so ad vier j sañre Aud-
mykt og Alvøru/ føllum þeim Drottne til Foota/ epter huørs Mynd og By-
læte vier vorum Skapader/ Gen. 1. Þeim Drottne sem oss Endurleyste/ med
syns Sonar Dyrmætu Bloode/ þa vier vorum j Syndena fallner/ 1. Cor. 6.
Þeim Drottne/ sem oss hefur hallded vid Lyfed/ fra Moodur Kvide/ og Aud-
synt oss allt hid gooda/ Syr. 50. Og j stuttu Maale ad seigia/ ⁊ orlykum oss/ ⁊
leitum Fridar af þeim Drottne sem Myskunar sig yfer oss/ sem eirn Fader au-
mkar sig/ yfer sitt Barn/ Psalm. 103. Jæ/ vid þañ Drottiñ/ huørn vier høfum
so stoorlega stigt/ og til Reide reidt med vorum margfølldum Syndum/ Læt-
um oss þui vndertaka og seigia med þeim Fortapada Syne/ Himneske Fader/
Eg hefe Syndgad j Himeniñ og fyrer þier/ og er ecke Verdugur ad kallast þiñ
Barn/ Luc. 15. Þar af munum vier stoor Not og Nytseme hafa/ þui soddañ
ein Gudleg hrygd verkr Jdran til Sálpprædis/ huørs øngvañ jdrar. Sie so vier
føllũ ⁊ seigiũ/ Æ Drottiñ/ þa Andsuarar hñ/ O Madur/ huad hefr þu giørt?
Mig aumkar yfer þiñe Eymd/ Eg vil audsyna þier Nææd fyrer Riettlæte/ og
Yferboot fyrer Syndernar medtaka/ Sap. 12. Þui hañ veit af huøriu Verk-
efne vier erum/ hønum til Hugar kiemur/ ad vier erum Dupt/ Psalm. 103. Nu
ef vier seigium þa aptur/ Himneske Fader/ Jeg hefe Syndgad/ þa suarar hañ/
Vertu Hughraustur Sonur/ Vertu Hughraust Dotter/ þynar Synder eru þier
er fyrergiefnar/ Matth. 9. Jtem/ Eg afmæe þynar Synder sem añad Sky/ ⁊
þynar Misgiørder/ sem adra Þoku/ Snu þier til myn/ þuiad eg Endurleyse
þig/ Esa 44. Seigium vier eñ þa framar eins ⁊ Manasses Kongur hier sag-
de/ Jæ/ Drottiñ/ eg hefe syndgast/ og medkieñe mynar Misgiørder/ Eg Græt-
bæne þig/ Fyrergief þu mier/ O Drottiñ Fyrergief þu mier þad/ þa suarar hañ
Eg vil veita þier mijna mykla Nææd/ þuiad so sañarlega sem eg life/ þa hefe eg
øngva Þoknan a Syndugs Mans Dauda/ Treystu og trwdu mynu Orde/ og
mynum Fyrerheitum/ þau skulu vid þig Obrygdanlega halldast/ og j mynum
Syne Jesu Christo vera/ Jæ og Amen/ 2. Cor. 1. Eg vil kasta þynum Mis-
giørdũ j Hafsins Diwp/ so þeirra skal alldrei ad Eilyfu minst verda/ Mich. 7.
3. Þa j þridia mæta/ Auglyser Kong Manasses/ hier og so syna Jdran/ Ad
hañ vilie giarnañ ad feingeñe Fyrergiefning/ Lifa Nyu Framferde/ og j Lif-
nadarens Forbetran/ Þui eg medkieñe mynar Misgiørder seiger hañ framar/
Og giefur þar med ad skilia/ huørsu fwl Suivirding/ og mykel Andstygd ad
Syndeñ sie/ og huad Hrædelegt Hefndar Straff epter þær kome/ og hañ
vilie nu æfenlega hiedan j fra/ siæ betur fyrer synum Efnum/ og alldrei fram
ar meir (j so myken mæta sem hañ kuñe fyrer Guds Nææd) Dioffulsins Aeggiu
gar og Holldz og Bloods tilteigingar vitanlega samþyckia/ til þess ad drygia
Synder. O huad harla Naudsynlegt er þetta Jdrunar Dæme Manasse/

øllum

Øllum Syndaña audmiukum Medkieñurum/ og Jatendum/ til Vmburinar og Epterbreitne/ad þeir kome ecke til Skripta alleinasta fyrer Vana eda Side saker/ eda wtvortis ad Lykamañi/ j einsømlu Hræsniñar skyne/ þui þad er hiñ meste Hæske. Helldur æ Hiartalaged og sa Jñre Madurin/ Muñsins Jatningu Samhlioda ad vera/og Asetningurin stadfastur/og Oraskanlegur/ ad læta af Syndunum/epter leseñ Skriptarmaal/og giørda Jdran/ añars er eingeñ Nytseme ad þeim eda heñe/Aflausnin hefur ei helldur nockurn Krapt/helldur verda þar myklu framar fordañ Møñum/ sem sig vilia ecke framveigis betra/ þeirra Synder aptur halldnar/til Eilyfs Dooms og Fyrerdæmingar/Fared ecke Viller Vega/Gud lætur ecke ad sier hæda/seiger Paulus/Gal.6.

Þar giefast marger/sem hafa þa Ranga og vonda Meining/ad þeir hafe vel halldet Hwe/og kuñe Gooda Raadsmensku ad giøra Lyfernis syns/ ef þeir ad eins take sier Vara fyrer þeim wtvortis Grofustu Syndum/ suo sem er/slæ j Hel siñ Naunga/drya Hoor/Stela z Ræna/Naungan sykia/z so framveigis/ Eñ hinar adrar Synder sieu lytelvægar/ þo þeir liuge/Suyke/ Formæle/edur Skamyrde suo vnder tydeñe/ edur adrar þuilykar Synder drygie. Eñ þesse Limitatio edur Syndaña Adgreining gillder alls eckert/ þui Drotteñ/sem bañad hefur þa stærre Syndena/ hañ hefur og so bañad ad drygia þa miñe/ helldur er þad so sem þeir Gømlu pløgudu ad seigia/ ad þar være alldrei nockur Synd suo Lytelsvæg/ ad ef madureñ elskade hana og ydkade/so kyñe þar af ad verda Synd til Dauda/ og þegar þær eru so Oaflætanlega Drygdar/ æ huørium Deige/ Viku/ Mañude og Aare/ þa verdur þar af Stoor Obærleg skullda Suma. Til Dæmis/ J deige eru 24. stunder/þær giøra æred vm kryng ætta þusund z sjø Hundrud Stunder. Nu þo vier drygim ecke vtan eina Synd æ sierhuørre eiñe Stundu/ þar Mañeskiañ Syndgar þo myklu meir/ þa eru þo Syndernar epter Stundatalenu vm Ared/ ætta Þusund/sjø Hundrud/ Sie Madur þriatyu æra gamall/so hleypur þesse Suma vppa sex og tuttugu Þusundsiñum Þusund/tuø Þusund og ætta Hundrud/ Verde nockur sextyu æra/ þa tuøfalldast eñ þa Sumañ æ ny/þ er ad søñu ein Oreiknanleg Suma og Obærleg Byrde/ Og þui seiger þesse Manasses fyrre j siñe Bæn/Mynar Synder eru fleyre eñ Sandurin j Sioonu/David og eirnin/Huør kañ ad vita huad opt hñ fellur? Þegar þesse stora Suma og Syndaskulld æklagar vort Hiarta/z Samviskañ vaknar/so sem af Suefne/þa er hun Obærlegre voru Hiarta/eñ sa Steirn/sem er ferfalldt þyngre eñ vier/þui þad er su Byrde/sem David yferklagar/ Psal.38. Ad yfer sitt Høfud sie vppstyggin. Lærum oss þui med Manasse/Syndernar Daglega jata/þuiad Daglega Syndgunst vier/og vætum allar Nætur vorar Riñar med Tarafløllum/ þuiad vm Augnablik varer Kitlingin sem Madur hefur af Syndiñe/ eñ Kuøliñ vm Endalausa Eilyfd sem fyrer Syndena kiemur.

## Añnur Greiniñ.

Nu vilium vier giefa oss til añars Punctsins/og framar wt af þessum Texta athuga/huørsu ad Manasses Kongur bidur audmiuklega vm Naad og

Syndanna Fyrergiefning/Ordin̄ hlioda so. O Drottin̄ fyrergief þu mier/ O Drottin̄ fyrergief þu mier þad/ og lat mig ecke Fordiarfast i mijnum Syndum/og lat ecke Straffed liggia Eilijflega a mier/ helldur vililtu ad hialpa mier Overdugum/ epter þinne stooru Miskunseme.

Þrent er þad sierdeilis/sem han̄ bidur um i þessum Ordum/ þad er/Fyrst Syndanna fyrergiefning. Þegar nockur madur dettur ofan̄ i Vatn/edur Diupa Grifiu upp wr hvørre han̄ kan̄ ecke ad komast/ af synum eigen Mætte/ og sier ecke an̄ad vissara um sijn Efne/ en̄ han̄ mune þar Deya/ þa kallar han̄ saargrætelega/ bidur og hroopar epter Hialp/ ad einhvør villde koma/og biarga sier/ Vier erum þessum Manne ei Olyker/ þvi ad fyrer Syndena og Adams Fall fiellum vier i þa Grifiu/sem eckert Vatn var i/Zach. 9. Og lꝏum i einum dꝏpum Saur/Psalm. 69. Þar Belials Becker skelfdu oss. Psalm. 18. Þess vegna var oss san̄lega miøg Naudsynlegt/ad vier Andvørpudum/ badum og Grietum/hvør i synum Stad/so seigiande/O Drottin̄ frelsa þu mijna Saalu O Drottin̄ yfergief þu mig ecke/og tak ecke þijna Hønd i burt fra mier/ Gud mitt Hialpræde/ þui Angist mijns Hiarta er mykel/Hialpa þu mier i burt wr mijnum Naudum/Psalm. 116. 17. 25. Neydin̄ kiemer ecke alleinasta ad bidia/helldur og einnin̄ ad grꝏta/sierdeilis þa Synderner eru uppvaknadar/edur Straffed a dettur/sem Synderner leida epter sig/ med hvørju vor verdur heim vitiad/ suo sem Manasses Kong hier skiede. Sumra vitiar Drottin̄ m Pestilentiu/og Drepsott/ sin̄ hn̄ giørde vid David. Sumra med Strydsmagt og Ofurefle/sem Josaphat/Sumra med Sott og Siukdoomum/sem Konginum Ezechiam/og þa er Ormaturin̄ vort fyrsta Hlood/Sap. 7. Þa hroopum/bidiu̅ og Tarfellum vier/ og køllum Saargrætelega/ eins og Kvin̄an̄ i sinne Barnsfødingar Neyd/Esa. 25. Og þad mun ei helldur forgiefins verda/ helldur mun vor Drottin̄/ sem er Rijkur af Myskun/heyra þa vora Bæn/ og Hialpa oss/ suo sem vier fin̄um þar uppa nooglig Dæme/ i Heilagre Ritningu/ ad han̄ hefur øngvan̄ fra sier reked/sem til hans hefur komed/Joh. 6. þui hn̄ giører hvad þeir Gudhræddu girnast/heyrer þeirra kall/ og hialpar þeim/Psal. 145. David var eirn Stoorsyndare framde Hoordoom med Vriæ Hethiters Kuinnu/en̄ sloo sialfan̄ Vriam i Hel/med Suerde Ammons Sona/en̄ þa han̄ strax umvende sier/Jdradest og sagde/Myskuna þu mier Drottin̄/et cet. Psalm. 51. Þa fiek han̄ gooda Aflausn Synda sin̄a. Þar Prophetin̄ Nathan/giørde hønum Huggunarfulla Absolution/og Kunttun i Guds stad/seigiande/ 2. Sam. 12. Drottin̄ hefur i burttekid þijna Synd/ og þu munt ecke Deya.

Hvad stoora Syndabyrde og Samvitskusturlan/meine þier ad sa Jdrande Tollheimtumadur hafe haft i sijnu Hiarta? Þa samt fiek han̄ og ødladest Fyrergiefning Synda sin̄a/þa han̄ barde sier a Briost/og sagde/Gud vertu mier syndugum Lijknsamur/og þa giek han̄ Riettlaatur i sitt Hws/ Luc. 18. So hefur og so sialfur Lausnarin̄ vor Jesus Christur Syndanna Fyrergiefning/giefed og

ed og

o og tilſagt øllum þeim/ ſem ſier j Bæn/ Jdran og Lifande Trw hafa nidur
kaſtad/ fyrer hans Nadarfætur/ og vætt þa med ſynum Tarum/og þurkad
med ſynum Haarlokum/ Luc. 7. Hier vid meigum vier oſſ þa Hugga/ ſuo
vier þurfum ei vm Guds Nad oſſ ad ørvænta/ eñ þo vier høfum eñ þa fram
ar Syndgad eñ Manaſſes/helldur ſkulum vier vora Bænar Rauſt med hønum
vpphefia/bidia og ſeigia/Eg Bid Og Graatbæne þig/ Fyrergief Þu Mier O
Drottiñ Fyrergief þu Mier/þa hialp^r hñ ſañarlega voru Malefne/ þui huar
Syndiñ yfergnæfer/ þar yfergnæfer Nadiñ myklu framar/Rom. 5.
2. Bidur hañ/ Ad Straffed ſem ſynar Synder hafe for þienad/ þad mætte
burttakaſt. Þetta Straffed er ſierdeils tuøfalldt/ ſem hñ hier meinar/ Og er
þ. fyrſt Vgl/ørvænting z Efaſemæ/Þad ſama merkeſt af þeſſu hans Orduñ/þar
hañ ſeiger. Laattu Mig Ecke Fordiarfaſt j Mynum Syndum/Sem hañ villde
ſagt hafa/Eg hefe leſed og veit vel/ þa Hryggelegu Hiſtoriu vm Cain/ Saul
og Achitophel/ et cet. Huørſu þeir fiellu j ørvænting af Syndum
ſynum/og eru med øllu til Dióþulſins hrapader. Æ/ þui bid eg þig miñ goode
Gud/Æ/laattu mig ecke þad eda þuilykt henda/Vidhalltu mier/j þeſſare miñe
ſtooru Hørmung/ og bevara mig fra þeim Eilyfa Sælareñar ſkada/ Og læt
mig ecke Eilyflega Glataſt. O myner Elſkanleger/læted ydur þeſſa Jdran
ar bæn( ſem ſamañtuiñud er vid øflugt Trwareñar Atak)ydur alldrei vr mi
ñe falla. Huad margur er ſa/ſem harla lytels virder ſyna eigen Samviſku?
eñ þa hun vaknar epter lidiñ Synda Suefn/ þa giører hun ſier eckert ad Gam
ne/helldur ſyner hun ſig þa j Eigenlegre Veru/og giører þa einum Syndara ſo
mykla Grooſeme/ad hañ veit ei huar hañ meige fiña þañ litla Zoar/Gen. 19.
Og Huyldarſtad/ſem hann Saalu ſie ølldungis forborgid z hialpad j/og hann
fryeſt fyrer Angiſtiñe. Þui ſkyllde eingiñ j Syndunum Ugglaus lifa/ helldur
med Ugg og Otta ſyna Saluhialp verka/Phil. 2. Vier ſkulum Koſtgiæfele
ga vitia vorrar Soknar Kyrkiu/og vpptendra vorn Trwar Neiſta/og hañ he
itañ og velſkynande giøra fyrer Auglyſing Goodra Verka/Matth. 5. Huad
ſa goode Kongur og Spamadur David gott og Raadlegt hiellt/ Pſalm. 94.
Marga Hugarhrelling hafda eg j mynu Hiarta/eñ þynar Hugganer vidhielldu
mier/Þær Endurnærdu myna Saalu. Gleymū z ei helldur jñelegre Bænrækt
ne/ myklu fram^r Andvørpū Daglega med David/z ſeigum/Pſalm. 51. Burt
kaſta mier ecke fra þynu Auglite/og tak ecke þiñ H. Anda j burt fra mier/ Hu
gge mig aptur þitt Hialpræde/og þiñ Mattar Ande ſtyrke mig. Og med Chr
iſtelegre Kyrkiu/ Ei leid þu oſſ j Freiſtne jñ/þa oſſ aſæker Ovinuriñ/a vinſtre
og a hægre Hlid, et cet. Miñunſt Sañleiks Orda Guds og Saattmaala/ſo vel
j Sacramente Alltareſins/ſem z H. Skyrnar/vm huørrar Jñſetningu z Nyt
ſeme/Lauſnariñ vor Jeſus Chriſtus talade ſo til ſiña Lærefueina/ Luc. 10.
Gledied ydur þar af/ad ydar Nøfn eru vppſkrifud a Himnum/z Paulus ſty
ngr vppa ſømu Meining/ſeigiande/So marger af ydr ſem ſkyrder erud/þa ha
fe þier Jklædſt Chriſto/ Gal. 3. Þeſſ H. Alltareſins Sacramentis ber oſſ og

eitnin ad miñast/og þad sama j Hræsnislausre Gudrækne opt og ofialldañ tijd-
ka/Huar jñe ad Christur verdur eitt med oss/so hañ blijfur j oss/og vier j hønn-
um/alltijd og ad Eilijfu/Joh.6. Huør sem nu þesse Heilsusamlegu Sæluhial-
par Medøl bevkar/j sañre Jdran/Lifande Trw/z Christelegū Dygdum/ Sa
kañ og mæ med Postulanum S. Påle/seigia j goodre Samvisku/Fyrst Gud er
med oss/huør kañ þa ad vera æ mote oss? Huør ed ei hlijfde synum Eingietnū
Syne/ helldur gaf hañ wt fyrer oss alla/ þui skyllde hañ þa ecke giefa oss alla
Hlute med hønum/Rom. 8. Þar næst meinar hañ hier Eilijfa Fyrerdæming
Þui so hlioda Ordiñ framveigis/ Lættu Ecke Straffed Liggia Eilijflega æ
mier. J þeirre Lætinsku Vtleggingu stendr so/Vtskufa mier ecke j hinar ned
stu Hælfur Jardar. Hier er so myked sagt z talad j Meininguñe. Avoj Dro
ttiñ miñ Gud/Mijn Fiøtr z Fængelse er mier so þungt/huørt eg vil þo giarnā
lijda/ef eg mætte nu einasta vmflya eilijfa Fyrerdæming/. sem eg hefe margfal
ldlega forþienad/med mijnum Syndum/þui er mijn Hiartans Osk og Beidne/
ad ef eg skal læta mitt Lijf/ j þessum mijnum Fiøtrum/ Avoj/þa Bevara þu
mig/miñ goode Gud/fra Eilijfre Kuøl og Fyrerdæmingu/Og lættu ecke Str
affed liggia Eilijflega æ mier. Avoj/vier Aumer og Margsynduger Meñ/
vier skylldum af Hiarta bidia og seigia/Drottiñ Fyrergiefdu mier mijnar Sy
nder/þui ef þu villder ganga j Doom vid mig/ þa verd eg ad eilijfu Fordæm-
dur/ þui eg edur nockur añar/ kañ ecke ad standast fyrer þier/ og eingiñ
er sa sem ecke syndgar/ Og þat eigum vier ad þeckia z Vidurkieña þad fyrer
eina stoora Nææd/þegar vor goodur Lijknsamur Fader/Lifande Gud/hañ sier
og veit j Sañleika/ad vier erum tiju Þusund Pund skyllduger/Þad er Obære-
lega Sekt og Synd/eñ giefur oss þo vpp alla Skulldena/Matth. 20. O huis-
lijk Nææd er þad þa/ sem vier ættum þacklætlega ad medkieña/þegar Drottiñ
vor Refsar oss/med synu Fødurlegu Hyrtingarhrijse/vppa þad/ad vier verd
um ecke Fordæmder/med þeim jlla Heime/ 1. Cor. 11. Þuiad þad er længtum
betra ad strijda og beriast hier/eñ lijda þar þa Eilijfu Kuøl/fyrer vtañ allañ
Enda añars Heims/Esa. 66. Cap.

3. Bidur Manasses vm Nææduga Hialp Guds Almættugs/þar hañ seiger/
Helldur virdstu Ad Hialpa Mier Overdugum/ Epter Þiñe Storu Myskunse
me. Manasses læ þañ tijd beygdur/ j þungum Jarnbøndum/og hafde jafn-
framt þeirre Þiæningu/eina vonda Samvisku/ Huøria hañ hafde med mørgū
og storum Daudlegum Syndum flekkad/Þess vegna skamadest hñ syn/synū Au
gum til Himens ad lijta/suo sem giørde sa aume Tollheimtu Madur/Eñ med
þui þar er ecke nockra Hialp ad fiña/ vtañ alleina hia Drottne vorum Gude/
þa setur hañ hier tuo Hlute/huørn æ mote ødrum/Fyrst siñ Overdugleika/z
sijdañ Guds Nææd og Myskunseme/ og bidur jñelega/ad Gud vilie ecke siñ O-
verdugleika alijta/ helldur hañ villde j Nææd z Myskun vid sig høndla/ fyrer
Skulld og Saker Messiæ/sem j Heimiñ koma skyllde/huør ad er einaste Medi-
algangare/ æ millum Guds og Maña/ j huørium Faderiñ hefur oss þægelega
giørt

Eph. 1. So er þui og ſo vared ꝼ oſſ øllū ſamaū/ad huad vier erum/huad vier
høfum/og huad vier formeigum/ þad høfum vier ecke af oſſ ſialfum/ helldur
af Gude/og hliootum þui ad ſūflya til hans Nꝍdar og Myſkunar/ſegiande
med David/1 Par.30. Drottiñ/ þier ber Valld og Magt/Dyrd/ Sigur og
Þackargiørd/Magt og Styrkur kiemur af þiñe Hende/ J þiñe Hende ſtendur
ad giøra ſierhuørn Mañ mykiñ og ſterkañ. Þad er ein yferfliootanleg Myſk
un/wt af huørre/ ſo ſem af einum Oppauſanlegum Bruñe/ vier aller/ huer
med ødrum/ høfum feinged Nꝍd fyrer Nꝍd/ Joh. 1. Kieñemeñerner og Ord-
ſins Predikarar meiga ſeigia/ Drottiñ virdſtu ad hialpa mier Overdugum/ept
er þiñe ſtooru Myſkunſeme/ og vpplꝍttu mynar Varer/ſuo ad miñ Muñur
Kuñgiøre þitt Lof/Pſalm.51. Þui vier erum ecke nyter af oſſ ſialfum/ſo ſm̄
af oſſ ſialfum til/nockud gott ad huxa/ Helldur ef vier erum j nockru neyter/
þa er þad af Gude/ ſem oſſ hefur Duganlega giørt/ fram ad flytia Embꝍtte
þeſſ Nya Teſtamentis/2.Cor.3. Eirn Chriſtiñ Yfervalldsmadur mꝍ vel ſeig
ia/Drottiñ virdſtu ad hialpa mier Overdugum/ epter þiñe ſtooru Myſkunſe-
me/þui þad Embꝍtte/ j huøriu hañ ſtioornar/er ein þung Byrde/ Num.11.
Og þeir hliota opt Amꝍle og Laſtyrde ad lyda/ af þeim Vndergiefnu/ jafnt
framt ſiñe Embꝍttis Mꝍdu og Erfide/ Og til þeſſ mun Saul hafa viſſelega
lited/þa hañ falde ſig vnder Kierenu/er hñ ſkyllde til Kongs takaſt/1.Sam.
10.C. Þui ſkylldu þeir bidia Almattugañ Gud/ad hañ villde bwa og byggia
hia þeim/med Anda Vyſdooms og Skilnings/ Rꝍds og Styrkleika/Eſa.11.
Eirn Gudhrꝍddur Hwsfader/mꝍ og ſo j ſama mꝍta ſeigia/ Drottiñ virdſtu
ad hialpa mier Overdugum/epter þiñe ſtooru Myſkunſeme/ þuiad þad er for-
giefens ad ſtanda ſnemā vpp/og ſitia leinge fram̄ epter/og eta ſitt Braud med
Sorg/Pſal.127. Ef Gud giefur ecke Friofgunena til þeſſ ſem plantad er og
vøkvad/1. Cor.3. Hialpiñ Guds er ein Almattug Hialp/ þui hia hønum er
eingiñ Hlutur Omøgulegur/ Luc.1. Hialpiñ Guds er allſtadar nꝍrverande z
Nꝍlꝍg/vppa huøria vier meigum reida oſſ og forlꝍta/ j øllum ſtødum/og øll-
um ſtundum vors Lyfs/og huørſkins Hørmungum/ſem oſſ kyña til ad falla/
þui ſuo ſeiger Drottiñ/ Ottaſt þu ecke/ eg hefe frelſad þig/ og hefe kallad
þig med þynu Nafne/Þu ert miñ/ſo þo þu ganger j giegnum Vatned/þa vil
eg vera hia þier//ſo ad Vatnsføllin ſkulu ecke Dreckia þier/Og þo þu ganger
j giegnum Elldiñ/ þa ſkalltu ecke breña/ og ſa Elldsloginn ſkal ecke breña þig/
Eſa.43. Hialpiñ Guds er ein ſterk z Krøptug Hialp/þt hñ fremr Magt med
ſynum Armlegg/og hefur ſo ſterka og øfluga Hønd/ad hun kañ øllu vm ad be
ita/Pſalm. 77. Hialpiñ Guds er ein Dꝍſamleg Hialp/ þui þa vier erum
ſtadder j ſtꝍrſtu Neyd og Vandrꝍdum/ og vitum ecke huad vier ſkulum giøra/
eda huørt vier ſkulum horfa/eins og Kongurin Joſaphat/2.Par.20. Þa vei
it hañ nog Rꝍd og Medøl/ ſyna Trwada wr Freſtingunum ad frelſa/2.Pet.
2.C. Hialpiñ Guds er ein Huggunarfull Hialp/þuiad þa øll Mañleg Adſtod
og Hialp er wte/ og Neydiñ er ſem hꝍdſt/þa er Hialpiñ hans ſem nꝍlꝍguſt/ſo

 ſierhuør

sierhuør hlytur ad segia/ þad hefur Gud giørt/og skilia ad þad eru hans Verk/ Psalm. 64. Standed og skoded nu/mijner Elskanleger/soddan Almattugan Naudhialpara høfum vier/treysted hønum af ølla Hiarta/ j øllum ydar Hørmungum/ þa mun ydur eckert bresta/ þui han̄ er stoor/og hans Nafn er myked/ & han̄ kan̄ þad med Verkunum ad Auglysa/ Jerem. 10.

## Þridia Grein̄.

NU j þridia og sijdasta Punctenum/ høfum vier ad athuga/ þad Loford/ & Packlætis Heitstreinging/ med huørre Kongurin̄ Manasses Obligerar/ og Forplicktar sig/ad han̄ skule lofa Gud Drottin̄ alla sijna Lijfsdaga/ so sem upplesen̄ Textans Ord þar um hliooda. Hin̄ H. David skrifar suo um Soolena/ Psalm. 19. Ad hun kome upp a einum Enda Heimsins/ & ren̄e so um kring/ til hins sama Enda/ Pad er eitt Jmind edur Figura vors Christendooms/ þui ad Jesus Christur vor Endurlausnare/er Sool Riettlætesins/en̄ vier erum Solargeyslanum ad nockru leite ecke olijker/Og so sem han̄ snijr sier epter Soolun̄e a Morgnana/til Austurs/en̄ a Kuølldin̄ til Vesturs. So byriar oss og einnin̄/ad vier breytum oss og sniwum epter Christo/ & so sem j jafnlegu Hringhlaupe/hafa giætur og athugasemd a vorre skylldu/ Huar um vor goode Gud Drottin̄ so talar/ Psalm. 50. seigiande/ Akalla þu mig j Neydenn̄e/þa vil eg frelsa þig. So leinge sem vier lifum j þessum Eymdardal/þa hliotum vier Neyd/ Angist og Hørmung ad lijda/ Ja/være Dagar eru fáer og jller/ og fuller Armædu. Nu ef vier akøllum Drottin̄ j vorre Neyd/ þa fyrerheiter han̄ Frelsunin̄e/ þui ei mun han̄ lata han̄ Riettlata æfenlega Groo hafa/Psal. 55. Nu þegar Drottin̄ frelsar oss Dasamlega wt af Neydin̄e/ þa eigum vier skyllduglega hm̄ þar f. audmiuklega ad þacka/hans H. Nafn þar fyrer lofa/ & med Packlætis Offre giallda vor Heit/þeim Drottne sem oss biargade/ Jon. 2. Þesse Heitstreingingin̄ vor/ a ad vera stadføst og Oraskanleg/ ad vier bregdum hana alldrei alla vora Lijfsdaga/eins og Manasses hier lofar/ en̄ þad geingur ofuglega & myked ødruvijs til/fyrer mørgum huørium a þessum Døgum/ þui midur) Þui þegar einhuør audsyner nockrum Man̄e Velgiørning/þa skrifar sa sem þiggiande er/þan̄ Velgiørning a Sand/Vax eda Vatn/ Pad er Meiningin̄/han̄ gleymer hønum strax/og tiner sig ecke Packlatan̄ þar fyrer/ En̄ þegar nockur stygger an̄an̄/ og giører/ nockud a mote hønum/ suo er þad Leterrad og grafed uppa Marmara stein/ suo þad kun̄e æfenlega ad vera j þerskumin̄e. Ei giørde Kong Manasses so/helldur lofar hier/ef Drottin̄ Hialpe sier nu Overdugum/epter sin̄e stooru Miskunseme/so skule han̄ þess med Packlætis min̄ast/alla sijna Lijfsdaga. Loflegt er þetta Epterdæme. O huad stoorar Velgiørder/og yferfliotanlega Miskun/audsyner oss vor goode Gud/allt fra þui vier fædunst af Moodur kuide/ allt til þess/ ad vier verdum j Jørdena lagder. Og ef vier riettelega ælijtum/ þa uppbyriast allra fyrst vort Sælgiørte/epter vorn Dauda & Burtfør/þegar sialfur Gud verdr vor Sool & Skiølldur/og giefur oss Nad og Heidur/ og lætur þa Gudhræddu ecke hafa skort a

nockru

